LEVYS

# KENNSLUBÓK

HANDA

## YFIRSETUKONUM

AUKIN OG ENDURBÆTT AF

**Dr. A. STADFELDT.**

---

**JÓNAS JÓNASSEN,**

LÆKNIR Í GULLBRINGU- OG KJÓSARSÝSLU
HEFUR SJEÐ UM ÚTGÁFU BÓKARINNAR Á ÍSLENZKU.



REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1871.

## RITVILLUR.

Bls. 2 8. línu, ytri fæðingarpartar á að vera *innri fæðingarpartar.*

— 119 Þriðji kapítuli á að vera *fjórði þáttur.*

— 120 Fyrsti þáttur á að vera *fyrsti kafli.*



# Fyrsti þáttur.

## Um fæðingarpartana.

### 1. grein.

Yfirsetukonunni ber eigi að eins að leggja ráð og veita hjálp í fæðingunni sjálfri, heldur er og opt þörf á slíku um sjálfan meðgöngutímann, og þá er konan liggur á sæng. Hún verður því nákvæmlega að kynna sjer þessa lífskafla konunnar, bæði þá er allt fer sem skipulegast, og eins þá, er nokkuð út af ber. En til þess að yfirsetukonan hafi ljósa hugmynd um slíkt, er nauðsynlegt, að hún þekki nákvæmlega þá parta líkamans, sem í þessari grein er allt undir komið, og eru það *fæðingarpartarnir*.

Fæðingarpartar konunnar eru allir á neðsta hluta bolsins. Myndast þeir sumpart af beinum og nefnast hinir hörðu fæðingarpartar, sumpart af vöðva- og himnukenndum pörtum, og nefnast hinir mjúku fæðingarpartar. Flestir fæðingarpartarnir verða eigi sjeðir, og verður því að kynna sjer þá með áþreifing, og nefnast því hinir *innri fæðingarpartar*, og eru þeir þessir: *mjaðmagrindin*, *barnslegið með eggjakerfunum*, *legpípurnar* og *leggöngin*; einstaka fæðingarparta má sjá, og nefnast hinir *ytri fæðingarpartar*, og eru þeir þessir: *holdbrúin* og *blygðunarpartarnir*.

Frá sjerhverjum þessara parta skal nú nákvæmara skýrt, og til þess að skilja það, þegar talað er um að

ofanverðu, að neðanverðu, að framanverðu, að aptanverðu verður ávallt að hugsa sjer að líkaminn sje upprjettur, og ber þess að geta, að á þessum stað er gjört ráð fyrir, að partarnir sjeu eins og þeir eiga að vera, þá er þeir eru ósjúkir, og eins og þeir eru, áður en þeir breytast um meðgöngutímann og í fæðingunni.

---

# Fyrsti kapítuli.

*Hinir ytri fæðingarpartar.*

## I. Mjaðmagrindin.

### 2. grein.

Beinagrind nokkur neðst í bolnum er nefnd svo. Bein þau, er mynda mjaðmagrindina, mynda einskonar hring, sem er breiðari að aptan en að framan og mynda hol, og í því liggur barnslegið, eggjakerfin, legpípurnar og leggöngin, þvagblaðran og endagörnin. Þegar barnið fæðist, liggur vegur þess úr leginu gegnum grind þessa, og hafa menn því nefnt hana: hinn *harða fæðingarveg*. Mjaðmagrindin er að neðanverðu tengd við lærleggina, að ofanverðu er hún áföst við mjóhrygginn og þannig við bolinn. Skoða má grindina með tvennum hætti: annars vegar einungis bein þau, er mynda hana, hins vegar hol það, er myndast við samskeyting beina þessara.

### 3. grein.

Grindina mynda fjögur bein, og eru þau: 2 ***stór bein***, sitt á hvora hlið, og ná þau saman að framanverðu og nefnast einu nafni *mjaðmabeinin*, *spjaldið*, (beinið í spjaldhryggnum) og *typpið*; hin 2 síðastnefndu

bein og neðsti liðurinn í mjóhryggnum mynda bakhluta mjaðmagrindarinnar. Mjaðmabeinin eru með öllu eins, og það sem sagt verður um annað þeirra, má að sínu leyti eins heimfæra upp á hitt.

1. mynd.




*Myndin sýnir grindarbeinin þá þau eru tekin úr samskeytunum.*

A. *sýnir mjaðmabeinin, og má á þeim sjá samkomur:*
   a. *mjaðmarspaðans*
   b. *nárabeinsins og*
   c. *setubeinsins, þar sem þau mætast í augnakarlinum* d *og eru skeytt saman með brjóski.*
   e. *hið eggmyndaða op.*

B. *neðsti liðurinn í mjóhryggnum.*
C. *spjaldið.*
D. *typpið.*

*Mjaðmarbeinin* má, hvort um sig, á börnum aðgreina í 3 parta, og eru þeir skeyttir saman með brjóski, en síðar, eptir 7. eða 8. ár gróa þau samnn, og á fullorðnum verður að eins eitt bein úr þessum 3 pört-

um. En sökum þess að beinið er æði stórt, hafa menn nefnt hina einstöku parta beins þessa, eins og þeir voru nefndir í fyrstu, og er það einkum vegna þess, að hægra er að lýsa beininu og skýra frá einkennum þess, þá svo er með farið. Af þessum rökum er mjaðmarbeininu, hvoru um sig, skipt í 3 parta, og eru það: *mjaðmarspaðinn*, *setubeinið* og *nárabeinið*.

*Mjaðmarspaðinn* er stærstur af beinum þessum; hann liggur efst og myndar breiðan flöt, sem að innanverðu er nokkuð íbjúgur. Hin efri rönd á mjaðmarspaðanum er eigi samtengd öðrum beinum, og er fremsti partur hennar kallaður *randartoppurinn;* nokkru neðar má sjá ávala rönd á þeirri hliðinni á beini þessu, er veit inn í grindarholið, og myndar rönd þessi nokkurn hluta af boga þeim, sem aðgreinir efra og neðra grindarholið. Að aptanverðu er mjaðmarspaðinn tengdur við spjaldið með brjóski og sterkum sinum.

*Setubeinið* er hinn neðsti hluti mjaðmarbeinsins. Sá hluti beins þessa, er veit upp, er eigi fyrirferðarmikill, en sá hluti, er veit niður, er allur þykkri, og þar er þessir partar mætast, myndast nokkurs konar horn, sem kalla má *setubeinskrókinn*. Fyrir ofan krókinn á þeirri hliðinni á hinum neðra hluta setubeinsins, er veit aptur, er beinnibba nokkur, sem kölluð er *setubeinsnibban,* og veit hún inn á við; 2 sinabönd liggja hjeðan, annað frá króknum, hitt frá nibbunni; lendir þeim síðan saman, og festast þau svo á hinum neðri hluta hliðarrandarinnar á spjaldinu. Bönd þessi mynda hinn aptari barm á neðra opi grindarinnar.

*Nárabeinið* liggur að framanverðu og er hinn fremsti hluti mjaðmarbeinsins; annar partur þess liggur um þvert, en hinn liggur niður á við og mætir hann þá

þeim parti setubeinsins, er upp veit. Á þeim hluta beins þessa, er um þvert liggur, má sjá eigi alllitla rönd, og myndar hún, líkt og röndin eða boginn á mjaðmarbeininu, takmörkin milli efra og neðra grindarholsins. Að framan mætast bæði nárabeinin og eru skeytt saman með breiðu brjósklagi. Þessa samkomu nárabeinanna kalla menn *blöðrubeinið*, og neðan undir því, þar sem hinir neðri partar nárabeinanna fjarlægjast, verður nokkur *bugur* á, og er hann kenndur við blöðrubeinið.

Þessir 3 partar af mjaðmarbeininu, er nú hefur verið skýrt frá, eru á börnum aðgreindir, en síðar gróa þeir allir saman, og má sjá samskeyti þeirra í holu nokkurri utan á mjaðmarbeininu. Hola þessi er hál innan og gengur í hana efri endi lærleggsins, holan er kölluð *augnakarlinn*, og ef hægt væri að skilja þessi 3 bein sundur, mætti sjá nokkurn hluta af liðholu þessari á hverju beininu sjer.

*Spjaldið* er fyrirferðar mikið, breitt að ofan, en mjókkar þá er niður eptir dregur. Sá flötur þess, sem veit inn í grindarholið, er að mestu leyti sljettur og mjög svo íbjúgur. Á þeim fletinum, er snýr út, eru margar ójöfnur; hann er hvelfdur, og á miðjunni standa út úr honum beinnibbur, sem glöggt finnast, þá þreifað er utan á líkamanum. Bein þetta er á börnum samsett af mörgum pörtum, en síðar gróa þeir allir saman, og má sjá samkomurnar á innri fletinum. Að ofanverðu er spjaldið samtengt við hinn neðsta lið í mjóhryggnum með brjóski, til hliðanna við mjaðmarbeinin, að neðanverðu við typpið og eru þau liðamót sveigjanleg. Af samskeytum neðsta mjóhryggjarliðsins og spjaldsins, myndast beinrönd nokkur eigi alllítil, og má

kalla hana *spjaldbunguna.* Til beggja hliða út frá bungu þessari, í grend við samskeyti spjaldsins og mjaðarbeinanna, eru hin íbjúgu vik grindarinnar.

*Typpið* er lítið á stærð, þríhyrnt, og er samansett af mörgum smápörtum, er áfastir eru hver við annann. Að ofan er það tengt við sjpaldið, og eru þau liðamót sveigjanleg, en neðra enda þess má finna að aptanverðu við þarfaganginn. Með því að samskeyti heins þessa og spjaldsins eru sveigjanleg, lætur hein þetta undan í fæðingunni og sveigist það þannig hjer um bil einn þumlung aptur á við, og víkkar þá hið neðra op grindarinnar um það, er þessu nemur.

4. grein.

Hinn efri og neðri hluti *grindarholsins* eru mjög svo fráhrugðnir hvor öðrum, hæði að vídd og lögun, og hafa menn því nefnt hinn efri hluta grindarinnar *hið stóra grindarhol*, en hinn neðri hluta: *hið litla grindarhol.* Áður er skýrt frá eigi all litilli beinrönd á þverhluta nárabeinsins, sem nær saman við hogann á mjaðmarspaðanum, en þá tekur við að aptan bungan á spjaldinu, er sameinar mjaðmarspaðabogana frá báðum hliðum. Hringur þessi, er þannig myndast, gjörir aðskilnaðinn á milli hins stóra og litla grindarhols.

Mjaðmarspaðarnir mynda hið stóra grindarhol til hliðanna og á baka til neðsti mjóhryggjarliðurinn, má því segja, að hann sje að nokkru leyti eitt af sjálfum grindarbeinunum. Að framan liggja engin hein í stóra grindarholinu, heldur tekur þar við kviðurinn og kemur það opt að góðu haldi, þegar kanna skal þá parta, sem eru í sjálfu grindarholinu.

Neðri partur grindarholsins myndar aptur á móti

hið litla grindarhol og liggur að framan *kviðbeinið* (nárabeinin bæði og samskeytaflötur þeirra eða blöðrubeinið), til hliðanna setubeinið og nokkur hluti mjaðmarspaðanna og sinabönd nokkur, en á baka til spjaldið og typpið. Það er því á allar hliðar umgirt að mestu leyti af beinum, og sökum þess, að það er miklu minna í sjálfu sjer, er það auðsætt, að hjer muni einkum tálmast fyrir burðinum í fæðingunni.

Nú má ímynda sjer hið litla grindarhol sjer í lagi; verður það þá opið að ofan og neðan, en beinagrind umhverfis, og verður þá auðsætt, að op þessi má kalla *efra* og *neðra op*.

Hið *efra op* litla grindarholsins byrjar þá auðsjáanlega á takmörkum stóra og litla grindarholsins, og barmur ops þessa verður með öllu hið sama og takmarkaboginn milli hins stóra og litla grindarhols. Þegar op þetta er nákvæmara virt fyrir sjer, sýnist lögun þess líkjast hjarta og er því víðast um þvermálið.

*Neðra opið*, eða þar er litla grindarholinu sleppur, takmarkar að framan boginn undir blöðrubeininu, til hliðanna krókarnir á setubeininu og sinabönd nokkur, á baka til typpið. Þá er maður ímyndar sjer typpið sveigt á bak aptur, eins og t. a. m. í fæðingunni, verður op þetta að mestu leyti í lögun eins og egg.

Allt bilið millum efra og neðra opsins er kallað *grindarholið*.

### 5. grein.

Leið burðarins liggur í fæðingunni um grindarholið, og náttúran hefur borið umhyggju fyrir því, að það hjer um bil samsvarar stærð fulltíða burðar. Af þessu er þá auðráðið, að öll grindarhol kvenna verða hjer um

bil jafnstór, sjeu þau annars vegar rjett mynduð, og hafa menn með mælingum komist að raun um að svo er. Í því skyni hafa menn tekið eptir vídd og lögun margra grinda, milli tiltekinna auðkenna á grindarbeinunum, og hefur sú raun á orðið, að víddin er að mestu leyti jafnstór í öllum grindum og lögunin hin sama, og hafa menn því komið sjer saman um að kalla þá grind einungis rjett myndaða, er samsvarar þessari viðteknu vídd og lögun.

Yfirsetukonan þarf að kynna sjer þessa *vídd* og *lögun* grindarinnar, svo hún geti gjört mismun á, hvort grindin sje rjett mynduð eða henni sje í nokkru áfátt; hún skal því setja á sig þá vídd og lögun grindarinnar, sem hjer segir:

Í *hinu stóra grindarholi* er einungis eitt bil tiltekið, og er það bilið millum beggja randartoppanna á mjaðmarspöðunum, og er það talið 9 þumlungar.

2. mynd.




*Myndin sýnir mjaðmargrindina í heild sinni; línan a-b víddina á þykktina í efra opi grindarinnar, e-f*

*víddina á breiddinni og g-c víddina á ská í hinu sama opi, a sýnir spjaldbunguna og b blöðrubeinið.*

En öðru máli er að gegna um *litla grindarholið*, sökum þess, að það er eigi jafnvítt á öllum stöðum, og verður því að tiltaka vídd þess bæði að ofan og neðan og um sjálft holið.

A. *Í efra opinu* eru þessi bil tiltekin:

1. *Víddin á þykktina*, frá bungunni á spjaldinu í efri röndina á blöðrubeininu, 4 þumlungar.
2. *Víddin á breiddina*, frá miðjum boga mjaðmarbeinsins til sama staðar á hinu mjaðmarbeininu, 5 þumlungar.
3. *Víddin á ská*, úr samskeytum nárabeinsins og mjaðmarspaðans á aðra hlið og þaðan á ská í grindarvikin, $4^1/_2$ þumlungar.

B. *Í neðra opi grindarinnar:*

1. *Víddin á þykktina*, frá boganum undir blöðrubeininu til hins neðsta enda á typpinu er $3^1/_2$ þuml., en í spjaldið rjett fyrir ofan typpið er $4^1/_4$ þuml. (3. mynd línan g-h).
2. *Víddin á breiddina*, milli krókanna á setubeininu, 4 þuml.

C. *Í sjálfu grindarholinu* telzt svo til:

1. *Víddin á þykktina*, frá miðju spjaldinu mitt á blöðrubeinið er $4^1/_2$ þuml. (3. mynd línan e-f).
2. *Víddin á breiddina*, milli fremstu nibbanna á setubeinunum, 4 þuml.

Af þessu má nú sjá, að hið litla grindarhol eigi er á öllum stöðum jafn vítt, og eins er það heldur eigi jafn djúpt á allar hliðar, því grindin sjálf nær eigi jafn hátt á öllum stöðum. Styzt nær grindin upp að framan hjá blöðrubeininu, og er hæð hennar þar einungis $1^1/_2$ þuml.;

til hliðanna gengur hún lengra upp, en lengst nær grindin upp eptir að aptan, frá neðra enda typpisins upp að bungunni á spjaldinu, og er hún þar 5 þuml. á hæð.

6. grein.

Það er eigi einhlítt, að þekkja stærð grindarholsins, heldur þarf og að taka eptir *vindingnum* á því, og fá rjetta hugmynd um hann. Þeim skjátlaðist mjög, er ímyndaði sjer, að grindarholið væri beinn vegur að ofan og svo niður úr, er burðurinn fer um í fæðingunni; vegur þessi er aptur á móti undinn og er það auðskilið að svo hlýtur að vera, þegar þess er gætt, að aptari hluti grindarinnar er íbjúgur, þar sem hann myndar spjaldið og typpið. Setjum svo, að lína sje dregin beint í gegnum mitt grindarholið, þá verður lína þessi engan veginn bein, heldur verður hún boginn, og samsvarar bugða sú, er verður á línunni, því nær bugðunni á spjaldinu, og yrði bugðan mest að neðanverðu þar sem aptari hluti grindarinnar er mest íbjúgur. Lína þessi, sem þannig er dregin, er einmitt sýnir bugðuna á grindarholinu, er nefnd *miðlína grindarinnar*, sökum þess að hún á öllum stöðum hittir miðju grindarholsins. Línu þessa verður yfirsetukonan allajafna að hafa í huganum, þá er annað hvort þarf að fara með nokkra fingur eða alla hendina upp í gegn um grindarholið, í hvert skipti sem rannsóknar er þörf, eða þá er á fæðingunni stendur, og er með öllu nauðsynlegt, að stefnan með fingrunum eða hendinni samsvari grindarhols-miðlínunni, og fer burðurinn einmitt eptir þessari stefnu um grindarholið.

3. mynd.




*Myndin sýnir hliðarhelft mjaðmagrindarinnar, eins og hún er þá konan stendur upprjett, a-b sýnir miðlínu grindarholsins, og hittir hún miðju allra víddanna á þykktina, svo sem c-d víddina á þykktina í efra opi grindarinnar, e-f sjálfs holsins og g-h í neðra opi grindarinnar.*

Allt, sem bjer að framan hefir verið skýrt frá, má segja um allar rjett myndaðar grindir. En síðar mun greint frá, að grindunum er á stundum í nokkru áfátt, og opt eru þær illa lagaðar, en slíkt tálmar fæðingunni.

## II. Barnslegið og partar þess.

### 7. grein.

Mitt í efri hluta litla grindarholsins er *barnslegið*. Er það holt innan, að mestu leyti samsett af holdtrefjum og æðum og utan á því liggur himna nokkur, sem er hál viðkomu. Áður konan verður barnshafandi — svo er gjört ráð fyrir á þessum stað — er legið breiðara að ofan, og mjókkar eptir því sem niður eptir dregur. Lengd þess er svo sem þrír þumlungar.

4. mynd.




Barnsleginu (4. mynd A) er skipt í: legbotninn, (a) legbolinn (b) og leghálsinn (c).

Hinn efsti hluti legsins er kallaður legbotninn, og er hann hvelfdur, en miðhlutinn, legbolurinn og leghálsinn hinn mjórri og neðsti hluti legsins. Leghálsinn er svo sem þumlungur á lengd, og nær neðsti hluti hans niður í leggöngin (i), án þess að skeytast saman við þau, og má finna til hans þar með fingrinum, og er hann harður viðkomu og svo sem nabbi nokkur. Neðst á leghálsinum er þverop nokkurt milli tveggja barma, og er op þetta nefnt *legopið* (d). Op þetta nær inn í hol legsins, en fremri barmurinn er þykkri, og nær nokkru lengra niður en hinn aptari; nefnist það *ytra legopið*, en þar sem leghálsinn og legbolurinn nær saman nefnist *innra legopið*.

5. mynd.




Þá er barnslegið er skorið í sundur eptir endilöngu, má sjá að það er holt, og er rúm þetta innan í leginu kallað *legholið*. Hol þetta er í legbotninum (a) og legbolnum (b) að miklu leyti þríhyrnt, en naumast er það svo stórt, að í því rúmist ein hnot; þar er leghálsinn tekur við, verður það mjórra og pípumyndað, þó svo, að það er breiðara um miðbikið en til endanna. Úr legholinu er samgöng um legopið (d) í leggöngin (f). Í þeim tveim hornum, er verða á legholinu upp undir legbotninum eru 2 smá op, sitt hvoru megin, og eru þar samkomur legsins og legpípnanna (e-e), og er þannig um op þessi innangengt millum legholsins og legpípnanna.

Eins og áður er skýrt frá, liggur barnslegið í efri hluta grindarholsins, á þá leið, að það liggur á bak við blöðruna, fyrir framan endagörnina, og að neðanverðu er það áfast við leggöngin. Legbotninn veit upp og nokkuð fram á við, en legopið niður og nokkuð aptur á við. Þannig liggur legið, og er það áfast bæði við blöðruna og endagörnina, og auk þessa festir það *hin sívölu legbönd* (4. mynd k-k) sitt til hvorrar hliðar, er ganga úr leginu fram á við, undir húðina fyrir ofan blöðrubeinið, og enn hin *breiðu legbönd*, sem tengja legið til beggja hliða við mjaðmagrindina (4. mynd h-h).

Úr leginu koma tíðir kvenna og um meðgöngutímann liggur eggið og burðurinn í því, og vex þar og dafnar; í fæðingunni kiprar legið sig saman, og með

því eins og rekur það á eptir burðinum og fylgjunni út úr legopinu.

8. grein.

*Hin breiðu legbönd* (4. mynd h-h) eru tvö, sitt til hvorrar hliðar á leginu, og myndast þau úr himnu þeirri, er eins og áður er skýrt frá, liggur utan á leginu sjálfu, og snýst hún eins og saman, þar sem bönd þessi ganga út úr því. Svo má segja, sem bönd þessi hafi sín upptök frá hliðum legsins, og ganga þau eins og vængir þaðan út að hliðarveggjum grindarinnar og festast þar, og með þessu móti halda þau leginu í skorðum.

Í efri röndinni á böndum þessum eru til beggja hliða *eggjakerfin* og *legpípurnar*.

*Eggjakerfin* eru tvö, sitt til hvorrar hliðar, þau eru sporöskjumynduð, hvítleit og á stærð við hnot. Innan í þeim eru litlar blöðrur, og eru það eggin áður en frjófgunin verður. Á 4. myndinni má sjá bæði eggjakerfin, og er annað þeirra (g), eins og það á að sjer að vera, en hitt (g') er skorið í sundur.

*Legpípurnar* eru tvær mjóar pípur úr himnum, svo sem þrír þuml. á lengd; þær hafa upptök sín til beggja hliða úr legbotninum, eins og áður er sagt, og ganga þær þaðan í bugðum út í grindarholið, og enda þar. Verður þá á endum þeirra op nokkurt, sem er stærra en hitt opið, er myndar samgöngin við legbotninn. Um op það, er veit út í grindarholið, liggur nokkurs konar kögur, og er það nefnt *legpípnakögur*. Á 4. myndinni má sjá legpípuna vinstra megin (e) eins og hún er eptir eðli sínu, en hin legpípan (e') hægra

megin er skorin í sundur eptir endilöngu. Legpípnakögrið er sýnt beggja vegna með f.

Eggjakerfin geyma í sjer eggin áður en frjófgunin fer fram. En þá er þau eru frjófguð, losnar eggið við kerfið, og tekur þá við því legpípnakögrið, og flyzt það svo um legpípuna inn í legholið. Verður yfirsetukonan að hafa þetta hugfast, svo hún geti gjört sjer grein fyrir óeðlilegri þykkt, þá er eggið eigi hefir komizt inn í legopið.

## III. Leggöngin og partar þeir, er liggja í grend við þau í grindarholinu.

9. grein.

*Leggöngin* (4. mynd i) eru göng nokkur, sem liggja í bugðu, og myndast þau úr holdtrefjum, og ná frá barnsleginu niður eptir út að hinum ytri fæðingarpörtum. Þegar burðurinn í fæðingunni fer úr grindarholinu, liggur leið hans um leggöngin og eru þau því ásamt hinum ytri fæðingarpörtum kölluð *hinn mjúki fæðingarvegur*. Leggöngin eru millum 3. og 4. þumlunga löng, þó svo, að þau ná lengra upp að aptan en að framan. Að ofanverðu verða leggöngin sem oplaus hvelfing þar, er þau festa sig í kring um leghálsinn, en hinn neðri hluti hans og legopið hangir niður í þau. Hinn neðri endi legganganna nær út á milli blygðunarbarmanna, og er þar á þeim hið svo nefnda *legganga-op*, sem hjá meyjum er að nokkru leyti lokað af himnu nokkurri, sem nefnd er *meyjarhaptið*. Að innan eru leggöngin bæði á fremri og aptari hliðinni alþakin hrukkum, en úr þeim kemur slímvökvi, er heldur leggöngunum þvölum, og í fæðingunni teygist úr hrukkunum og verða þá leggöngin þeim mun síðari. Hrukkurnar

eru þykkvastar að framan og eru þær þar mest viðkvæmar; skal þá yfirsetukonan, þá er hún rannsakar konuna, gæta þess, að láta fingurinn fylgja aptari hliðinni. Hin fremri hlið legganganna er áföst við blöðrupípuna, er liggur rjett fyrir framan þau, og eins við nokkurn hluta af sjálfri blöðrunni, en aptari hliðin er áföst við endagörnina.

10. grein.

Auk legsins með eggjakerfunum og legpípunum, og legganganna, er enn í grindarholinu: þvagblaðran með blöðrupípunni og endagörninni, og sökum þess, að partar þessir liggja á bak við og fyrir framan fæðingarpartana eru þeir nefndir *hinir kring um liggjandi partar í grindarholinu.*

*Blaðran* liggur fyrir framan legið, rjett fyrir aptan blöðrubeinið. Hún tekur á móti þvaginu, er kemur úr nýrunum, og losast hún aptur jafnóðum við það á þann hátt, að það fer um blöðrupípuna úr líkamanum. Þá er blaðran verður of full, þennst hún svo út, að finna má til hennar utan á kviðnum fyrir ofan efri rönd blöðrubeinsins. Úr neðri hluta blöðrunnar gengur *blöðrupípan,* og liggur hún fyrir framan leggöngin, og þaðan niður eptir, allt til bogans undir blöðrubeininu, og er hið neðra eða ytra op hennar milli hinna ytri fæðingarparta.

*Endagörnin* er hinn neðsti hluti garnanna; hún liggur á bak við legið og leggöngin, fram með fremra fleti spjaldsins, og endar hún að neðanverðu fyrir framan typpið í þarfaganginum.

6. myndin sýnir hvar þvagblaðran (d) og endagörnin (f) eru.

## Annar kapituli.

*Um hina ytri fæðingarparta og brjóstin.*

—

11. grein.

Með hinum ytri fæðingarpörtum eru taldir: *blygðunarpartarnir* og *holdbrúin.*

*Blygðunarpartanir* eru þessir:

*Blygðunarhæðin*; myndast hún úr húðinni á blöðrubeininu á þann hátt, að hún verður öll miklu þykkri á þessum stað. Hún er þakin hárum á gjafvaxta konum. Neðan undir blygðunarhæðinni, til beggja hliða, eru 2 þykkvar skinnhrukkur eða hinir svo nefndu *stóru blygðunarbarmar,* og ná þeir niður eptir allt aptur að holdbrúnni. Hjá meyjum eru barmar þessir fastir í sjer, og liggja því nær saman, en hjá konum, sem barn hafa alið, eru þeir fremur lausir í sjer og tognaðir, svo á milli þeirra verður bil nokkurt, og má sjá hina minni barmana innan undir þeim. Að aptan, fyrir framan holdbrúna, skeytir barmana saman lítil skinnmön, er optast slitnar sundur, þá er konan fæðir í fyrsta sinn. Fyrir innan hina stóru blygðunarbarma eru *hinir minni blygðunarbarmar* eða *þvagbarmarnir*; eru það rauðleitar skinnhrukkur, minni en ytri barmarnir, og að ofanverðu, þar sem þeir koma saman, myndast úr þeim *sepinn.*

Þá er maður víkur þvagbörmunum til hliðar, má sjá á milli þeirra *opið á leggöngunum,* og fyrir ofan það, en litlu fyrir neðan sepann, er *blöðrupípuopið*; er það kringlótt, og nokkurskonar barmur í kring um það úr smáum skinnhrukkum.

*Holdbrúin* er breið mön úr skinni og holdi, er

þekur bilið milli leggangaopið og endagarnarinnar, eða með öðrum orðum, nær frá hinum aptari hluta hinna stóru barma aptur að þarfaganginum. Holdbrú þessi lokar að nokkru leyti neðra opi grindarholsins, og skal yfirsetukonan því gæta vel og vandlega að henni í fæðingunni.

12. grein.

Enn fremur má segja, að *brjóst* kvenna standa í nánu sambandi við fæðingarpartana, og á meðan á meðgöngutímanum stendur, verða brjóstin svo undirbúin, að þau eptir fæðinguna mega veita barninu næringu.

Á barnsaldrinum er enginn mismunur á brjóstnm sveinbarna og meybarna, heldur vaxa þau fyrst á meyjum, þá er liður að þeim tíma, er þær verða gjafvaxta; brjóstin vaxa þá sitt hvoru megin, lík hálfhnöttum, og er skinnið á þeim einkar mjúkt og hvítt, og á miðjunni er *geirvartan*; er hún rauð á lit og viðkvæm, og umhverfis hana liggur dökkrauður *hringur*.

Innan undir skinninu liggur sjálfur *brjósteitillinn*; í honum myndast mjólkin, en hún flyzt þaðan um smáar pípur, eða hin svo nefndu *mjólkurgöng* út til hinna smágjörðu opa á geirvörtunni.

---

## Þriðji kapítuli.

*Um rannsókn fæðingarpartanna.*

13. grein.

Til að komast eptir, hvernig fæðingarpartarnir eru á sig komnir, og hver umbreyting verður á þeim um

meðgöngutímann eða í fæðingunni, og þá er konan liggur á sæng, þarf yfirsetukonan að *kanna* þá. Það er þó eigi að eins þegar svona stendur á, heldur einnig þegar konan kann að vera sjúk o. fl. þh., sem yfirsetukonan verður að kanna fæðingarpartana; má og vera, að henni sje það á stundum boðið af yfirvöldunum, og er hún þá skyld til að láta álit sitt í ljósi um ástand konunnar. Það er því með öllu auðsætt, hve mikils áríðandi slík rannsókn þessara parta er, og reynslan hefur allajafna sýnt og sannað, að þesskonar handlægni, er yfirsetukonan hefur aflað sjer bæði með ástundun og æfingu, er talin með hinum helztu kostum góðrar yfirsetukonu.

## 14. grein.

Rannsóknin getur verið með tvennu móti, annað hvort *útvortis* eða *innvortis*, eptir því hvort farið er höndum um líkamann utan eða um hina innri parta. Að utanverðu kanna menn optast brjóstin, kviðinn, mjaðmagrindina og hina ytri fæðingarparta. Rannsókn hinna innri fæðingarparta fer optast nær fram um leggöngin, stundum um sjálft móðurlegið og einstaka sinnum um endagörnina.

Optast nær er við höfð tilfinningin og stundum heyrnin og einka sjaldan er nauðsyn á að við hafa sjónina; er það einasta við rannsókn brjóstanna, sem sjónina þarf að við hafa, því að eins með því móti geta menn komizt að, hvernig geirgörtunni, hringnum utan um hana, og vessa þeim, er úr vörtunni gengur, er lagað.

Það er áríðandi að fara eptir vissri reglu, þegar kanna skal konuna, og skal helzt byrja á hinni útvortis

rannsókn og síðan rannsaka hina innri parta. Áður konan er könnuð, skal þess ávallt gætt, að konan hafi hægt sjer til baks og kviðar.

15. grein.

Mjög svo mikið er komið undir því, að yfirsetukonan kanni vel og vandlega kviðinn, því opt má vera, að hún með því komizt að ýmsu, sem mikils varðandi er að hún viti. Hún skal rannska kviðinn með annari eða báðum höndum. Bezt fer að konan liggi á bakinu og beygi hnjein og kreppi þau nokkuð, en yfirsetukonan situr við hliðina á henni annað hvort á rúmstokknum eða á stól hjá rúminu; skal hún því næst leggja flatan lófann á blöðrubeinið, og ber þess að gæta, að hendin sje heit. Þaðan skal færa hana upp eptir og skal þá um leið taka nákvæmlega eptir því, hve mjög kviðurinn er útþaninn, einnig eptir ásigkomulagi naflans, stærð barnslegsins, legu þess og mynd, hvort það er hart eða mjúkt viðkomu, taka eptir legu og hreifingum burðarins o. fl. þessk. Þá er mest þykir undir því komið, að komast glöggt eptir hreifingum burðarins, þá má slíkt bezt verða á morgnana, áður konan er komin á fætur, og skal í því skyni, móti almennri venju, kanna með kaldri hendi, því, þegar svo er að farið, finnst vanalega betur til hreifinganna.

Þegar yfirsetukonan er þannig búinn að kanna kviðinn, skal hún því næst fara höndum um mjaðmagrindina að utan, og einkum kynna sjer breidd og halla mjaðmanna, og hversu bungu spjaldsins er háttað.

Enn fremur getur aðstoð *eyrnanna* orðið nauðsynleg, þegar kviðurinn er rannsakaður; er það einkum þá konan er barnshafandi eða grunur leikur á, að svo

sje. Eptir miðjan meðgöngutímann má sumsje heyra hjartslátt burðarins, þegar maður leggur eyrað við hlið konunnar, og þannig má komast eptir, að líf er með burðinum, og sjálfsagt er að svo má og vita með vissu, að konan er með barni. Í því skyni þarf að eins að leggja eyrað við neðri hluta kviðarins, og má þannig stundum heyra glöggt mjög tíðann slátt, er líkist því er maður heyrir til sigurverks, sem þakið er klæðum.

## 16. grein.

Hin innvortis rannsókn fer vanalegast fram um leggöngin; optast er til þess hafður annar vísifingurinn; og svo það gangi því liðugar og hægar og varúðar vegna skal áður bera á fingurinn viðsmjör (olíu), flot eða ósaltað smjör. Þegar svo ber undir, að nauðsynlegt er að komast lengra inn eða eitthvað þarf að kanna mjaðmagrindina, má fara inn bæði með vísifingur og miðfingurinn; en að öðru leyti skal yfirsetukonan ávallt viðhafa vísifingurinn einann, því hægast er að rannsaka með honum og auk þess sársauka minnst; skal hún temja sjer jafnt báða vísifingurna. Þegar kanna skal konuna um leggöngin, skal konan helzt liggja á bakinu, líkt og þá kviðurinn er kannaður. Það er að eins um meðgöngutímann og í byrjun fæðingarinnar leyfilegt, og á stundum jafnvel þarflegt, að konan standi, þá hún er rannsökuð um leggöngin; skal þá konan setja bakið upp við vegg og heykjast nokkuð í hnjánum. Yfirsetukonan leggst á vinstra hnjeið fyrir framan hana og kannar svo með hægri hendi; styður hún hægri olboga á hægra hnjeið. Vinstri hendinni heldur hún á kviði konunnar; kanni hún um leggöngin með vinstri hendinni, leggst

hún á vinstra bnjeið fyrir framan konuna, og styður vinstri olboga á vinstra hnjeið.

Þegar kanna skal konuna um leggöngin skal þannig með fara: fara skal með vísifingurinn inn á milli blygðunarbarmanna og inn í leggönguopið, skal því næst snúa fingrinum og hendinni þannig, að bakið snúi niður að holdbrúnni; skal nú liðka vísifingurinn hægt og hægt upp eptir leggöngunum og skal hann fylgja aptari hlið þeirra, en þumalfingurinn skal leggja endilangan upp á blöðrubeinið, en hina 3 fingurna skal kreppa í lófann og skal þrýsta þeim að holdbrúnni svo lengra náist upp eptir leggöngunum með vísifingrinum; en um leið og yfirsetukonan fer með vísifingurinn um leggöngin, tekur hún eptir, hvernig þau eru á sig komin, og þá er hún er komin efst upp í þau, skal hún beygja fingurinn nokkuð fram á við og til hliðar, og kannar hún þá um leið legopið og leghálsinn, og ef á fæðingunni stendur, kannar hún og með sögðum hætti, þá parta eggsins eða burðarins, er liggja rjett fyrir innan legopið. Þegar þessari rannsókn er lokið, skal yfirsetukonan leita fyrir sjer með vísifingrinum, að svo miklu leyti henni er unnt, á alla vegu í grindarholinu og vita, hvort hún eigi verður vör við annað hvort þrengsli eða missmiði á lögun grindarholsins. Að svo búnu, dregur hún fingurinn að sjer úr leggöngunum, en um leið skal hún þó taka eptir boganum eða bugðunni undir blöðrubeininu og vita, hvort hann er eins hringmyndaður og hann á að sjer.

Sjaldan, og einungis þá, er fæðingin er torveld, er *öll hendin* höfð til þess að kanna *fyrir innan legopið* og einkum ber nauðsyn til slíks, þegar burðurinn liggur skakkur eða þá hætta er búin í fæðingunni og fing-

urinn einn er ónógur til að kanna með. Hvernig að skal fara, þegar öll hendin er höfð til að kanna með, verður skýrt frá í þeim kafla, er greinir um, þá burðinum er snúið.

*Rannsókn um endagörnina* er sjaldan viðhöfð, en þó má það verða, þá er henni verður eigi komið við um leggöngin, eða þá er með þessu móti nákvæmara verður komizt eptir ásigkomulagi legsins og glöggvara fengin vissa um, hvort það er í skorðum sínum. Fyrst skal setja konunni stólpípu og tæma endagörnina og síðan skal kanna með vísifingrinum; skal bera á hann einhverja feiti og liðka hann því næst eigi all-linlega inn í þarfaganginn svo langt upp eptir sem verða má, og skal hann fylgja fremri hliðinni á endagörninni, og má þannig finna til aptari flatar legsins. Meðan á rannsókninni stendur, skal konan annað hvort liggja á bakinu eða á annarihvorri hliðinni og hafa hátt undir sitjandanum og kreppa að sjer hnjein.

*Hina ytri fæðingarparta* má beinlínis kanna að utanverðu með áþreifingu, og er það í alla staði geðfeldara fyrir konuna; skal því yfirsetukonan, um leið og hún dregur vísifingurinn út úr leggöngunum, fara um hina ytri fæðingarparta, kynna sjer, hvort þeir sjeu eins og þeir eiga að vera, hvort þeir sjeu þrútnir, hvort þeir sjeu mjúkir og linir o. s. frv.

## 17. grein.

Yfirsetukonan skal en fremur í hvert skipti, er rannsókn fer fram, gæta þess, er hjer segir:

Kanna skal konuna með athygli og gæta þess, að blygðunartilfinningu hennar eigi sje ofboðið, hvort heldur hún er gipt eða ógipt. Fyrir þá sök skal yfirsetu-

konan láta hana hylja sig með klæðum, að svo miklu leyti verða má, og eigi um skör fram hafa sjónina sjer til aðstoðar, þegar áþreifing ein er nóg, og eins ber þess að gæta, að eigi sjeu fleiri viðstaddir, en nauðsynlegt er.

Þá konan er bæði hrædd og óreynd í þessum efnum, mun bezt fara að halda eigi hinni fyrstu rannsókn of lengi fram, heldur mun ráðlegt, að nokkrum tíma liðnum, að hefja hana að nýju, og kynna sjer með þeim hætti gjörr ásigkomulag konunnar.

Þegar yfirsetukonan kemst að því, að konunni er nokkur hætta búin, skal hún einkum gæta þess, að láta slíkt eigi á sjer skilja við konuna, hvorki í orðum nje aðferð, svo hún verði eigi hrædd; en yfirsetukonan skal þá skýra lækninum frá því. Að öðru leyti skal hún alveg þegja um slíkt, en það er þó sjálfsagt, að eigi skal hún leyna því þá, er hlut eiga að máli; en hitt er víst, að opt má verða, þá svo stendur á, að lausmælgi kemur að miklu tjóni.

Þegar yfirsetukonan getur eigi með vissu komizt eptir ásigkomulagi konunnar við rannsóknina, skal hún heldur eigi fullyrða nokkurn dóm sinn, og skjóta heldur úrlausn á frest, til þess hún hefur rannsakað konuna að nýju, að öðrum kosti skal hún skjóta til læknis úrskurðar; verður þetta því fremur skylda yfirsetukonunnar, þá er yfirvöldin beiðast álits hennar.

Sökum þess, er nú hefur verið sagt, er auðsætt, að yfirsetukonan á að fara vel með hendur sínar, og skal hún því, sem mest hjá verður komizt, hliðra sjer hjá allri stritvinnu, því við það verða fingurnir harðir og sigg kemur í þá, og verður þá tilfinningin eigi jafn næm í þeim; einnig skal hún ávallt gæta þess, að neglur

hennar sjeu vel skornar, og að eigi sjeu rispur eða sár á fingrunum, því slíkt má verða að miklu tjóni, þá er hún skal rannsaka þá konu, er hefur næman sjúkdóm. Enn fremur er áríðandi, að yfirsetukonan láti sjer annt um, að bæði handleggir og hendur sjeu vel hreinar. Eins og síðar mun verðu skýrt frá, er hin hættulega barnsfarasótt og augnabólga á nýfæddum börnum opt og tíðum afleiðing af óþrifnaði yfirsetukonunnar. Skal hún því vandlega þvo sjer í hvert skipti sem hún rannsakar konu um meðgöngutímann eða í fæðingunni.

Sje yfirsetukonan veik af einhverjum næmum hörundskvilla, svo sem illkynjuðum kýlum, kláða og þesskonar, þá er sjálfsagt að hún eigi má rannsaka konu.

---

## Annar þáttur.

## Um meðgöngutímann.

### Fyrsti kapítuli.

*Um meðgöngutímann og hvernig honum er skipt.*

18. grein.

*Meðgöngutími* er kallað tímabilið frá því, er konan verður barnshafandi, til þess hún er búin að fæða. Meðgöngutíminn byrjar því þá, er eitt af eggjum þeim, er geymast í eggjakerfinu, frjófgast, en það losnar þá um leið úr kerfinu sjálfu, og flyzt svo um legpípurnar inn í legholið. Það er ætlunarverk meðgöngutímans,

að eggið og burðurinn verði fullþroska meðan á honum stendur; meðgöngutíminn endar þá, er fæðingin tekur við.

19. grein.

Það er almennast að einungis eitt egg verður frjófgað, er síðan þróast og dafnar í legholinu án nokkurs meins fyrir konuna eða burðinn; slík þykkt er því kölluð *eðlileg.* Þó má og verða, að opt bregði út af þessu, og það með mörgum hætti, og koma af því hinar svo nefndu *óeðlilegu þykktir* kvenna.

1. Þannig segja menn, að þá fari eigi með öllu eðlilega, þá er tvö eða fleiri frjófguð egg á sama tíma finnast á legholinu, svo sem þá er konan gengur með *tvíbura* eða *þríbura.*
2. Það er og óeðlileg þykkt, þá er hið frjófgaða egg reyndar losnar úr eggjakerfinu, en fer á mis við legholið, og nemur svo staðar, án þess þó að komast inn í það, annarstaðar í kviðnum, og vex þar og dafnar; nefnist það þá *þykkt fyrir utan legið,* en ber sjaldan að, sem betur fer.
3. Enn fremur verður þykktin óeðlileg, þá er burðurinn eigi verður fulltíða eða deyr með öllu, þá er konan leggst hœttulega veik.
4. Þykktin verður og óeðlileg, þá er hið frjófgaða egg kemst inn í legholið, en veikist skömmu síðar, og eðli þess breytist svo mjög, að hinir einstöku partar þess eru því nær ókennilegir, þá er það seint og síðar kemur í ljós. Þá er svo fer, segja menn að þykktin sje óeðlileg, og eggið eins að sínu leyti. Þá er bæði *eðlilegt* og *óeðlilegt egg* eru í legholinu, er þykktin eins að sínu leyti *eðlileg* og *óeðlileg.*

Frá hinni óeðlilegu þykkt kvennu skal síðar skýrt

nákvæmara; enn sem komið er, verður einungis gjört ráð fyrir, að allt fari eðlilega.

---

## Annar kapituli.

*Um breytingu á ásigkomulagi konunnar um meðgöngutímann.*

—

20. grein.

Þegar konan verður barnshafandi, breytist talsvert hið líkamlega ásigkomulag hennar, og eigi líður henni jafn vel og áður. Einkum breytist móðurlegið, hinn mjúki fæðingarvegur og brjóstin; þó breytist og eigi alllítið einnig útlit konunnar um meðgöngutímann.

21. grein.

1. *Barnslegið* þrútnar og verður linari þegar konan er orðin barnshafandi; legholið stækkar og innanvert á því myndast *leghimnan*. Ætlunarverk þessarar himnu er að festa og næra eggið fyrst framan af meðgöngutímanum, og er því myndað þegar áður enn eggið kemst inn í legholið, sem eigi verður fyrr en nokkrum dögum eptir frjófgunina.

Hægast má komast eptir, hversu mikið legið stækkar um meðgöngutímann, með því að bera saman lengd og breidd þess, þá er konan er þunguð, og þá er hún eigi er það. Hjá þeirri konu, sem eigi er barnshafandi, er lengd þess hjer um bil 3 þumlungar, og breiddin 2 þumlungar þar sem það er breið-

ast, en seint á meðgöngutímanum verður lengd þess 12—14 þumlungar og breiddin 9—10. Er slíkt og með öllu nauðsynlegt, til þess barnslegið megi rúma hið fullþroska egg og burðinn. Eins og nærri má geta, vex legið eigi svo mjög allt í einu, heldur smátt og smátt, frá hinum fyrsta til hins síðasta hluta meðgöngutímans, þó svo, að um fyrri helming meðgöngutímans vex einungis eða stækkar legbotninn og legbolurinn, en úr því langt er liðið á meðgöngutímann, og stöku sinnum fyrst þegar fæðing byrjar, víkkar og leghálsins eins að sínu leyti.

Hvað *lögun* legsins snertir, þá er áður greint frá henni, en hún breytist meira og meira um meðgöngutímann, eptir því sem legið sjálft stækkar og víkkar á allar hliðar þannig, að legið um síðustu mánuði meðgöngutímans hefir því nær fengið eggmyndaða lögun, og er það breiðara að ofanverðu um logbotninn, en mjórra að neðanverðu um legopið.

Legið færist úr *skorðum sínum* eptir því sem líður á meðgöngutímann. Um fyrstu mánuðina verður legið þyngra, sökum þess að mikið blóð streymir að því; færist það þá lengra niður í grindarholið, og má slíkt ráða af flatneskju nokkurri, sem verður fyrir ofan blöðrubeinið, og eins kemur legopið lengra niður í leggöngin. En um lok 3. mánaðarins er legið þegar orðið svo stórt um sig, að það kemst ekki lengur fyrir í litla grindarholinu, og fyrir þá sök fer efri endi þess jafnóðum að færast upp í hið stóra grindarhol, og á 4. mánuðinum má finna til legbotnsins fyrir ofan röndina á blöðrubeininu. Því meira sem legið stækkar á þennan veginn, þess lengra færist það upp eptir í kviðnum, svo að á 9. mánuðl er legbotninn kominn allt upp undir hjarta-

gróf, en á 10. mánuðinum sígur legið niður aptur, að nokkru leyti vegna þess, að burðurinn er þá orðinn svo stór og þungur, en þó einkum fyrir þá sök, að legið fer að kiprast saman eptir því sem líður nær fæðingunni.

Með því nú legið þannig færist upp úr litla grindarholinu upp eptir hinu stóra grindarholi, þrýstir bungan á spjaldinu legbotninum fram á við í kviðnum sjálfum, og þessi lega þess helzt þannig um allan meðgöngutímann, þó svo að það sveigist meira og meira fram á við. Sökum þessa má um leggöngin glöggt finna með fingrinum, að legopið eins og sveigist á bak aptur í grindarholinu; en vegna þess að legið sjálft færist svo langt upp eptir kviðnum, er opt torvelt og stundum eigi unnt að ná upp til legopsins með fingrinum um hina síðustu mánuði meðgöngutímans. Auk þess, að legbotninn liggur þannig fram á við, er þess og að gæta, að á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans hallar honum eigi alllítið til annararhvorrar hliðar í kviðnum, optast þó til hægri hliðar, og þess vegna sveigist og legopið eigi allsjaldan út á vinstri hliðina í leggöngunum. Það er reyndar eigi mjög áríðandi að vita þetta, en einungis ber að hafa þetta í huga, að yfirsetukonan haldi eigi, að halli þessi á leginu sje óeðlilegur.

*Í 6. mynd verður að hugsa sjer, að annað lærið og önnur hlið mjaðmargrindarinnar sje tekin burtu, þannig að sjá megi móðurlegið og hin önnur innífli kviðarins frá hliðinni eins og þau liggja um lok meðgöngutímans, rjett áður en konan fæðir. Stafurinn* a *sýnir leggöngin,* b *móðurlegið með egginu,* n *legkökuna,* d *þvagblöðruna,* f *endagörnina,* i *legopið,* c *blöðrubeinið,* g *spjaldið,* h *magann og þarmana,* e *naflann.*

22. grein.

2. Breytingar þær, er verða á **hinum mjúka fæðingarveg**, verður fyrst vart við, þá lengra er liðið á meðgöngutímann, en tilgangur þeirra er einkum sá, að gjöra fæðinguna auðveldari. Þannig víkka leggöngin og verða öll þvalari en venja er til, og hrukkurnar innan í þeim verða mýkri viðkomu og þykkvari; eins verða hinir ytri fæðingarpartar mýkri, þykkri og blóðmeiri, og þola fyrir þá sök betur teiginguna í fæðingunni.

23. grein.

3. Bæði fyrr og glöggvara ber á breytingum þeim, sem verða á *brjóstum* konunnar. Þegar hina fyrstu mánuði meðgöngutímans verða brjóstin stærri og þrýstnari og viðkvæm þegar þrýst er á þau, og opt ber við, að konan finnur til sárra stingja hjer og hvar í þeim; skömmu síðar verða geirvörturnar stærri, og bugurinn í kring um þær verður allur dökkvari en áður, einnig koma smáeytlar í skinninu kring um geirvörtuna betur í ljós og líta út eins og smánabbar; á hinum síðari helming meðgöngutímans kemur vökvi í brjóstin, sem líkist mjólk, og rennur hann stundum af sjálfu sjer út úr þeim.

24. grein.

Breytingar á *öllu heilsufari og útliti konunnar* eru sumpart þess konar, að þær lýsa sjer að mestu leyti hjá öllum konum með barni, sumpart þess konar, að þær koma stundum í ljós, stundum ekki, og í sitt skiptið á hvern hátt. Með hinum fyrrgreindu breytingum teljum vjer: að tíðirnar hætta, kviðarþykktina og breytinguna á nablaholunni; með hinum síðari má telja: ógleði konunnar og magnleysi, velgju og uppköst, einkum á morgnana á hinum fyrstu mánuðum af meðgöngutímanum; sumar konur fá verk í tönnurnar og höfuðið, hjartslátt, andþrengsli og mæði, matarólyst, sjerlegan leiða eða löngun á einhverjum mat eða drykk; skap þeirra breytist, þær verða opt fálátar og þunglyndis köst detta í þær; bólga eða æðahnútar koma á fæturnar, lærin og fæðingarpartana; litarhátturinn í andlitinu breytist, dökvir blettir koma hjer og hvar á líkamanum o. fl. þh.

Þá er vjer þannig höfum kynnt oss hinar helztu breytingar á konunni um meðgöngutímann, viljum vjer nú sjer í lagi greina frá, með hverjum hætti eggið og burðurinn þróast og dafnar í legholinu.

---

## Þriðji kapituli.

*Um eggið og burðinn.*

Allir þekkja fuglaegg. Hver og einn þekkir og mismuninn á eggjaskurminu og því, sem það geymir í sjer, og veit að fuglsunginn myndast smásaman og þroskast í egginu, meðan fuglinn liggur á því. Þetta

má nú og heimfæra upp á konueggið, því að hinu sama verður framgengt í hvorttveggju eggjunum og má jafna saman meðgöngutímanum með þeim tíma, fuglinn er að unga út.

Burðurinn myndast þannig einnig í eggi nokkru í móðurkviði, og er hann hulinn inn í því allt að fæðingunni. Á konuegginu má að sínu leyti, eins og á fuglseggina, aðgreina *skurmið* eða hina *ytri parta* eggsins, en það eru himnurnar og legkakan, og hina *innri parta* þess, eða það, sem himnur þessar *geyma í sjer*, og eru það burðurinn, naflastrengurinn og legvatnið.

## I. Hinir ytri partar eggsins.

### 26. grein.

Þessir ytri partar eggsins eru, eins og áður er sagt, himnurnar og legkakan, og eru þeir í því sambandi sín á milli, að ímynda má sjer, að legkakan sje partur nokkur af þeirri hliðinni á hinni svo nefndu æðahimnu, sem snýr út í legið, og sem er orðin þykk og föst í sjer á þessum stað.

Í fyrstu, þá er eggið losnar frá eggjakerfinu, eru *himnur* þess að eins tvær, hin ytri eða *æðahimnan* og hin innri eða *vatnshimnan*. En utan um þessar himnur myndast í leginu sjálfu hin þriðja himna, er tengir legið að innanverðu við eggið, og nefnist hún *leghimnan*. Leghimnan er þykkust á hinum fyrstu mánuðum af meðgöngutímanum, og ber því opt við, að hún hjúpar eggið, ef konan lætur því á þessum mánuðum; þá er líður á meðgöngutímann eyðist hún smásaman, en eptir fæðinguna má einungis sjá nokkrar trefjar eptir af henni utan á æðahimnunni, en hitt verður eptir í

3

leginu og fylgir síðar blóðinu, er konan missir, meðan hún liggur á sæng.

*Æðahimnan* er því í fyrstu hin ytri himna eggsins, og er hún svo nefnd sökum þess, að hún er rauðleit og um hana liggja margar æðar. Fyrst á meðgöngutímanum er hún að utan öll alþakin trefjanöbbum, sem ganga inn í leghimnuna; festa þeir að nokkru leyti eggið á hinum fyrstu mánuðum, og nærist það einnig með því að blóðkerin ganga úr leginu um nabba þessa; smásaman hverfa þeir, en þar er legkakan síðar myndast, sitja þeir kyrrir; á þessum stað verða sumsje trefjanabbar þessir meira og meira þjettsettir og innan um þá og á milli þeirra festir sig fjöldi æða, er sumpart koma frá æðum burðarins um naflastrenginn, sumpart frá legæðunum, og eru það þá kvíslir úr æðum leghimnunnar; þannig myndast legkakan við lok hins 3. mánaðar og blóð það, sem um hana gengur, nærir nú burðinn frá þessum tíma.

Innan undir æðahimnunni liggur *vatnshimnan*; er hún nefnd svo sökum þess hún liggur næst legvatninu. Himna þessi er næfurþunn og gagnsær, þó er hún seigari í sjer en æðahimnan. Hún myndar hulstur, sem er með öllu lokað, og gengur hún úr legkökunni yfir naflastrenginn, og hjúpar hún hann allt að kvið burðarins.

Í fæðingunni, þá er himnur þessar fylgja með burðinum, liggja þær á öllum stöðum hver áföst við aðra, án þess nokkurt bil sje á millum þeirra. En fyrr á meðgöngutímanum er þó bil á millum þeirra, sem geymir í sjer vatnskenndan vökva, er þó síðar eyðist með öllu. Að eins einstaka sinnum er nokkur hluti vökva þessa enn eptir undir lok meðgöngutímans, en

hann hverfur þá annað hvort litlu fyrr eða rjett í því að konan leggst á gólf, á þann hátt, að einungis æðahimnan rifnar. Þá er svo fer, segja menn, að himnan *rifni óeðlilega,* til aðgreiningar frá því, þá er báðar himnurnar rifna í senn í fæðingunni, og vökvi sá, er kemur í ljós, þá er æðahimnan ein rifnar, er og kallaður *óeðlilegt legvatn,* til aðgreiningar frá hinu rjetta legvatni innan í vatnshimnunni.

27. grein.

Áður er skýrt frá, hvernig *legkakan* myndast. Hún er flöt, nokkurn veginn kringlótt eða stundum nokkuð aflöng og lík njarðarvetti; hjer um bil 6 til 8 þuml. eptir endilöngu, en frekast einn þuml. á þykkt. Hún er þykkust í miðjunni, en þynnist svo út á alla vegu, gengur svo yfir á æðahimnuna, og má skoða legkökuna eins og nokkurn hluta af þessari himnu. Aðalefnið í legkökunni eru æðarnar, sem liggja í hana sumpart úr burðinum, sumpart úr sjálfu leginu, og á milli þeirra liggur holóttur trefjavefur. Sá flötur legkökunnar, sem snýr inn að egginu, er hulinn af báðum eggjahimnunum. Flötur þessi, sem er kallaður hinn *innri flötur,* verður þannig háll viðkomu, en hinn flöturinn, sem snýr út í legið, og nefndur er *ytri flöturinn,* er alþakinn ójöfnum og sepum. Hjer um bil á miðjunni á þeim fleti legkökunnar, sem snýr inn á við, má sjá, að naflastrengurinn gengur inn í hana, og út frá þessum stað ganga stórar æðar í kvíslum á allar hliðar út að röndinni, líkt og geislar af stjörnu. Hinn ytri flötur legkökunnar er tengdur við legið með fjölda smárra æða, og flytja þær blóðið um leghimnuna úr leginu inn í legkökuna; þannig er legkakan optast tengd við legið

um botn þess, sjaldnar við fremri eða aptari flöt legholsins, og sjaldan við leghálsinn eða fyrir ofan legopið.

Legkakan tengir að nokkru leyti eggið við legið; en þó er aðalætlunarverk hennar að koma því til leiðar, að burðarblóðið, sem flyzt um naflastrenginn inn í legkökuna, megi svo breytast í henni, með því að blandast á þessum stað við blóðið úr leginu, að það megi verða hæfilegt til að næra burðinn, en að því búnu flyzt það aptur um naflastrenginn til burðarins. Það má því með sanni segja, að legkakan búi til blóðið til næringar burðinum, og fyrir þá sök er hún svo mjög áríðandi fyrir burðarlífið.

Legkakan og með henni nokkrir partar af naflastrengnum og himnunum kemur fyrst í ljós eptir fæðinguna, og eru því partar þessir einu nafni nefndir *fylgjan*.

## II. Hinir innri partar eggsins.

### 28. grein.

Hinir innri partar eggsins eru, eins og áður er skýrt frá, legvatnið, naflastrengurinn og burðurinn.

*Legvatnið* er vökvi nokkur, þunnur og gulleitur, er fyllir vatnshimnuna, og burðurinn og naflastrengurinn svo sem fljóta í honum. Vökvi þessi er eigi jafn mikill hjá öllum konum, og eigi heldur er hann jafn mikill á öllum köflum meðgöngutímans. Um lok meðgöngutímans er vökvinn millum tveggja og fjögra marka. Vökvi þessi hefir sitt ætlunarverk bæði um meðgöngutímann og í fæðingunni. Um meðgöngutímann þenur hann sum sje hol legsins jafnt út á allar hliðar, og þannig má burðurinn án tálmunar vaxa og hreifa sig; hlífir hann einnig burðinum þegar

þrýst er á kvið konunnar, eður honum á einhvern hátt ofboðið. Í fæðingunni rekur vökvinn, meðan á hríðunum stendur, himnurnar niður í legopið, og eru þær þá útþandar eins og uppblásin blaðra, en um leið víkka þær legopið út, og með þessu móti greiðist leið burðarins, þá er að því kemur. Þá er legopið er orðið svo útþanið, sem verða má, er legvatnið til einskis gagns úr því; rifna þá og himnurnar og vatnið rennur út. Þannig fer allt eðlilega, en áður er skýrt frá því, þá er himnurnar rifna óeðlilega, og óeðlilegt legvatn rennur út.

29. grein.

*Naflastrengurinn* tengir burðinn við legkökuna og líkist hann streng, sem snúinn er saman úr mörgum þáttum. Utan um hann liggur himna nokkur, sem er hál og seig í sjer og er, eins og áður er skýrt frá, einn hluti vatnshimnunnar. Innan undir himnu þessari, í sjálfum naflastrengnum, liggja eptir honum endilöngum, hinar þrjár naflaæðar; ein þeirra er stærst og er það blóðæðin; hinar eru minni, og eru það slagæðarnar, og má finna til blóðstraumsins í þeim að sínu leyti eins og í slagæðinni hjá hendinni. Æðar þessar leggja sig á misvíxl og fyrir þá sök sýnist naflastrengurinn eins og snúinn saman. Á milli æðanna og utan um þær (innan undir naflastrengshimnunni) liggur kvoðukennt lag nokkurt, sem hlífir æðunum, og er lag þetta ýmist meira eða minna. Þess vegna segja menn, að naflastrengurinn sje *feitur*, þegar mikið er af þessari kvoðu um hann, en *magur* eða *rauðleitur*, þá er lítið er af henni; má þá og sjá blóðið í gegn um æðarnar, og verður þá naflastrengurinn mjög svo rauðleitur, og dregur hann

þaðan nafnið. Naflastrengurinn er eigi ávallt jafn langur; optast er hann 18 til 22 þumlunga langur um lok meðgöngutímans og þannig bjer um til jafn langur og burðurinn. Annar endi burðarins hefir sín upptök í kviði burðarins, en hinn endinn hverfur inn í legkökuna, á innri hlíð hennar, sem er hál viðkomu, optast nær um sjálft miðbikið, en stundum þó nokkru utar, og stöku sinnum festir hann sig út í sjálfri röndinni; mjög sjaldan festir naflastrengurinn sig á himnunum og naflaæðarnar kvíslast þá um þær áður en þær ná legkökunni.

Þá er búið er að kynna sjer til hlýtar allt um æðar naflastrengsins, sem liggja eptir honum endilöngum, frá kviði burðarins allt að legkökunni, er þekkingin fyrst orðin ljós á því, hvernig blóðið rennur millí burðarins og legkökunnar. Þá verður fyrst skiljanlegt, hvernig burðarblóðið flyzt um hinar tvær slagæðir, sem áður er skýrt frá, inn í legkökuna, en hjer hittir það fyrir sjer blóðið úr æðum legkökunnar, og breytist svo við það eðli þess, að það er að svo búnu orðið hæfilegt til að næra burðinn og halda við lífi hans, en það flytzt aptur til burðarins um hina stóru blóðæð. Af áður sögðu verður og með öllu auðsætt, hvers vegna burðurinn hlýtur að deyja, þá er naflastrengurinn með einhverju móti þrýstist saman í fæðingunni, svo að blóðið eigi má án tálmunar halda rás sinni.

7. mynd.




*Mynd þessi sýnir nákvæmara sambandið millum parta eggsins; hún sýnir fulltíða egg, þó minna en það er í raun og veru, og er sýnt með þeim hætti innan í það, að sjá má:*

A *Burðinn, sem*
B *naflastrengurinn tengir við*
C *legkökuna; en hjer má sjá:*
a *hina innri hálu hlið hennar með æðakvíslunum úr naflastrengsæðunum,*
bbb *himnurnar, sem skornar eru í sundur, og liggja þær umhverfis barmana á legkökunni.*
cc *lítinn part af ytri hlið legkökunnar, sem er þakin sepum.*

## 30. grein.

Af hinum innri pörtum eggsins er *burðurinn* mikilvægastur. Eigi er nein þörf á því að yfirsetukonan viti, hvernig burðurinn og hinir einstöku partar hans myndast í egginu; henni nægir að vita það eitt, að hjer um bil í 3. viku meðgöngutímans fer burðurinn að myndast og byrjar það svo, að hann er til að sjá sem tvær blöðrur, sem fastar eru saman, og síðan vex hann og dafn-

ar smám saman eptir vissri reglu, þar til hann er fulltíða um lok meðgöngutímans.

Þegar burðurinn er 6 vikna, er hann á stærð við hunangsflugu; bolnum er mest farið fram, og þekkja má einstöku parta andlitsins, handleggi og fætur má að eins sjá líkt og smá nibbur, en fingur og tær vanta með öllu.

Í 12. vikunni er lengd burðarins enn að eins 3 þumlungar, en hin rjetta lögun er komin á burðinn og alla einstaka parta hans.

Um lok 5. mánaðar, hjer um bil í 20. vikunni, er burðurinn orðinn 8—10 þuml. langur, og honum er þá og svo mjög farið fram, að konan finnur til að útlimir hans hreifa sig. Þá segja menn að burðurinn *hreifi sig* og að konan sje *búin að hálf ganga með*.

Hjer um bil í 28. vikunni er burðurinn orðinn 14—15 þuml. langur og vegur fjórar til fimm merkur, og er hann nú kominn svo vel á veg, að halda má í honum lífinu eptir fæðinguna, ef rjett er með farið.

Upp frá þessum tíma vex og dafnar burðurinn á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans til þess tíma, er hann með öllu er fulltíða.

### 31. grein.

Þegar konan er *búin að ganga með,* það er að segja, þegar meðgöngutíminn hefir verið eins langur og vera ber, segja menn, að burðurinn sje fulltíða eða fullaldra, og er hann hjer um bil 18—20 þuml. langur, og vegur optast 12—16 merkur. Hinir einstöku partar burðarins eru allir venjulega holdugir og sívalir; skinnið er rauðleitt, þvalt og optast þakið hvítleitri fitu nokkurri; stærð höfuðsins er eðlileg, og er það fast fyrir

og þakið hárum; eyrún eru eins og brjósk, þá á þeim er tekið, og neglurnar eru sem væru þær úr horni, fastar í sjer, og ná fram yfir fingurgómana. Fullaldra burður hefur enn fremur skýra rödd, getur sogið brjóstin og hreift vel útlimina.

Þegar burðurinn fæðist millum 28. og 40. viku, segja menn að hann fæðist of snemma eða sje eigi fulltíða, vegur þá burðurinn vanalega eigi 12 merkur, og lengdin sjaldan 18 þumlunga; höfuðið er óeðlilega stórt í samanburði við bolinn, og höfuðbeinin óvenjulega lin og sveigjanleg, hárið gisið og smátt, útlimirnir magrir og grannir; húðin er rauð, loðin og hrukkótt einkum í andlitinu, og er svipurinn því ellilegur; eyrun eru lítil, lin og liggja fast inn að höfðinu; neglurnar eru linar og gagnsæjar og ná eigi fram yfir gómana; hinir ytri fæðingarpartar eru óvenjulega rauðir, og hjá meybörnum ganga þvagbarmarnir út á milli hinna stóru blygðunarbarma; rödd barnsins er veik, það á illt með að sjúga brjóstin eða getur það alls eigi, sefur mjög mikið, hægðir til baks og kviðar að eins litlar. Því fyrr sem eigi fullaldra barn fæðist, því greinilegri eru öll þessi einkenni þess að barnið eigi er fulltíða og því örðugra er það, að halda í því lífinu.

Ef að burðurinn fæðist fyrir 28. vikuna segja menn að konunni *leysist höfn*; þótt rjettilega sje með farið þá tekst vart að halda lífinu í slíkum burði.

## 32. grein.

Skipta má líkama burðarins í *höfuðið, bolinn* og *útlimina.* Höfuðið er fyrirferðar mest og harðast viðkomu, og fyrir þá sök tálmar það mest fyrir fæðingunni, og má því optast fullyrða, að þá er höfuðið er

komið í gegnum grindarholið, muni hinir partar líkamans án viðstöðu komast um það. Höfuð burðarins er því sá partur hans, sem mest er undir komið í fæðingunni, og her því yfirsetukonunni að kynna sjer allt ásigkomulag og útlit þess til hlítar.

Aðalpartar höfuðsins eru þessir: *andlitið* og *höfuðskelin*.

*Höfuðskelin* samsvarar hjer um bil hinnm hárgaða parti höfuðsins, og nær hún því yfir efri part ennisins, hvirfilinn og hnakkann. Hana mynda 7 bein, og eru það: 2 ennisbein, 2 hliðarbein, 2 gagnaugnabein og 1 hnakkabein. Á fullorðnum eru bein þessi gróin saman, en á burðinum og á unga aldri eru þau aðgreind, og einungis himnubönd nokkur halda röndum þeirra saman. Þá er himnu-samskeyti þessi eru millum tveggja beina, og eigi breið, eru þau kölluð *saumar*, en þá er fleiri bein koma saman, og himnuböndin verða breiðari eru samskeytin nefnd *hausamót*.

Af samskeytum þessum þarf yfirsetukonan einkum að þekkja 3 sauma og 2 hausamót. Saumar þessir eru:

1. *Örvasaumurinn*, er gengur eptir höfðinu endilöngu að framanverðu millum ennisbeinanna og fyrir aptan þau millum hliðarbeinanna. Hann hefur upptök sín fyrir ofan nefið og endar við hin þríhyrndu hausamót. Hinn fremsta hluta saums þessa hafa menn einnig nefnt ennissauminn, sökum þess að hann liggur á millum ennisbeinanna.

2. *Þversaumurinn*, er gengur þvert yfir um höfuðið milli gagnaugnanna, og skeytir hann saman ennisbeinin og hliðarbeinin.

3. *Hornsaumurinn* sameinar að aptan hliðarbeinin og hnakkabeinið, og dregur hann nafn af því, að það

eru 2 saumar, er mætast að ofanverðu, en á samkomunni myndast horn nokkurt.

Hausamótin eru þessi:

8. mynd.




1. Hin fremri, stóru eða ferhyrndu hausamót (8. mynd a), eru framan til á höfðinu, þar sem örvasaumurinn og þversaumurinn ganga á víxl, eða með öðrum orðum millum hvortveggju ennisbeinanna og bliðarbeinanna. Finna má til þeirra millum hornanna á þessum 4 beinum á þann hátt, að þar verður linara undir fingrinum þar sem þau öll mætast.

2. Hin aptari, minni eða þríhyrndu hausamót (8. mynd b) eru aptan á höfðinu, þar sem örvasaumurinn og hornsaumurinn mætast eða með öðrum orðum, þar sem bæði hliðarbeinin í hvirflinum skeytast saman við hnakkabeinið. Hausamót þessi eru minni en hin, er áður er skýrt frá, og í fæðingunni eru þau til að finna sem þríhyrnd hola nokkur, sökum þess að fremsta nibban á hnakkabeininu gengur nokkuð á misvíxl við þær randir hliðarbeinanna, sem snúa aptur að hnakkabeininu, og liggja þær ofan á hnakkabeinsnibbunni.

Saumar þessir og hausamótin koma því til leiðar, að höfuðskelin sjálf er þeim mun sveigjanlegri, og sökum þessa geta höfuðbeinin gengið nokkuð á misvíxl,

þá er þau í fæðingunni mæta mótspyrnu í grindarholinu, og þannig verður höfuðið sjálft minna fyrirferðar. Auk þessa getur yfirsetukonan ráðið af saumunum og hausamótunum hvernig höfuðið liggur í grindarholinu, þá er hún rannsakar konuna.

33. grein.

Áður er skýrt frá, að nauðsynlegt þótti, að grindin væri rúmleg og að hol hennar samsvaraði vissri tiltekinni vídd og lögun, eins er það eigi síður áríðandi í fæðingunni, að höfuð barnsins hafi eðlilega stærð, og hafa menn því komið sjer saman um, að ákveða vissa tiltekna *stærð* og *þykkt* höfuðsins á fulltíða burði, sem hjer segir:

1. *Þykktin á lengri veginn*, úr miðju enninu aptur á hnakkann, $4^1/_2$ þuml. 8. mynd o-g).
2. *Hin aptari þykkt um þvert*, úr bungunni á hliðarbeininu yfir í bunguna á hinu hliðarbeininu, $3^1/_2$ þuml. (8. mynd c-d).
3. *Hin fremri þykkt um þvert*, úr gagnaugnabeininu yfir í hitt, $2^1/_2$ þuml. (8. mynd e-f).
4. *Þykktin á ská*, úr hökunni í hin þríhyrndu hausamót, 5 þuml.
5. *Þykktin á hæðina*, úr botninum upp á hvirfilinn, rúmir $3^1/_2$ þuml.

Til þess að geta borið saman þessa stærð höfuðsins við hina aðra parta burðarins, má og á þessum stað geta þess, að bolurinn á barninu er gildastur um herðarnar eða hjer um bil 5 þuml. á fulltíða barni, en um mjaðmirnar hjer um bil 4 þuml. En sökum þess, að þessir partar líkamans eru mjög holdugir, láta þeir undan í fæðingunni, og er því með öllu auðsætt, að höf-

uðið muni mest tálma fæðingunni, bæði vegna þess, að það er fyrirferðar mest, og einkum af því, að það er harðast fyrir.

Það er auðvitað, að sú stærð og þykkt höfuðsins sem nú var skýrt frá, er öll minni á burði, sem eigi er fulltíða og er því minni sem burðurinn fæðist fyrr.

34. grein.

Að síðustu viljum vjer enn skýra nokkuð frá því, hvernig *burðurinn* almennast *liggur* í egginu síðast á meðgöngutímanum, og þá er fæðingin tekur við. Algengast er að burðurinn liggi á þann hátt, að höfuð hans snýr hvirflinum niður að legopinu, en sitjandinn snýr upp að legbotninum. Hryggur burðarins snýr annað hvort til hægri eða vinstri hliðar, þó svo, að honum optast hallar nokkuð á ská annað hvort fram eða sjaldnar aptur. Lærin beygjast upp undir kviðinn, með þeim hætti, að fæturnir liggja í grend við sitjandann; handleggirnir liggja annað hvort fram með hliðunum að brjóstinu eða í kross yfrum það. Líkami burðarins er allur nokkuð kengbeygður fram á við, og liggur hakan inn að brjóstinu, verður lega hans nokkurn veginn eggmynduð, og fer þannig sem minnst fyrir honum.

Þessi lega burðarins er algengust, og má hana þá kalla hina *eðlilegu legu* burðarins. Sjerhverja aðra legu hans verður því að álíta *óeðlilega*.

## Fjórði kapítuli.

*skýrir frá hvernig komizt verður eptir því, hvort konan er með barni.*

—

### I. Hin algengustu einkenni þykktar.

35. grein.

Opt ber það við, að sú spurning er lögð fyrir yfirsetukonuna, hvort konan sje barnshafandi, og hlýtur hún alla jafna að leysa úr spurningu þessari bæði greinilega og með samvizkusemi, sökum þess að opt er mikið undir úrlausninni komið. Því fer fjærri, að ávallt sje hægt að veita skýr andsvör, stundum er það mjög svo torvelt, má og vera að stundum sje þess eigi kostur að leysa úr spurningunni, eins og þá kann að standa á tímanum. Einkum ber það til þess, að úrlausnin opt má verða torveld, að einkenni þau, sem almennt má ráða af, að konan sje með barni, eru eigi með öllu óræk, og hins vegar lýsa jafnvel hin órækustu og áreiðanlegustu einkenni sjer eigi jafn ljós á öllum konum eða jafn greinilega á öllum köflum af meðgöngutímanum. Þess vegna er yfirsetukonunni mjög svo áríðandi að kynna sjer til hlýtar allt það, sem má leiðbeina henni í úrlausninni, þá er hún annars vegar er í vafa.

Með tvennu móti má komast eptir, hvort konan er þunguð. Má annað hvort ráða það af breytingunum á ásigkomulagi konunnar um meðgöngutímann, eða hins vegar sjá það af burðinum sjálfum. Skulum vjer nú telja upp öll einkenni þykktar í þeirri röð, sem þau lýsa sjer, eptir því, hversu langt er liðið á meðgöngutímann, og hins vegar viljum vjer leiða rök til, hversu áreiðanleg einkenni þessi eru hvert um sig.

36. grein.

1. *Ógleði og sjúkleiki konunnar.* Öllum er kunnugt, að einkenni þetta lýsir sjer optast snemma á meðgöngutímanum, en með mjög svo margbreyttum hætti, og svo misjafnt, að hjá sumum konum ber alls eigi á því, en hjá sumum helzt það um allan meðgöngutímann. En þess ber að gæta, að mjög líkur sjúkleiki lýsir sjer opt, þótt konan eigi sje með barni, og er það þess vegna auðsætt, að einkenni þetta er mjög svo lítilfjörlegt og óáreiðanlegt.

37. grein.

2. *Tíðirnar hætta.* Tíðirnar hætta þegar í byrjun meðgöngutímans, og er það með öllu eðlilegt, því blóð þetta streymir nú allt að egginu og nærir burðinn, og er þetta svo algengt hjá barnshafandi konum, að einkenni þetta, ásamt öðrum, í raun rjettri er mikils varðandi og einna ljósastur vottur barnsþunga. En sje það nú skoðað sjer, án sambands við önnur einkenni, þá er það alls eigi áreiðanlegt, sumpart vegna þess, að opt má verða, að tíðirnar hætti, þó þykkt eigi valdi því, sumpart og af þeim rökum, að það ber stundum að, að konan hefur tíðir um meðgöngutímann og það eigi að eins fyrstu mánuðina, heldur og þangað til á síðustu mánuðum, en það ber þó sjaldan við. En reynslan hefur sýnt, að tíðablóðið, þá svo stendur á, er bæði ljósleitara á lit og minna að vöxtunum til, en það er venjulega.

38. grein.

3. *Breytingin,* sem verður á *brjóstunum.* Breyting þessi, er vjer áður höfum kynnt oss, er því að eins

nokkur röksemd fyrir því, að konan sje barnshafandi, ef önnur einkenni lýsa sjer henni samfara; bæði er það, að til eru þær konur, er brjóstin breytast svo að segja ekkert á um meðgöngutímann, og eins eru og þess dæmi, að breytingar þessar lýsa sjer, þó konan eigi sje með barni. Þetta má eigi að eins segja um brjóstin, er þau stækka og verða viðkvæm, heldur og um hinn mjólkurkynjaða vökva í þeim, sem stundum kemur í brjóstin á öldruðum konum og börnum. Þegar konan í fyrsta skipti verður barnshafandi, myndast dökkrauður hringur í kring um geirvörtuna, og er þetta með áreiðanlegri þykktar einkennum; en verði konan aptur barnshafandi, má eigi reiða sig á þetta einkenni, þar hringurinn opt eigi breytist eptir fyrsta barnsburð.

39. grein.

4. *Breytingin á kvið konunnar, er lýsir sjer þannig, að hann þykknar allur eptir því sem lengra líður á meðgöngutímann, og breytingin á naflaholunni.*

Á hinum fyrstu 2 mánuðum meðgöngutímans, þá er legið færist lengra niður í grindarholið, verður konan stundum þess áskynja, að kviðurinn er orðinn venju flatari, einkum rjett fyrir ofan blöðrubeinið. Þó er þetta einkenni mjög óáreiðanlegt og óalmennt.

En um lok 3. mánaðar, þá er legið færist upp í hið stóra grindarhol, er þess eigi langt að bíða, að konan verður þess vör, að hún tekur að þykkna, og sje þá kviðurinn kannaður, má finna til legbotnsins fyrir ofan röndina á blöðrubeininu; er hann þá fastur fyrir og svo sem hnöttóttur viðkomu. Upp frá þessum tíma þykknar kviðurinn smásaman, eptir því sem legbotninn

færist lengra upp eptir honum. Þykktin eykst nú svo mjög, að á hverjum mánuði má sjá þess sýnan mun, og fyrir þá sök má opt ráða af þykktinni einni, hversu langt er liðið á meðgöngutímann. Þannig má finna til legbotnsins á 5. mánuði hjer um bil miðs vegar á milli naflans og blöðrubeinsins, á 6. mánuði rjett fyrir neðan naflann, á 7. mánuði fyrir ofan naflann, á 8. mánuði mitt á milli naflans og hjartagrófarinnar, og á 9. mánuðinum rjett í sjálfri hjartagrófinni. Á 10. mánuði færist legbotninn aptur niður á við, eins og áður er sagt, og það svo mjög, að síðustu vikurnar fyrir fæðinguna er hann kominn hjer um bil í sama stað og hann var 8. mánuðinn.

Varla mun nokkur önnur kviðarþykkt, en barnsþungi, aukast og vaxa jafn reglulega og með eins jöfnu millibili, sem sagt hefur verið, og einmitt vegna þess er þykkt konunnar, sem þannig er varið, einka mikilvægur vottur þess, að hún sje með barni. En þess ber þó að gæta, að eigi verður jafn glöggt fundið til legbotnsins á öllum konum, og eins er kviðarþykktin heldur eigi jafn sýnileg hjá öllum konum. Stundum ber það við, að þykktin er hulin með klæðabúningnum, og eins er það og einkum athugandi, að þá er burðurinn deyr, má það verða, að kviðarþykktin minnki talsvert, þó konan gangi enn miklu lengur með.

Í nánu sambandi við kviðarþykktina er *breyting* sú er verður á *naflaholunni*.

Um lok 6. mánaðar er legbotninn kominn fast upp að naflaholunni, og fer hún þá að þenjast út, fyrst að neðanverðu vegna þess, að legbotninn þrengir að að innanverðu; á 8. mánuði er holan alveg horfin, og á síðasta mánuði meðgöngutímans er hún nokkuð tútnuð

út úr kviðnum. Þetta er þó eigi áreiðanlegur vottur þess, að konan sje með barni, því það má og verða, að önnur þykkt en barnsþungi valdi breytingu þessari á naflaholunni, er að innan þrýstir að þar er naflinn er fyrir. En þá er önnur einkenni þykktar lýsa sjer samfara þessu, er það all sennilegt.

40. grein.

*5. Breytingin, sem verður á legopinu og leghálsinum.*

Á hinum 2 fyrstu mánuðum meðgöngutímans færist legopið lengra niður í leggöngin, og barmar þess verða jafn langir, og opið sjálft, sem í fyrstu er þverop, er nú orðið kringlótt op og kiprað saman. En úr því 3. mánuður er liðinn, færist legopið lengra upp á við, að sínu leyti eins og legið sjálft, og veit það þá aptur á við, og síðan kemst það svo langt upp eptir, að allt að síðasta mánuðinum má að eins finna til þess, og stundum alls ekki, þá er maður leitar fyrir sjer með fingrinum. En þá er líður að fæðingunni, er það á sumum þeim, sem eiga barn í fyrsta sinn, með litlum börmum, og lokað, en á sumum, sem optar hafa átt barn, eru hinir ytri barmar þess þykkir, ójafnir, og svo sem sigg í þeim, og er opið þegar um miðjan meðgöngutímann, þannig að fara má með fingrinum inn í leghálsinn; hið innra legop er aptur á móti fyrst síðustu vikuna svo opið, að um það má fara með fingrinum upp að egghimnunum.

Leghálsinn breytist eigi um fyrri helming meðgöngutímans að öðru leyti en því, að hann verður smásaman nokkuð þykkvari og mýkri viðkomu. Hjer um bil á 5. mánuði, stundum fyrr, ber fyrst á því, að leghálsinn fer að þenjast út og styttast, fyrst að framanverðu,

og á 6. mánuði einnig að aptanverðu, og úr því komið er á sjöunda mánuðinn, þenst hann meira og meira út og styttist, og verður að nokkru leyti hnattmyndaður, og þá er fæðingin tekur við, finnst opt að eins til leghálsins svo sem ógreinileg rönd nokkur neðst á leginu, sem er út þanið.

Breytingar þessar í legopinu og leghálsinum má álíta með betri einkennum þess, að konan sje með barni. Þó ber þess að gæta, að breytingar þessar lýsa sjer eigi beinlínis með sama hætti á öllum þunguðum konum, og hins vegar, þá er legið sjálft veikist af öðrum orsökum, en af barnsþunga, ber það stundum við, að lík breyting kemur á legopið og leghálsinn, og fyrir þá sök er þetta eigi einhlýtur vottur þess, að konan sje með barni. Samt sem áður eru miklar líkur til að svo sje, þegar leghálsinn er mjög linur og mjúkur.

## 41. grein.

Einna mest má reiða sig á þau einkennin, sem beinlínis lýsa sjer hjá burðinum sjálfum, og þá er þau lýsa sjer glöggt, er hvert þeirra svo mikilvægt, að ganga má úr skugga um, að konan sje með barni. Þess ber þó að geta, að öll slík einkenni lýsa sjer fyrst þegar konan er búin að hálfganga með.

6. *Burðurinn hreifir sig.* Menn hafa reynsluna fyrir sjer um það, að um lok 5. mánaðar er burðurinn optast kominn svo langt á leið, að hann tekur til að hreifa sig, og það svo, að eigi einungis konan sjálf finnur til þess, heldur má og finna til þess, þá hendin er lögð utan á kviðinn. Þessi hreifing burðarins lýsir sjer á þann hátt, að það er eins og eitthvað hastarlega komi

við hendina, en sem þegar hverfur aptur. Á hinum síðustu mánuðum verða hreifingarnar miklu glöggvari.

Eigi hreifingar burðarins að vera áreiðanlegur vottur þess, að konan sje með barni, þá ber þess að gæta, að eigi skal þann dóm byggja á því, er konan ein finni til þeirra, heldur verðum vjer einungis að fara eptir vorri rannsókn, er fara skal fram með allri varúð og samvizkusemi; það er mjög svo algengt, að konur, einkum þær, er eigi áður hafa alið barn, ímyndi sjer, að burðurinn hreifi sig, þó slíkt opt komi af öðrum orsökum, og draga þær þannig sjálfa sig og aðra á tálar í þessu efni. En ef vjer sjálfir höfum glöggt fundið hreifingu burðarins, getum vjer um leið gengið úr skugga um, að konan sje með barni. Þó er það athugandi, að eigi er með þessu sagt, að konan kunni eigi eins eptir sem áður að vera þunguð, þótt vjer eigi getum fundið burðinn hreifa sig, því opt má það verða, að ekki beri á hreifingu þessari, eigi að eins um nokkrar stundir, heldur og um nokkra daga, og það þó að burðurinn sje á lífi; það er á hinn bóginn sjálfsagt, að þá er burðurinn deyr í móðurkviði, muni eigi lengur finnast til nokkurrar hreifingar með konunni. Það verður því með öllu auðsætt, að þá er vjer finnum burðinn hreifa sig, má ganga að því vísu, að konan er með barni, en hins vegar sannar það eigi hið gagnstæða, þótt vjer eigi finnum til hreifingar.

7. *Hjartsláttur burðarins.* Frá byrjun 6. mánaðar má heyra hljóð nokkurt, sem líkist því, er maður heyrir til sigurverks, sem þakið er klæðum; má heyra þetta með því að leggja hlustina við kvið konunnar, fyrir neðan naflann. Hljóð þetta er hjartsláttur burðarins; þetta hljóð verður að aðgreina frá öðru hljóði, sem

kennt er við móðurlegið, og sem eigi heyrist eins ótt og títt, heldur er jafn fljótt slætti lífæðarinnar á konunni, en aptur á móti er hjartsláttur burðarins því nær tvöfallt eins fljótur og sláttur lífæðarinnar á konunni.

Heyri maður glöggt hjartsláttinn, þá er það sjálfsagt, að það getur eigi annað verið en hjartsláttur burðarins, og að því leyti er það órækur vottur þess, að konan sje með barni. En þess ber að gæta, að hjartslátturinn verður opt um nokkra stund óglöggur, og hins vegar er það sjálfsagt, að hann hættir með öllu, þá er burðurinn deyr; en það sannar eigi að konan sje eigi þunguð, þó eigi heyrist til hjartsláttar burðarins.

8. *Þá er finna má til nokkurra parta burðarins, annað hvort utan á kviðnum eða um leghálsinn.* Á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans má stundum glöggt finna til einstakra parta burðarins, þegar leitað er fyrir sjer með hendinni utan á kvið konunnar, og þá svo er, má öldungis ganga að því vísu, að hún sje með barni. En þó ber það optar við, að finna má reyndar til nokkurra smáparta í kviði konunnar, sem harðir eru viðkomu, og eru líkindi til að sjeu nokkrir partar burðarins, en svo glöggt finnst þó eigi til þeirra, að ganga megi úr skugga um, að svo sje og eigi annað. Þá er svo stendur á, ber þess jafnan að gæta, að reiða sig eigi um of á það, þótt manni finnist það vera partar burðarins, því reynslan hefur sýnt, að opt skjátlar yfirsetukonunni, þá svo ber undir.

Með miklu meiri vissu má fara eptir tilfinningunni, þá er kannaður er leghálsinn á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans; hann er þá orðinn útþaninn, og fyrir þá sök má finna til höfuðsins úr því komið er fram í 7. mánuð, ef burðurinn liggur eðlilega, eða eins

og tíðast er; það er reyndar, enn sem komið er, lítið, en þá er þrýst er með fingrinum utan um leghálsinn, hleypur það eins og undan honum, vegna þess að burðurinn allur, eins og áður er sagt, flýtur í legvatninu. En því meira sem neðsti hluti legsins á hinum síðari mánuðum þenst út og þynnist, því glöggvara má finna til höfuðsins á burðinum, en það stækkar nú óðum og verður þyngra, og lætur því síður undan, þó þrýst sje með fingrinum á það.

Þá er glöggt má finna til höfuðsins á burðinum, er það sjálfsagt að enginn vafi er lengur á því, að konan sje með barni, og er þetta því með öllu áreiðanlegur vottur þess. En á hinn bóginn sannar það eigi hið gagnstæða, þó vjer eigi getum fundið til höfuðsins, því stundum ber það við, að höfuðið einhverra orsaka vegna nemur staðar svo langt upp í grindarholinu, að eigi verður náð til þess með fingrinum, og eins fer þá er burðurinn eigi liggur eðlilega í leginu, og höfuðið eigi snýr niður að leghálsinum.

## 42. grein.

Af því, er nú hefur verið skýrt frá, verður yfirsetukonunni það með öllu ljóst, að fyrst á hinum síðari hluta meðgöngutímans getur hún venjulega með vissu komizt eptir, hvort konan er með barni, en á hinn bóginn getur það og að borið, að hún eigi getur með fullri vissu komizt eptir því, enda þótt konan sje meira en búin að hálfganga með. Þegar svo stendur á, en það ber sjaldan við, er það skylda yfirsetukonunnar, að skjóta til læknis úrskurðar í þessu efni.

## II. Einkenni þau, er lýsa því, hvort burðurinn er á lífi eða hann er dauður um meðgöngutímann.

43. grein.

Því fer fjærri, að allajafna sje auðvelt með vissu að skera úr því, hvort burðurinn sje með lífi eða hann sje dauður. Reyndar má með vissu komast eptir, hvort hann er á lífi, en eigi eptir því, hvort hann er dauður, því opt má verða, að eigi verður fundið lífsmark með honum enda þótt hann sje á lífi.

Ef konan eigi hefur orðið fyrir svo miklum áföllum um meðgöngutímann, að burðinum sje auðsjáanlega dauði búinn, er ástæða fyrir því að halda, að *burðurinn sje á lífi*, og eins þá, er allar þær breytingar, sem venjulegt er að verði á konunni um meðgöngutímann, lýsa sjer í þeirri röð, sem eðlilegt er, og áður er skýrt frá. En úr skugga má ganga um að burðurinn sje á lífi, þá glöggt verður fundið til hreifingu hans og þá er heyra má til hjartsláttarins.

*Líkindi eru til að burðurinn sje dauður:*

*þá er* konan hefir orðið fyrir miklum og skaðvænum áföllum (svo sem er hastarleg geðshræring eða hættuleg veikindi);

*þá er* eigi hefur fundist til hreifinga burðarins um nokkuð laugan tíma, einkum hafi mjög mikið borið á þeim, þá er síðast varð vart við þær;

*þá er* eigi hefur heyrzt til hjartsláttar burðarins um langan tíma;

*þá er* kviðurinn svo sem dregst saman og minnkar allur, í stað þess að þenjast út, og konan finnur til kulda í honum einkum fyrir neðan naflann, og ef

hún verður vör við þyngsli nokkur til beggja hliða,
þá er hún hallar sjer út á hliðarnar;
*þá er* allur stálmi fer úr brjóstunum.

Þegar hvort eitt einstakt af þessum einkennum lýsir sjer, eru nokkur líkindi til, að burðurinn sje dauður; lýsi þau sjer öll í senn, er það mjög svo sennilegt, en þó er eigi fullkomin vissa fyrir því, og fyrst verður gengið úr skugga um dauða burðarins í fæðingunni sjálfri.

---

## Fimmti kapítuli

*skýrir frá, hvernig sjá má, hversu langt er liðið á meðgöngutímann.*

### 44. grein.

Venjulegast er að konan gangi með 10 mánuði (tunglmánuði) eða 40 vikur eða 280 daga, eða þá talið er eptir almanakinu, 9 mánuði og 7 daga. Þá er þessi tími er liðinn segja menn að konan sje *búin að fullganga með*, *burðurinn sje fulltíða* og *fæðingin tímanleg*. Nokkurra daga mismunur er eigi tekinn til greina og er það heldur eigi mikils varðandi, og verður opt af því að skakkt er talið.

Sje svo, að yfirsetukonan verði að ákveða, hversu langt á leið að konan sje komin, eða með öðrum orðum, hversu langt sje eptir af meðgöngutímanum, þá hlýtur hún fyrst og fremst að fara eptir því í úrlausn sinni, sem konurnar sjálfar venjulega telja til, eða með öðrum orðum að telja frá þeim tíma, þá er tíðirnar hætta og burðurinn tekur fyrst að hreifa sig.

Nú skal nákvæmara greint frá, hvernig talið er frá því, þá er *tíðirnar hætta*, og er þá talið frá þeim degi, er konan síðast hafði tíðir, og eru þá öll líkindi til, að konan muni fæða 40 vikum síðar, á að gizka um þær mundir sem konur venjulega hafa tíðir. Það er auðsætt, að nokkru muni geta skakkað, þá svo er talið, bæði sökum þess, að opt er mikil óregla á tíðunum, og eins er eigi hægt að hafa vissu fyrir því, að frjófgunin hafi farið fram einmitt hina fyrstu daga eptir það er konan síðast hafði tíðir.

Eptir *hreifingum burðarins* er og talið til, hversu langt sje liðið á meðgöngutímann, og er þá viðtekið, að 20 vikur sjeu liðnar, þá er konan fyrst verður vör við hreifingu burðarins. Þá segja menn, að konan sje búin að *hálfganga með*, og líf sje með burðinum, þó ætti eigi að við hafa þetta orðatiltæki, því það er óljóst og eigi allskostar rjett. En þá þannig er talið til, koma og misfellur á, og er það sumpart vegna þess, að eigi er með öllu óhætt að reiða sig á tilfinningu konunnar í þessu efni, og hins vegar hefur reynslan sýnt, að þá er burðurinn er annað hvort óvenjulega vel eða miður dafnaður, má svo verða, að hann fari að hreifa sig nokkru fyrir eða eptir 20. vikuna.

Hinn beinasti vegur fyrir yfirsetukonuna til að leysa úr þessu er sá, að rannsaka *hina innri fæðingarparta, kviðinn* og *brjóstin*. Áður er skýrt frá breytingum þeim, sem lýsa sjer á þessum pörtum á líkama konunnar á ýmsum köflum meðgöngutímans. En til þess hægara að geta fengið yfirlit yfir þær allar í senn, viljum vjer á þessum stað taka allar hinar helztu breytingar undir eitt, og skýra frá þeim í þeirri röð, sem þær lýsa sjer, meðan konan gengur með, en af þeim

einum skal yfirsetukonan ráða, hversu langt sje liðið á meðgöngutímann, en þó má hún eigi hugsa, að hún með fullkominni vissu geti leyst úr þessu, heldur að eins hjer um bil getið því nærri. Breytingar þessar lýsa sjer þannig:

*Á hinum fyrstu 2 mánuðum* er kviðurinn nokkuð flatur fyrir ofan blöðrubeinið, og má finna til legopsins langt niður í leggöngunum; barmar þess eru jafn langir, og þveropið sjálft svo sem kiprað saman og orðið næstum því kringlótt; leghálsinn er venju fremur mjúkur og þykkur; brjóstin stækka og verða öll viðkvæmari.

*Um lok 3. mánaðar* verður kviðurinn þrýstnari fyrir ofan blöðrubeinið; legopið færist upp eptir leggöngunum og snýr að nokkru leyti aptur á við; konan finnur til kviða og smástingja í brjóstunum og hörundið verður dekkra í kring um geirvörtuna, og hinir smáu eitlar utan um geirvörtuna fara að koma betur í ljós.

*Á 4. mánuðinum* er kviðurinn orðinn talsvert þrýstnari fyrir ofan blöðrubeinið og mjaðmirnar; glöggt má finna til legbotnsins rjett fyrir ofan röndina á blöðrubeininu; legopinu hefur miðað lengra upp á við í grindarholinu og snýr meira aptur á við en fyrr; hörundið er orðið enn dekkra í kring um geirvörtuna.

*Á 5. mánuðinum* má finna til legbotnsins miðs vegar á milli naflans og blöðrubeinsins; varla verður um leggöngin náð til legopsins með fingrinum; á hinum síðari hluta mánaðarins tekur leghálsinn að styttast, og hafi konan alið barn áður, er ytra legopið svo vítt, að komast má vel með fingrinum nokkuð inn í það.

*Á 6. mánuðinum* má finna til legbotnsins rjett upp undir naflanum, og hinn neðri hluti naflaholunnar tekur

að þenjast út; glöggt má og heyra til hjartsláttar burðarins.

*Á 7. mánuðinum* er legbotninn kominn 1 eða 2 þumlunga upp fyrir naflann, og naflaholan er næstum horfin; leghálsinn styttist meira og meira, og í lok þessa mánaðar má finna til höfuðsins á burðinum með fingrinum, en það eins og hleypur undan, þá þrýst er á; vökvi nokkur, sem líkist mjólk, kemur í brjóstin.

*Á 8. mánuðinum* er legbotninn kominn miðs vegar á milli naflans og hjartagrófarinnar; naflaholan er með öllu horfin; utan á kviðnum má finna til nokkurra parta burðarins; finna má glöggt til höfuðsins á burðinum, þá farið er með fingrinum um leggöngin.

*Á 9. mánuðinum* er legbotninn kominn því nær upp undir hjartagrófina og naflaholan er útnuð út; höfuð burðarins er nú þyngra og stærra, leggöngin talsvert víðari og hrukkurnar því nær horfnar; þau eru og fremur venju þvöl viðkomu.

*Á 10. mánuðinum* færist legbotninn aptur niður undir naflann; kviðarþykktin verður öllu meiri að framanverðu; að eins lítið eitt finnst til leghálsins, og er hann nú, ásamt höfði burðarins, kominn lengra niður í grindarholinu. Legopið er optast lokað á þeim konum, sem eiga barn í fyrsta skipti, og barmar þess þunnir, en á konum, sem áður hafa alið barn, eru barmar ytri legopsins þykkvir og gleiðir; leghálsholið er styttra og hið innra legopið opt svo vítt, að komast má með fingrinum upp að burðarhimnunum.

## Sjötti kapítuli.

*Um óeðlilegar þykktir.*

### I. Þá er konan gengur með tvíbura.

45. grein.

Mjög svo sjaldan verður með vissu komizt eptir, hvort konan muni ganga með tvíbura fyrr en í fæðingunni sjálfri, því öll þau einkenni, er menn hafa tilgreint, eru óáreiðanleg. Það, sem bendir á, að konan muni ganga með tvíbura, er helzt þetta, er nú skal greina:

*Kviðarþykkt konunnar er venju fremur mikil;* þetta getur þó einnig orsakazt af því, að burðurinn er venju fremur stór eða legvatnið er of mikið.

*Um miðjan kviðinn er svo sem laut og beggja megin við hana er kviðurinn venju fremur þaninn út;* en þess skal gætt, að þannig má stundum sjá kviðinn, þótt burðurinn sje að eins einn, og er það þegar burðurinn liggur annað hvort um þvert eða á ská í móðurleginu.

*Þegar á sama tíma verður vart við hreifingar burðarins á fleiri en einum stað;* þetta má og verða vart við þótt burðurinn sje að eins einn.

*Þegar heyra má hjartslátt burðar beggja megin í kviðnum,* og slátturinn eigi er jafn tíður á báðum stöðum eða beggja megin; en þess skal þó gætt, að stundum má vera, að hjartslátt eins einstaks burðar má heyra beggja megin á kviðnum, og mjög er örðugt og opt eigi unnt með neinni vissu að heyra, hvort slátturinn er jafn tíður beggja megin eða eigi.

Opt er það, að konunni er *öllu óhægara,* og hún

er öll lasnari, þegar hún gengur með tvíbura en þegar að einn er burðurinn.

Það er því auðsætt af því, er nú hefir verið sagt, að það eitt verður með sanni sagt, að líkindi eru til, að konan gangi með tvíbura, og við það verður að sitja þangað til hún fæðir, en fæðingin ber optast að nokkru fyrr, þá svo stendur á, en venjulegt er.

Það er eigi unnt að segja það fyrir um meðgöngutímann, hvort konan gangi með *fleiri en 2 burði.*

### II. Þykkt fyrir utan móðurlegið.

#### 46. grein.

Þegar hið frjófgaða egg kemst eigi inn í legholið, en festir sig og þróast á öðrum stað í grindarholinu fyrir utan legið, þá er það nefnt *þykkt fyrir utan móðurlegið.*

#### 47. grein.

Þess ber að geta, *að eigi lendir hinu frjófgaða eggi allajafna á sama stað*, þá er það fer á mis við legholið. Stundum getur það að borið, að eggið eigi losnar frá eggjakerfinu, heldur situr þar fast og vex þar og dafnar; eða hins vegar losnar það reyndar við eggjakerfið, en kemst eigi lengra en inn í legpípuna, og þróast þar, og í þriðja lagi má það verða, að eggið á leiðinni úr eggjakerfinu til legpípunnar, dettur niður í kviðinn, og festist þá einhverstaðar á þörmunum eða á hinum öðrum innýflum.

Þá er þannig tekst til með eggið, deyr konan optast nær; þó er eigi alllítið undir því komið, hvar egginu hefur lent, því eptir því er konunni meiri eða minni hætta búin. Standi svo á að eggið hefur komizt inn í

legpípuna, og vaxið þar og dafnað, þá deyr konan venjulega á þriðja eða fjórða mánuðinum, með þeim hætti, að nokkrir partar í grend við það bila eða rifna, og blæðir henni þá til ólífis. Eins fer þá er eggið vex og þróast í eggjakerfinu. En ef egginu lendir einhverstaðar í kviðnum sjálfum, þá er ekkert, sem tálmar því, að burðurinn megi verða fulltíða, eins og ef egginu hefði lent í legholinu sjálfu, en þá svo er komið, deyr burðurinn ef eigi læknirinn með ráðum getur náð honum lifandi. Þó má sjá þess dæmi, að hún heldur lífinu, annað hvort með þeim hætti, að grefur í kviðnum nálægt naflanum, og um op það, er þaunig kemur á hann, kemur burðurinn út í smápörtum, eða og grefur í görnunum á líkan hátt að neðanverðu og innanverðu, og konan losast, þá er svo stendur á, við burðinn í smápörtum um þarfaganginn. Það má og verða, að burðurinn visnar allur upp, en í stað þess að leysast í sundur, eins og í hinum tilfellunum, verður hann að hörðum klumpi, er staðnæmist í kviðnum án þess að skaða heilsu konunnar.

Á hinum fyrstu mánuðum er eigi hægt *að aðgreina þessa þykkt* frá hinni eðlilegu þykkt, og síðar er það og mjög svo torvelt, og fullyrða má, að yfirsetukonan einungis getur gjört sjer lausa getgátu um það, en aldrei sagt það fyrir með fullri vissu. Þó má vera að það, er hjer segir, gefi henni bendingar og hugvekju í þessu efni:

*að* kviðar þykkt konunnar lýsir sjer fremur til annarar hvorrar hliðar, en ekki, eins og venjulegt er, mest beint fyrir ofan mitt blöðrubeinið;

*að* finna má miklu glöggvara, en venjulega verður, til hreifinga burðarins og eins hinna einstöku parta

hans, þá er maður leitar fyrir sjer með höndunum utan á kvið konunnar;

*að* hvorki svara breytingarnar á legopinu nje heldur á leghálsinum til þess, hve langt er liðið á meðgöngutímann, og einkum er það eptirtektarvert, að leghálsinn eigi þenst út, nje verður ávalur á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans, eins og venja er til, þá er þykktin er óeðlileg.

Ef yfirsetukonan verður vör við einkenni þau, er nú voru talin, og henni þannig sýnist líkindi til, að þykktin sje fyrir utan móðurlegið, þá skal hún þegar gjöra lækninum njósn um það, en forðast að láta konuna skilja það á sjer í orðum eða aðferð, eða þá er hlut eiga að.

## III. Óeðlileg þykkt.

### 48. grein.

Þá er hið frjófgaða egg reyndar kemst inn í legholið, en kyrkist síðar með öllu, og eðli þess breytist svo mjög, að eigi er hægt að aðgreina hina einstöku parta þess, nje heldur burðinn sjálfan, er þykktin og kölluð *óeðlileg þykkt*, og eggið *óeðlilegt egg* eða mánaðarkálfur. En þess ber að geta, að í daglegu máli er og hið sama nafn haft um hvern annan samdrátt, er myndast inn í legholinu, og jafnóðum eyðist aptur, án þess konan hafi orðið barnshafandi, en það er athugandi, að þá á það eigi vel við, og stendur í engu sambandi við frjófgun, og ber þessa vel að gæta, þá er ógiptur kvennmaður á í hlut.

### 49. grein.

Hið óeðlilega egg sýnir sig opt í ýmsum myndum;

stundum er það samsett af holdtrefjum og fast í sjer, en stundum er það blaðra nokkur, og er annað hvort blóðvatn í henni eða storkið blóð, og í þriðja lagi er það samsett af mörgum gagnsæum vatnsblöðrum eða bólum, er allar eru áfastar hver við aðra, svo sem vínberin á leggnum.

Það er einka örðugt að gjöra mun á, hvort þykktin er óeðlileg eða eðlileg, og optast er það eigi hægt, sökum þess að hin óeðlilega þykkt lýsir sjer öldungis á sama hátt á hinum fyrstu mánuðum, og væri hún eðlileg, en hins vegar varir þess konar þykkt venjulega eigi lengur en þrjá eða mest fjóra mánuði. Þó getur það við borið, að hún helzt fimm eða sex mánuði, og þá svo stendur á, er það eptirtektavert, að kviðar þykktin eykst venju fremur, og brjóstin þrútna, og fyrr kemur í þau vatnskenndur vökvi; þá svo ber undir er konan optast venju fremur sjúk um allan meðgöngutímann, og ýmist missir hún blóð eða vatn. Það er sjálfsagt að hvorki heyrist til hjartsláttarins, nje heldur verður fundið til hreifinga barnsins. Þá er nú allt þetta lýsir sjer, eru reyndar nokkur líkindi til, að konan eigi sje eðlilega þunguð, en fyrst verður þó gengið úr skugga um að svo sje, þá er hið óeðlilega egg kemur í ljós, en um leið og það verður, missir konan allajafna mikið blóð, og finnur hún til sárra verkja, að sínu leyti eins og hefði hún fæðingarhríðir, og líkt og þá eggið ferst með öðrum hætti.

Á þessum stað má geta þess, að mjög sjaldan ber það við, að undir eins sje bæði eðlilegt og óeðlilegt egg í legholinu, en af því leiðir, að þykktin er þá bæði eðlileg og óeðlileg. En eigi verður komizt eptir því, að svo sje, fyrr en í fæðingunni, þá er hið óeðlilega egg

kemur í ljós, annað hvort á undan eða á eptir burðinum. En venjulegast er þó, að þess konar egg komi fyrst í ljós með fylgjunni.

## Sjöundi kapítuli.

*Almenn ráð, er barnshafandi konur skulu fara eptir.*

50. grein.

Það er reyndar sjálfsagt, að þykkt kvenna er engan veginn að álíta sem sjúkdóm nokkurn, þá er hún er skoðuð sjer í lagi, en hins vegar verður það eigi varið, að um meðgöngutímann fær óforsjállegur lifnaðarháttur venju fremur á konuna, og eins sjerhver önnur áhrif utan að, og er það því fremur skylda hennar, að komast hjá þessu, að svo miklu leyti í hennar valdi stendur, sem burðurinn getur beðið tjón af því, og opt leiðir slikt til þess, að fæðingin verður óeðlileg. Það er því mikils varðandi fyrir barnshafandi konu að vera mjög svo aðgætna um hagi sína, og að svo miklu leyti henni er hægt, skal hún gæta þess, sem hjer mun sagt verða, og á það eins heima hjá öllum konum, sem barnshafandi eru, meðan á meðgöngutímanum stendur; það er og skylda yfirsetukonunnar að gefa konunni bendingar um þetta efni, og hvetja hana til að hlýða ráðum hennar.

Það má álíta sem *einkareglu,* að barnshafandi kona eigi bregði í neinu sjer í lagi út af sínum venjulega lifnaðarhætti, að minnsta kosti að svo miklu leyti, sem henni hefur liðið vel við hann, og ef hann eigi beinlínis á illa við þungaða konu, því reynslan sýnir, að hver ein

hastarleg breyting á konunnar fyrra lifnaðarhættl, enda þótt hún annars vegar í sjálfu sjer sje til góðs, hefur opt ill áhrif á burðarlífið.

51. grein.

Mikið er komið undir *loptinu,* sem konan dregur að sjer, og að svo miklu leyti unnt er, skal leggja alla stund á að hafa það öldungis óspillt eða hreint, og ekki blandað öðru skaðvænu lopti. Það er því einkaráð fyrir barnshafandi konu að hleypa jafnaðarlega nýju lopti inn í það herbergi, sem hún er í, og sjálf skal hún opt vera úti við og á stjái, en þó ekki reyna mjög mikið á sig. Þetta er svo að skilja, að öll hreifing hefur þau áhrif á hana, að blóðið rennur þeim mun fljótara um líkamann, þá svo er með farið, og konunni verður fyrir þá sök svo sem allri ljettara. En hún skal sneyða sig hjá sjerhverri breytingu og erfiði, sem reynir á hana um of, og teljum vjer til þess: stökk, hlaup, dansleik; eins skal hún varast að bera eða lypta þungri byrði, vegna þess að opt má verða, að af því komi blóðlát, og eins að konan fæði opt fyrir tímann, ef hún eigi hefur við alla varhyggð í þessu efni.

52. grein.

Einkum er ráðandi til allrar hófsemdar í *mat* og *drykk.* Konan skal því varast að neyta of mikils, en áríðandi er, að konan nærist á saðsömum mat og sem gott er að melta, og eins skal hún sneyða sig hjá að borða þann mat, er örðugt er að melta, og eigi skal hún neyta áfengra drykkja. Einkum er þó ráðandi til hófsemdar, þá er líður undir lok meðgöngutímans. Ef konunni eigi geðjast að eða fellur matur nokkur, með-

an hún gengur með, þá skal eigi heldur halda honum að henni, en hins vegar er eigi heldur allajafna ráðlegt að láta allt eptir henni, ef hún t. a. m. annað veifið fær lyst á hinu eða þessu, en fyr hefur það verið álitið með öllu nauðsynlegt.

53. grein.

Hin barnshafandi kona skal allajafna gæta stillingar, og eigi láta *geðshræringar* hrífa sig um of, fyrir þá sök, að opt hafa af slíku orsakast taugateigjur, blóðspýja, fæðing í ótíma, eða og hefur burðurinn dáið. Má og verða að slíku komi til leiðar eigi einungis hinar óþægilegu geðshræringar, t. a. m. hræðsla og ótti, reiði, sorg, o. fl. þk., heldur og hastarleg gleði.

Undir lok meðgöngutímans verða þungaðar konur opt hræddar og óttaslegnar fyrir fæðingunni; þó á þetta sjer einkum stað hjá þeim konum, er eigi hafa áður átt barn, eða hjá þeim, sem áður hafa komið hart niður. Þá er svo stendur á, er það skylda yfirsetukonunnar að hughreysta konuna með skynsamlegum fortölum, og vekja góða von hjá henni, en aldrei skal hún bæta á hræðslu konunnar með því að segja henni frá torveldri eða hættulegri fæðing, er hún hefur annað hvort heyrt sagt frá eða sjálf sjeð.

54. grein.

Í *klæðaburðinum* skal barnshafandi kona allajafna nákvæmlega gæta þess að skýla vel brjóstunum og fæðingarpörtunum, svo eigi komi kuldi að þeim, og eins skal hún og sjá svo um, að eigi sjeu fötin svo þröng, að þau kreppi að líkamanum. Til þess að halda kviðnum vel heitum er ráðandi til, að konan hafi kviðarbelti,

úr ull, og eins má það koma að góðu haldi til þess að ljetta undir kviðinn, sje konan mjög framsett.

55. grein.

Þess ber einkum að gæta, að konan hafi á degi hverjum *góðar hægðir*, og má það verða með þeim hætti, að hún lifi reglulega bæði í mat og drykk, og hins vegar má og sjá svo um, að hún fái góðar hægðir, með því að gefa henni inn hreinsandi meðöl, svo sem 1 theskeið af skornri rhabarbararót, matspón af laxerolíu, eða einn bolla af sennesblaðaseyði, sem drekka skal volgt, og eins með því móti að setja henni stólpípu, ef þurfa þykir; en með öllu er ráðandi frá að gefa henni megn hreinsunarmeðöl, því þau geta opt orðið henni skaðvæn. Eins er það og sjer í lagi áríðandi, að konan eigi haldi *þvaginu* með sjer, heldur skal hún þegar, í hvert skipti sem náttúran býður, hægja sjer til kviðarins, því það má opt valda miklu tjóni, ef hún eigi nákvæmlega gætir þessa.

56. grein.

Á hinum síðustu mánuðum af meðgöngutímanum skal einkum fara vel með *geirvörturnar*, og er það einkum þá áríðandi, ef konan leggur barnið á brjóst eptir fæðinguna, og má slíkt verða með þeim hætti, að gæta þess, að fötin eigi þrengi að þeim, en skýla þeim vel, og eins skal þvo þær tvisvar sinnum á dag upp úr köldu vatni, því þá svo er með farið, styrkist hörundið á þeim, og sprungur koma þá síður í þær, meðan barnið liggur á brjósti. En ef geirvörturnar eru flatar og liggja djúpt, skal smátt og smátt ná þeim lengra út með því að sjúga þær út með verkfærum, er höfð eru til þess,

og hylja þær svo með geirvartnatyppum, úr trje, blýi eða horni. Áður er sagt, að jafnan skuli halda brjóstunum heitum.

57. grein.

Á þessum stað viljum vjer og geta þess, að yfirsetukonan skal ráða þungaðri konu frá að hafa opt *holdlegt samræði*, fyrir þá sök, að opt má slíkt valda blóðláti og fæðing í ótíma. Einkum ber þeim konum að gæta þess, er áður hafa fætt í ótíma, því þá svo stendur á, ætti öldungis að ráða frá samræði, sökum þess að hætt er við að reki að hinu sama, ef eigi er öll varhyggð við höfð.

---

# Þriðji þáttur

## skýrir frá fæðingunni yfir höfuð að tala og frá hinni reglulegu fæðingu sjer í lagi.

### Fyrsti kafli.

Um fæðinguna yfir höfuð að tala.

58. grein.

Það er kölluð *fæðing*, þá er burðurinn með þeim pörtum eggsins, er honum fylgja, kemur í ljós úr móðurkviði. Sje það eingöngu afl náttúrunnar, sem rekur burðinn og fylgjuna áfram, þá er fæðingin nefnd *eðlileg*, því *óeðlilega* má kalla þá fæðing, þegar þörf er á að viðhafa verkfæri, svo konan geti fætt.

---

# Fyrsti kapituli.

## *Fæðingaraflið.*

### 59. grein.

Fæðingaraflið er að mestu leyti komið undir leginu, og lýsir það sjer á þann hátt, að jóðsótt eða hríðir koma að konunni; en undir lok fæðingarinnar bætist annað aflið við sumsje samdráttur legganganna, holdbrúarinnar og magálsins.

### 60. grein.

Það eru kallaðar *hríðir*, þá er ósjálfrátt kemur samdráttur í legið með sárri tilfinningu, en með þessu móti er burðinum og því sem honum fylgir svo sem hrundið út úr leginu. Þó ber þess að geta, að eigi koma samdrættir þessir í allt legið í senn, heldur byrja þeir í legbotninum og ganga niður að leghálsinum; þannig eins og þrýsta þeir egginu niður að legopinu, er nú víkkar, og mun mega fullyrða, að hin sára tilfinning, sem konan finnur til meðan á hríðunum stendur, er að mestu leyti komin undir því, að leghálsinn þenst svo út, þá er legopið víkkar.

### 61. grein.

Mikils er áríðandi að gjöra mun á hríðunum sjálfum, og eins konar sárri tilfinning í kviðnum, er líkist þeim meira eða minna, og finnur konan til þessa bæði um meðgöngutímann, og meðan á fæðingunni stendur, og verður henni því stundum það á að hugsa, að verkir þessir í kviðnum, sjeu *fæðingarhríðir*, en til aðgreiningar frá þeim má kalla tilfinning þessa *óeðlilegar hríðir*.

*Hinar rjettu fæðingarhríðir lýsa sjer með þessum hætti:*

1. Hríðirnar koma að með köflum, eða með öðrum orðum, að nokkur stund verður á milli þeirra, og aukast þær eptir vissri röð, og verða sterkari og ákafari, eptir því sem fæðingunni miðar lengra áfram, og eins koma þær óðar og standa lengur yfir, þá er á hana líður.

2. Hríðirnar sýna sig allajafna á tilteknum stöðum, með þeim hætti, að fyrst finnur konan til þeirra um lendarnar, en þaðan leiðir verkinn niður eptir grindarholinu, fram að nárabeinunum og út í hina ytri fæðingarparta og niður í lærin.

3. Meðan á hverri hríð stendur, þenst legið nokkuð eitt út, og legbotninn er harður viðkomu, þar til hríðinni ljettir.

4. Með líkum hætti má og, meðan á hríðunum stendur, um leggöngin glöggt finna með fingrinum, að legopið þenst út, og víkkar og um leið verður maður var við, að belgirnir eða himnurnar með þeim parti burðarins, er liggur næst, færist niður að legopinu.

En *verkir* þeir í kviðnum, er áður er sagt frá, líkjast að nokkru leyti hríðunum, en eiga þó reyndar ekkert skylt við þær; koma þeir optast úr görnunum, og lýsa sjer með allt öðrum hætti en hríðirnar, svo að hvorki koma þeir í nokkurri vissri röð, með millibili, nje heldur finnst til þeirra fremur á einum en öðrum stað í grindarholinu, og eins breytist eigi legið eða partar þess, og eyða má þeim með meðölum, er eiga við þeim. Ef verkir þessir lýsa sjer í fæðingunni sjálfri, eða með öðrum orðum, meðan konan hefur hinar rjettu hríðir, má segja að konan hafi *hvorskyns hríðir.*

62. grein.

Hinar rjettu hríðir lýsa sjer þó eigi ávallt *jafn reglulega;* stundum eru þær of harðar eða of linar, eða þær standa of stutta stund yfir, eða og koma þær of sjaldan að, eða of skammt verður á millum þeirra. Eins má það og verða, að samdrátturinn í leginu sjálfu, er eptir eðli sínu á að vera mestur í legbotninum og ganga þaðan jafnt niður eptir, stundum er mestur í legbolnum eða um leghálsinn. Þá er svo stendur á hríðunum, tálma þær einungis fæðingunni, og eru þær því kallaðar *óreglulegar hríðir.* Aðgreina má þegar hinar rjettu hríðir frá hinum, því þær flýta fyrir fæðingunni, en hinar óreglulegu tálma henni.

63. grein.

Eins og áður er sagt, eru það einkum hríðirnar, er reka á eptir burðinum í fæðingunni, en þó ber þess að geta, að slíkt er og að nokkru leyti komið undir samdrætti í kviðarvöðvunum og þindinni, einkum þá er líður á fæðinguna, og verður það konunni með öllu ósjálfrátt, en annars vegar hefur hún þó vöðvasamdrætti þessa í valdi sjer. Eru samdrættir þessir eins konar *aðstoðarafl,* er lýsir sjer, þá er konan heldur í sjer andanum og svo sem með öllum líkamanum reynir til að flýta fæðingunni.

---

## Annar kapítuli.

*Um leið burðarins um grindarholið.*

64. grein.

Þá er maður nákvæmlega hefur tekið eptir mörgum fæðingum, má bráðum komast að því, að náttúran sjálf

hefur eins og myndað grindina eptir vissum reglum, bæði að lögun og allri bygging, og verður því nákvæmlega að gæta þessa, þá er manna hjálpar þarf við í fæðingunni. Í því skyni skal setja á sig það, er hjer segir:

1. *Einungis þá er burðurinn liggur á lengri veginn í leginu, má hann án tálmunar komast gegnum grindina,* og á sama stendur hvort heldur höfuðið eða sitjandinn veit niður að legopinu. Það er því með öllu auðsætt, að snúa verður burðinum við, þá er hann liggur annað hvort á þverveginn eða á ská, en til þess þarf kunnáttu og handlægni, sem síðar mun sagt verða, því annars kostar kemst burðurinn eigi gegnum grindina.

2. *Sjerhverjum parti burðarins er þannig komið fyrir á allri leiðinni um grindina, að þar er hann gildastur, hittir hann fyrir grindarholið, þar sem það er víðast.* Af þessu leiðir því að burðurinn verður að snúa sjer á leiðinni um grindarholið; efra op grindarholsins er sum sje víðast um ská- eða breiddarmálið, neðra opið aptur á móti víðast á þykktina (sbr. 5. grein).

3. *Leið burðarins um grindarholið fylgir allajafna miðlínu grindarinnar.* Fyrir þá sök má maður eigi ímynda sjer, að leið burðarins sje með öllu bein niður eptir grindarholinu, heldur verða krókar á henni, á þann hátt, að burðurinn fer beina leið einungis þá er hann fer um efra op grindarinnar, en beygir þegar nokkuð eitt fram á við í sjálfu holinu, og svo lítið eitt upp á við á leiðinni um hið neðra op grindarinnar.

4. Þá er svo stendur á, að burðurinn reyndar liggur á lengri veginn, en hryggurinn snýr þó aptur í grindarholinu, má fullyrða, að *burðurinn allur snýst við* á leiðinni um grindarholið, á þann hátt, að kviðarhliðin snýr að nokkru leyti aptur, en hryggurinn nokkuð fram

á við. Lega burðarins breytist með þessum hætti af sjálfu sjer, og með þessu móti verður lega hans eðlileg, þótt áður væri hún það ekki. En sje nú svo, að náttúran sjálf eigi beri umhyggju fyrir þessu, má það opt verða, að manna hjálp sje nauðsynleg, svo fæðingin megi vel takast.

---

## Þriðji kapituli

*skýrir frá, hvernig fæðingin í fyrstu lýsir sjer almennast og hvernig fæðingunni er skipt, eptir því sem á henni stendur.*

65. grein.

Enda þótt hver fæðing sje annari frábrugðin með mörgum hætti, þá eru þær þó á hinn bóginn allar að nokkru leyti áþekkar, á þann hátt, að breytingar nokkrar, er sýna sig úr því fæðingin byrjar og til þess hún er liðin, og sem koma hver á fætur annari, eru að mestu leyti að álíta sameiginlegar fyrir hverja fæðing, en af breytingum þessum má fyrst gjöra sjer ljósa hugmynd um alla fæðinguna, og ef greinilega er skýrt frá þeim, í þeirri röð, sem þær lýsa sjer í fæðingunni, þá er það eins og sagt hefði verið frá sjálfri fæðingunni, og henni lýst, eins og hún almennt lýsir sjer. Á þessum stað viljum vjer nú skýra frá breytingum þessum, og til þess það megi verða því skiljanlegar, viljum vjer ímynda oss, að höfuð burðarins snúi fram og niður í leginu, og en fremur viljum vjer gjöra svo ráð fyrir, að fæðingunni sjálfri sje skipt í tímabil nokkur, og veitir þá hægara að skýra frá breytingunum þá svo er með farið.

66. grein.

Áður en fæðingin byrjar er tímabil, sem nefna mætti *fyrirrennara* fæðingarinnar, en þetta tímabil er reyndar eigi talið með sjálfri fæðingunni, heldur greiðir það fyrir henni, þá er hennar tími er kominn. Tímabil þetta getur varað nokkrar stundir og stundum allt að 3 vikum, og finnur konan á þessum tíma til hríða, sem nefndar eru *fyrirvarahríðir* með þeim hætti, að hún verður vör við samdrætti um spjaldhrygginn og kviðinn, en þó er eigi mikill sársauki af þeim, en einkum koma þeir að á kvöldum, og minnka þeir svo eða hætta með öllu, þá er konan er komin í rúmið. Rannsaki yfirsetukonan konuna meðan stendur á fyrirvarahríðunum, má glöggt komast að raun um, að legbotninn verður allur harðari viðkomu, og rannsaki hún hana um leggöngin, má og glöggt finna að spenna er hlaupin í leghálsinn og legopið, en hún hverfur þó aptur eptir nokkurn tíma liðinn. Meðan fyrirvarahríðirnar standa yfir, er konan opt skelkuð og hrædd við fæðinguna, og finnst henni, sem hún opt þurfi að hægja sjer til baks og kviðar; leggöngin víkka út og eru þau heit viðkomu, og úr þeim kemur slím; leghálsinn sígur lengra niður í grindarholið; fæði konan í fyrsta sinn, er innra legopið enn sem komið er öldungis aptur, en á konum, sem optar hafa átt barn, er það svo opið að fara má með fingurinn um það allt upp að himnunum.

Þegar þessir fyrirvara-samdrættir í móðurleginu hafa staðið yfir skemri eða lengri tíma, byrjar sjálf fæðingin.

67. grein.

1. tímabil (*þá er fæðingin byrjar*).

Tímabil þetta er talið frá því, er legopið fyrst er

orðið opið og víkkað út, þangað til himnurnar rifna og legvatnið rennur út.

Hríðirnar verða úr þessu harðari og sárari, þær koma optar að og eptir vissri röð og reglu. (Eru þetta og eins konar *fyrirvarahríðir*). Meðan á hverri hríð stendur, þenst legopið meira og meira og víkkar út, og legvatnið þrýstir á eptir himnunum ofan í legopið, og líkjast þær þá uppblásinni blöðru; þá er hríðinni ljettir, linast himnurnar aptur, og finna má til höfuðsins á burðinum um þær. Slím það, er áður er skýrt frá, rennur um þessar mundir úr leggöngunum, og sezt á fingurinn, sem rannsakað er með, en það er að nokkru leyti blóðlitað. Eptir nokkurn tíma liðinn víkkar legopið með öllu út, svo himnurnar, sem eru útþandar, eins og uppblásin blaðra, komast þegar um það ofan í leggöngin. Hjer nema þær staðar, og eru þær eins útþandar, og áður voru þær, enda þótt konan hafi engar hríðir, en á hverri stundu má búast við að þær rifni *(það líður að því að himnurnar rifni)*. Að lokum rifna og himnurnar meðan ein hríðin stendur yfir, og ber stundum við að glöggt má heyra, þá er það verður, og allt það legvatn, er til er fyrir framan höfuðið á burðinum, rennur þegar út.

68. grein.

2. tímabil (*fæðingunni miðar*).

Tímabil þetta er talið frá þeirri stund, er himnurnar rifna, þangað til höfuð barnsins er komið ofan í hið neðra op grindarholsins.

Þá er himnurnar eru rifnaðar og legvatnið er runnið út, ber optast við, að hríðirnar rjena, eða þeim ljettir með öllu nokkra stund, en þær koma þó þegar að nýju

enn harðari, og stendur þá lengur á þeim, og styttra verður á milli þeirra, en áður. Konan tekur þá mjög að æja og hljóða, og þjáist hún svo meðan á hríðunum stendur, að hún hvorki þolir að standa nje sitja, en hún vill þó helzt liggja, og spyrnist hún þá í með fótum og höndum, svo kviðarvöðvarnir og þindin megi flýta fyrir fæðingunni að sínu leyti eins og hríðirnar sjálfar, þá er þær koma. Þá er hríðirnar eru orðnar svo harðar, segja menn að þær *reki á eptir fæðingunni*. Hríðar þessar reka höfuðið á burðinum niður í legopið, og svo þaðan lengra eða dýpra ofan í grindarholið, og þá svo er komið, má úr því finna til þess rjett fyrir innan blygðunarbarmana, og meðan á hríðunum stendur, má að nokkru leyti sjá það í bugðunni undir blöðrubeininu. En um leið og höfuð burðarins með þessum hætti kemst í gegnum hið litla grindarhol, kreystist það að nokkru leyti saman, en það verður með þeim hætti, að saumarnir og hausamótin ganga nokkuð eitt á misvíxl, og fyrir þá sök koma hrukkur á húðina, og ef eigi rýmkar til um höfuðið eptir skamma stund, kemur sveppur á það, sem menn hafa nefnt *fæðingarsveppinn*; myndast hann þegar tálmast fyrir blóðrásinni sökum mikillar þrýstingar á þeim parti burðarins, er snýr niður í grindarholinu; hverfur hann vanalega aptur að nokkrum stundum liðnum eptir fæðinguna. Stundum er fæðingarsveppurinn svo mikill, að torvelt er að finna saumana og hausamótin.

### 69. grein.

### 3. tímabil (*burðinum skýtur út*).

Hríðirnar verða nú miklu harðari og tilfinningin sárari og þjáningin meiri, þá er hinir ytri fæðingarpartar

konunnar taka til að þenjast út og víkka. Varla verður svípstund á milli hríðanna; konan skelfur og titrar öll af þjáningunni, og eins hleypur hiti og roði í andlit henni, og svita hellir út um allan líkamann; nokkurs konar æði lýsir sjer á augnaráði hennar, en augun bærast varla og óp hennar og stjórnleysi líkist því, sem væri hún hálfvita. Eru þess vegna hríðir þessar kallaðar *skjálfandi hríðir*.

Sjerhver hríð kemur því til leiðar, að höfuð burðarins færist jafnóðum niður eptir grindarholinu, og sjá má það glöggvara milli blygðunarbarmanna; með þessum hætti þenst holdbrúin út, og verður hún um leið nokkuð ávöl. Höfuð burðarins þrýstir og á endagörnina, og fyrir þá sök ber það opt við, að konan lætur saurnum, og má þá um leið sjá nokkurn part af endagörninni í þarfaganginum. Þá er hríðinni ljettir, hættir og öllum áhrifum hennar, er nú hefir verið sagt frá, og höfuð burðarins færist nokkuð aptur inn í leggöngin, en þá er hríðirnar hafa komið opt að, og höfuðið með þessum hætti er komið lengra fram á milli blygðunarbarmanna, nemur það að lokum staðar á þessum stað, og dregst eigi aptur inn í leggöngin, þá er verður á milli hríðanna. En úr því svo er komið, valda því hinar síðari hríðir, að sá partur höfuðsins, er aptur veit, allt í einu skreppur fyrir röndina á holdbrúnni, og um leið missir konan nokkurt blóð. Þess ber að geta, að sá partur af höfðinu, sem snýr fram að boganum undir blöðrubeininu, kemur reyndar fyrst í ljós milli blygðunarbarmanna, en hinum hluta höfuðsins, er aptur veit, skýtur fyr út, eins og áður er sagt.

Þá er allt höfuð burðarins er komið í ljós, ljettir allri þjáningunni um nokkra stund af konunni og hríð-

irnar hætta; en eptir nokkurn tíma liðinn koma þær aptur, en þó eigi jafn ákafar og áður voru þær, og þá skýtur herðunum út, og því nær um sama leiti hinum parti af líkama burðarins. Fylgir honum og blóð nokkurt, og það sem áður hefur orðið eptir af legvatninu. Með þessum hætti fæðist barnið, en fylgjan er enn eptir.

70. grein.

4. tímabil (*fylgjan kemur í ljós*).

Þá er barnið er fætt, verður nokkra stund hvíld á þjáningu konunnar, en þó koma hríðirnar að nýju að henni, og eru það ***hinar síðustu hríðir***, en þær eru venjulega eigi sárar í samanburði við hinar fyrri hríðirnar. Legið kiprar sig saman, og má finna til þess fyrir ofan blöðrubeinið; er það þrýstið viðkomu, og í lögun eins og hnöttur, svo sem barnshöfuð á stærð. Konan missir þá blóð nokkurt, og er það vottur þess, að þá losnar legkakan frá leginu, og sje konan þá rannsökuð um leggöngin, má finna til fylgjunnar, er hún smám saman um legopið færist ofan í leggöngin, og svo um þau út um hina ytri fæðingarparta. Fyrst ber þá að legkökuna, og snýr niður hinn innri flötur hennar, en henni fylgja himnurnar eða belgirnir snúnir, og blóð nokkurt, sumpart storkið, sumpart óstorkið. Þá er fylgjan er komin í ljós, er fæðingin liðin, og þá svo er komið, segja menn, að konan liggi á sæng.

71. grein.

Jafn torvelt er að ákveða með vissu, hve langvinnur er hver af köflum fæðingarinnar, er nú hefur verið skýrt frá, eins og að tilgreina, hve langvinn öll fæðingin er, því fæðingin er hver annari mest frábrugðin

í þessu tilliti, og það svo mjög að mismunurinn eigi er einungis nokkrar stundir, heldur dægur. Sje nú miðlað málum og farinn meðalvegurinn um að tiltaka, hve langvinn fæðingin er, mundu 6 til 12 stundir verða nærri sanni, sem öll fæðingin stendur yfir, þá er talið er frá því, er legopið er orðið með öllu út þanið. Samkvæmt þessu mundi þá mega segja, að 3 til 6 stundir mundu verða á milli þess, að legopið er orðið út þanið, og belgirnir rifna, 2 til 4 stundir frá því belgirnir rifna, þangað til höfuð burðarins er komið niður að neðra opi litla grindarholsins; eptir hálfa stund mun þá burðinum skjóta út, og eptir hálfa eða mest eina stund mun fylgjan koma í ljós. En reynslan mun þegar sýna, að slíkt tímatal er að miklu leyti óáreiðanlegt, en hitt má þó fullyrða, að allajafna stendur lengur á fæðingunni, þá er konan á barn í fyrsta sinn, en hafi hún áður alið barn, og hið sama er að segja um hvern kafla fæðingarinnar; en öðru máli er að gegna um fylgjuna, er venjulega kemur fyr í ljós, þá er konan liggur í fyrsta sinn á gólfi, en hafi hún áður átt barn.

## 72. grein.

Öllum fæðingum hefir verið *skipt í ýmsa flokka*, en það hefur þó að nokkru leyti mistekizt, sökum þess að skipti þessi hafa opt verið byggð á því, hver lok fæðingin hefur, en þau eru mjög svo frábrugðin, og hitt er víst, að allir geta skilið í þess konar skiptum, þó eigi sje á þessum stað farið fleirum orðum um þau. Í daglegu máli segja menn opt, að fæðingin sje hæg eða óhæg, fljót eða langvinn, eðlileg eða óeðlileg, þá er læknis aðstoðar þarf við, o. fl. þess háttar. Einna

bezt þykir eiga við að skipta fæðingunum í reglulegar og óreglulegar fæðingar.

Fæðingin er þess vegna með öllu regluleg, þá er hún fer fram með þeim hætti, og í þeirri röð, er reynslan hefur sýnt oss, að algengast verður, þá er hvorki konan nje burðurinn bíður nokkurt tjón.

En óregluleg er fæðingin, þá er út af því ber, er nú var sagt.

---

## Fjórði kapítuli

*skýrir frá, hvernig komizt verður eptir, hvort burðurinn er á lífi í fæðingunni.*

### 73. grein.

Það er að nokkru leyti áríðandi í mörgum tilfellum að komast eptir, hvort burðurinn er á lífi, eða ekki. Áður er skýrt frá, að eigi er allajafna hægt að komast með vissu eptir þessu, meðan á meðgöngutímanum stendur, og er og hið sama að segja um það, að eigi verður allajafna glögglega komizt eptir, hvort líf er með burðinum í fæðingunni. Reyndar eru til stöku merki, er berlega lýsa því, að burðurinn sje á lífi, en á hinn bóginn verður mjög sjaldan gengið úr skugga um, að hann sje dauður í fæðingunni. Þó má vera að farið verði nærri um þetta, er mörg merki þess sýna sig í senn.

Einka mikil líkindi eru til, *að burðurinn sje á lífi í fæðingunni*:

*Þá* ekkert hefur að borið um lok meðgöngutímans, er eptir öllum líkindum gæti haft dauðleg áhrif á burðinn (sbr. 43. grein);

*Þá er* ekkert hefur að borið meðan á fæðingunni stóð, sem grandað gæti burðinum;

*Þá er* sá partur burðarins, sem snýr fram á við og niður, er harður viðkomu og fastur í sjer, og þá er fæðingarsveppur kemur á hann í fæðingunni, er jafnóðum stækkar, ef fæðingunni seinkar nokkuð eða nokkuð tálmar henni, eptir að himnurnar eru rifnaðar.

*Með vissu má fyrst vita, að burðurinn sje á lífi:*

*Þá er* glöggt má heyra hjartsláttinn í burðinum, þegar eyrað er lagt við kvið konunnar, og glöggt má finna til hreifinga burðarins;

*Þá er* glöggt má finna, að blóðið streymir um slagæðina í naflastrengnum, þegar svo er, að finna má til hans með fingrinum.

74. grein.

Þá eru *líkindi til að burðurinn eigi sje á lífi í fæðingunni,* ef fyrst og fremst eigi verður vart við lífsmörkin, er nú var skýrt frá, og enn fremur :

*Þá er* ekki hefir fundizt til burðarhreifinganna um langan tíma;

*Þá er* legvatnið, enda þótt sitjandinn eigi snúi fram og niður, er meingað grænleitum saurindum mjög mislitt og illur daun er af því;

*Þá er* enginn fæðingarsveppur myndast á þeim parti líkama burðarins, er snýr fram og niður, einkum ef fæðingunni gengur seint, eða á hinn bóginn, ef þessi fæðingarsveppur var kominn á líkamann áður, en hjaðnar nú þegar niður aptur, í stað þess að stækka;

*Þá er* höfuðbeinin svo sem liggja öll venju fremur laus, og ganga mikið á misvíxl um saumana;

*Þá er* skinnið liggur því nær laust á þeim parti líkama burðarins, er fyrst ber að;

*Þá er* naflastrengurinn er kaldur viðkomu og ekki finnst til blóðrennslisins í honum, ef svo stendur á, að hann ber fyrst að, og eins ef hann er mislitur útlits, þá er hann kemur í ljós.

Af öllum dauða merkjum burðarins, er nú voru talin, er einungis hið síðast greinda að álíta með öllu órækt, en það lýsir sjer mjög svo sjaldan, því naflastrenginn ber eigi opt fyrst að. Hin dauða merkin eru öll, hvert um sig, meira eða minna óáreiðanleg, en lýsi þau sjer öll í senn, má með miklum líkindum álykta að burðurinn sje dauður. Yfirsetukonan gjörir því bezt í, sem optast að skjóta allri úrlausn á frest í þessu efni, þangað til barnið er fætt.

---

## Annar kafli

skýrir frá fæðingunni, þá er hún er með öllu regluleg.

---

### Fyrsti kapítuli

*skýrir frá, með hverjum hætti fæðingin má verða regluleg.*

75. grein.

Til þess fæðingin megi verða með öllu regluleg, heimtist eigi einungis, að hún komi að á tækum tíma, heldur er slíkt og að nokkru leyti komið undir konunni

sjálfri, burðinum og egginu. Viljum vjer nú skýra frá, með hverjnm hætti þetta má verða, og teljum vjer þá:

1. *Af konunnar hálfu verður fæðingin eðlileg*:

*Þá er fæðingaraflið hefur þau áhrif á fæðinguna, er það á að hafa, er allt fer skipulega*, og er slíkt komið undir því, að hríðirnar sjeu með öllu eðlilegar og ekkert tálmi því, er annars vegar flýtir fyrir fæðingunni;

*Þá er burðarvegurinn er eins og hann á að vera*, eða með öðrum orðum grindin er rjett mynduð, og ekkert tálmar fæðingunni í legopinu, leggöngunum, eða um hina ytri fæðingarparta;

*Þá er* engin veikindi ganga að konunni, er tálmað gætu fæðingunni.

2. *Burðurinn styður að því, að fæðingin megi verða eðlileg, með þeim hætti*:

*að burðurinn hafi eðlilega stærð* og sje *vel skapaður*, og *lega* hans i barnsleginu sje með öllu regluleg, eins og áður er sagt frá henni, með þeim hætti, að hann liggi eptir því endilöngu, með höfuðið niður og hvirfilinn fram í efra opi grindarholsins; auk þessa, að hnakkinn og hin þríhyrndu hausamót, á meðan á fæðingunni stendur, snúist fram á við undir boganum á blöðrubeininu, en ennið og hin ferhyrndu hausamót aptur á við fyrir ofan holdbrúna; frá þessu skal nú bráðum nákvæmara skýrt.

3. *En eggið styður að fæðingunni* að því leyti:

*að belgir* þess eða *himnurnar* hvorki sjeu of þunnir, svo þeir þess vegna rifni of fljótt, nje á hinn bóginn svo seigir og fastir í sjer, að þeir eigi megi rifna í tækan tíma;

*að legvatnið* hvorki sje of mikið nje of lítið;

*að legkakan* sje í skorðum sínum, og eigi venju fremur föst við legið;

*að naflastrengurinn* sje nærri sanni á lengd, því hvort heldur hann er of stuttur eða of langur, má opt verða, að hann tálmi fæðingunni.

Yfirsetukonan getur þegar fyrst í fæðingunni komizt eptir, hvort allt það, er nú hefur verið skýrt frá, er eins og það á að vera; og komist hún þá að raun um, að svo sje, hefur hún eigi alllitla ástæðu til að halda, að fæðingin muni vel takast.

---

## Annar kapituli.

*Um legu burðarins og leið hans um grindina, þá er fæðingin er regluleg.*

76. grein.

Vjer höfum þegar í 34. grein sjeð, hver lega burðarins í egginu er vanalegust, þegar langt er liðið á meðgöngutímann. Vanalegast snýr hvirfill burðarins niður, og má nefna það *hvirfilstöðu,* og svo hlýtur að vera, ef fæðingin á að heita regluleg.

Yfirsetukonan getur *búizt við*, að hvirflinum snúi niður, þegar hún við hina ytri rannsókn verður þess áskynja, að móðurlegið er reglulega eggmyndað, og að sá partur burðarins, sem í legbotninum liggur, er fyrirferðarmikill, og svo sem hornóttur (sitjandinn), og auk þess finnur þar til smá parta (fæturnir), og þá er hún glöggvast heyrir hjartslátt burðarins öðru hvoru

megin við naflann. Við hina innri rannsókn kemst yfirsetukonan að raun um, að hvirflinum snýr niður, með þeim hætti, að sá partur burðarins, sem að ber, er stór, hvefldur, sljettur og harður, en til þess að fá vissu sína um að það sje hvirfilstaða er mest undir komið, að yfirsetukonan geti fundið til sauma eða hausamóta á hvirflinum, og má þetta verða, þegar fæðingin er byrjuð og legopið er farið að stækka; hún hefur því enga vissu fyrir sjer í því, að það sje hvirfilstaða, nema því að eins að hún hafi fundið til sauma eða hausamóta. Stundum ber svo við, að hún geti fundið til sauma og hausamóta á hvirflinum, er að ber, enda þótt fæðingin eigi sje byrjuð, og má þetta verða um sjálf leggöngin.

## 77. grein.

Í 34. grein var þess einnig getið, að þá er hvirflinum sneri niður, snýr hryggur burðarins annað hvort til hægri eða vinstri hliðar. Verður því hin *reglulega hvirfilstaða* með tvennu móti, annað hvort snýr hnakkinn og hin þríhyrndu hausamót í byrjun fæðingarinnar fram að hinu vinstra nárabeini, eða hins vegar snýr hnakkinn og hin þríhyrndu hausamót fram að hægra nárabeininu. Það er auðsætt, að hin ferhyrndu hausamót snúa þá í þá áttina, er hið íbjúga vik grindarinnar liggur og á ská gagnvart nárabeini því, er hin þríhyrndu hausamót snúa fram að, og að örvasaumurinn liggur þannig á ská í grindarholinu á milli hausamótanna. Með því nú að hryggur burðarins vanalegast snýr til vinstri hliðar, og með því þannig hin þríhyrndu hausamót snúa fram að vinstra nárabeininu, nefnum vjer þessa hvirfilstöðu *hina fyrstu reglulegu hvirfilstöðu;*

snúi aptur á móti hryggur burðarins til hægri hliðar og hnakkinn og hin þríhyrndu hausamót þannig snúa fram að hægra nárabeininu, nefnum vjer þessa hvirfilstöðu *hina aðra reglulegu hvirfilstöðu,* en hún er óvanalegri en hin fyrsta.

9. mynd.



*Mynd þessi sýnir legu þá og stöðu burðarins í móðurleginu, sem er hin venjulegasta þegar vjer höfum hina fyrstu reglulegu hvirfilstöðu; utan við móðurlegið má sjá að ofan og til hliðanna: þarmana og partana af magálnum, sem skorinn er í sundur og flett út á við.*

*Nú má ímynda sjer að á myndinni sneri hnakkinn og hryggurinn til hinnar mótsettu hliðar, og er þá hægt að hugsa sjer, hver lega burðarins er hin venjulegasta, þegar vjer höfum hina aðra hvirfilstöðu.*

78. grein.

*Hin fyrsta reglulega hvirfilstaða.* Í byrjun fæðingarinnar snúa hin þríhyrndu hausamót að vinstri hlið grindarinnar jafnaðarlega *fram á við* að blöðrubeininu, en til hinna ferhyrndu hausamóta finnst hægra megin, og eru optast hvorutveggju hausamótin jafn langt upp í grindarholinu svo að ná má til þeirra með fingrinum.

En jafnóðum og fæðingunni miðar á fram, komast hin þríhyrndu hausamót smátt og smátt lengra niður í grindarholið en hin ferhyrndu hausamót, en þó svo, að öllu höfðinu miðar um leið niður eptir því, og þessu samfara snýst hvirfillinn nokkuð eitt við, á þann hátt, að hin þríhyrndu hausamót snúa meira og meira fram á við í grindarholinu, en hin ferhyrndu hausamót snúa þá að sínu leyti meira aptur. Höfuð burðarins snýst þannig við smátt og smátt, en því meira verður það, sem því miðar lengra niður eptir grindarholinu, og þá er hvirfillinn er kominn nær því ofan í neðra op grindarholsins, er höfðinu svo snúið við, að finna má til hinna þríhyrndu hausamóta næstum því rjett neðan undir boganum undir blöðrubeininu, en hin ferhyrndu hausamót liggja niður undan hungunni á spjaldinu, og örvasaumurinn liggur því nær í sömu stefnu og vídd grindarholsins á þyktina. Þessi lega höfuðsins á burðinum helzt, þá er það fer um neðra op grindarinnar og hina ytri fæðingarparta, með þeim hætti, að hnakkann ber fyrst að hjá boganum undir blöðrubeininu; reka þá hríðirnar á eptir og kemur þá smátt og smátt allur hvirfillinn í ljós millum blygðunarbarmanna, en þá svo er komið, spennist hnakkinn meðan á hríðunum stendur fram og upp á við í bogann undir blöðrubein-

inu, svo ennið og andlitið því hægara geti skroppið fyrir fremri röndina á holdbrúnni.

Þá er allt höfuðið er komið í ljós með þessum hætti, snýst það því nær samstundis við aptur, og verður þá lega þess nokkuð á ská, á þann hátt, að hnakkanum snýr upp og til vinstri hliðar, en andlitið snýr niður að hægra lærinu á konunni, og hinar síðari hríðir koma því til leiðar, að höfuðið því nær snýr um þvert, með þeim hætti, að hnakkinn snýr að vinstra lærinu á konunni, en andlitið að hægra lærinu. Herðar burðarins valda því, að höfuðið snýst þannig við þegar er það er komið í ljós, og ber það til þess, að herðarnar fara um grindarholið á þann hátt, að í efra opi þess liggja þær eptir víddinni á ská, en í sjálfu holinu og í neðra opinu breytist lega þeirra svo á leiðinni, að hún nokkurn veginn samsvarar víddinni á þykktina, svo að fyrst ber hægri öxlina að í bugðunni eða boganum undir blöðrubeininu, en þá skreppur vinstri öxlin fyrir fremri röndina á holdbrúnni. Þá er herðarnar eru komnar í ljós, fylgir hinn partur burðarins venjulega þegar á eptir, og geta má þess, að mjaðmirnar halda hinni sömu legu og stefnu, sem herðarnar, á leiðinni um grindarholið.

79. grein.

*Hin önnur reglulega hvirfilstaða.* Þá er svo stendur á, snúa hin ferhyrndu hausamót fram að hægra nárabeininu, en hin ferhyrndu hausamót aptur að hinu íbjúga viki grindarinnar vinstra megin og örvasaumurinn á ská á milli beggja hausamótanna. Þess var getið, að vanalegast í byrjun fæðingarinnar snúa hin þríhyrndu hausamót fram að vinstra nárabeini, þegar vjer

höfum fyrstu hvirfilstöðu; höfum vjer aptur á móti fyrir oss hina aðra hvirfilstöðu, mun yfirsetukonan vanalegast verða þess vör, að hin þríhyrndu hausamót snúa í byrjun fæðingarinnar aptur að hinu íbjúga viki grindarinnar hægra megin, og þannig fremur aptur á við í grindarholinu, og finnst þá til hinna þríhyrndu hausamóta framan við hið vinstra nárabein.

Að öðru leyti miðar fæðingunni á fram alveg á sama hátt og þegar vjer höfum fyrir oss fyrstu hvirfilstöðu.

Um leið og hnakkinn færist niður eptir grindarholinu, snýst höfuð burðarins með fram hægri hliðarvegg grindarinnar þannig, að hin þríhyrndu hausamót færast meira og meira fram á við, en hin ferhyrndu hausamót meira aptur á við í grindarholinu, og þá er höfuð burðarins er komið í neðra op grindarinnar, má finna til hinna þríhyrndu hausamóta hjer um bil neðan undir boganum undir blöðrubeininu, og örvasaumurinn liggur því nær í sömu stefnu og víddin á þykktina í neðra opi grindarinnar. Þessari legu, er nú er sagt, heldur höfuð burðarins þá er það fer um hið neðra op grindarinnar og hina ytri fæðingarparta. Þá er höfuðið er komið í ljós, snýst það við að sínu leyti eins og áður er sagt, með þeim hætti, að fyrst liggur það nokkuð eitt á ská, og hnakkinn snýr upp til hægri hliðar, en andlitið að hinu vinstra læri. Þá er svo stendur á, sem nú hefur sagt verið, er það sjálfsagt, að fyrst ber vinstri öxlina að í bugðuna undir blöðrubeininu, en hægri öxlin skreppur fyrir fremri röndina á holdbrúnni.

### 80. grein.

Af því, er nú hefur verið sagt, er með öllu auð-

sætt, að vanalegast ber hvirfilinn að í þá víddina á ská í grindarholinu, sem talin er úr hinu íbjúga viki grindarinnar hægra megin, og í nárabeinið vinstra megin, og er bil þetta því nefnt fyrsta skáviddin. En þess ber að gæta, að þegar vjer höfum fyrir oss hvirfilstöðu, má fæðingin verða jafn auðveld, hvort sem hnakkinn, frá byrjun fæðingarinnar, snýr að vinstra eða hægra nárabeininu, og hvort sem hann snýr meira fram á við eða aptur á við, þegar að eins hnakkinn snýst fram á við að boganum undir blöðrubeininu eptir því sem fæðingunni miðar áfram.

Að lokum skal þess og getið, að þá er sveppur hleypur í höfuð burðarins í fæðingunni, og lega þess er hin fyrsta hvirfilstaða, þá kemur hann á hið hægra hliðarbein, sje lega þess hin önnur hvirfilstaða, kemur hann á hið vinstra hliðarbein að aptanverðu og ofanverðu nálægt hornsaumnum og hinum þríhyrndu hausamótum.

## 81. grein.

Eigi yfirsetukonan að geta haft vissu fyrir, að hún hafi fyrir sjer annað hvort hina fyrstu eða hina aðra reglulegu hvirfilstöðu, er alveg nauðsynlegt, að hún finni hvernig hausamótin liggja í grindarholinu. Sje nú svo, að eigi sje unnt eða mjög örðugt að komast að þessu, má opt verða, að nokkurn veginn áreiðanlega vissu má fá um leguna, þegar kviðurinn er rannsakaður að utan. Sje það hin fyrsta reglulega hvirfilstaða, má optast finna að hryggur burðarins snýr til vinstri hliðar og til hjartsláttar burðarins má heyra vinstra megin við naflann. Sje það hin önnur reglulega hvirfilstaða finnst optast greinilegast til hryggjarins hægra

megin í kviðnum og hjartslátturinn heyrist bezt hægra megin við naflann.

---

## Þriðji kapítuli

*skýrir frá skyldum yfirsetukonunnar við hverja fæðing, sem hún er við stödd, og einkum þá er fæðingin er regluleg.*

Allt það, er yfirsetukonunni ber að leggja stund á við hverja fæðing sjer, er að mestu leyti komið undir: *rannsókninni, undirbúningnum,* og *aðstoð* og *hjálp* hennar meðan á fæðingunni stendur, og enn má telja alla umsjón um konuna og barnið eptir fæðinguna.

### 1. *Rannsóknin.*

82. grein.

Þá er yfirsetukonan er sótt til konu, er annað hvort þegar er lögzt á gólf, eða og bráðum líður að þeim tíma, er með öllu auðsætt, að fyrst og fremst hlýtur hún að komast með vissu eptir, hvort þetta sje svo í raun rjettri, og fæðingin sje þegar byrjuð, eða og hvort allt ásigkomulag konunnar og burðarins beri það með sjer, að fæðingin muni vel takast. En til þess að komast greinilega eptir þessu, skal yfirsetukonan rannsaka konuna, en áður en hún tekst rannsóknina á hendur, skal hún spyrja konuna um allt ásigkomulag hennar, og vita hvers hún verður vísari með þessum hætti. Fyrst spyr hún þá konuna um, hvort hún sje búin að fullganga með, eptir því sem henni teljist til, og eins um, hvernig henni hafi liðið um meðgöngutím-

ann, og hve nær eða hvar hún hafi fundið til hreifinga burðarins í kviðnum, hvort hún áður hafi komið hart eða hægt niður, hve lengi hún hafi haft hriðirnar, og hvort legvatnið sje runnið út, o. fl. þh.

Þá er yfirsetukonan er búin að kynna sjer allt þetta svo greinilega, sem verða má, tekur hún til að rannsaka konuna, og skal rannsóknin fyrst fara fram um *kvið konunnar að utanverðu*, og því næst *um leggöngin*. Þá er yfirsetukonan fer höndum um kvið konunnar að utanverðu, tekur hún eptir, hvort kviðurinn er allur jafnt út þaninn, og eins skal hún komast eptir, hvort finna má til nokkurra parta burðarins um hann, og sje svo, tekur hún eptir, hverjir þeir eru, og hvort samdrættirnir í móðurleginu eru eðlilegir meðan á hríðunum stendur. Þá er nú yfirsetukonan kannar um leggöngin, skal hún um leið komast nákvæmlega eptir, hve mjög legopið er út þanið, og eins taka vel eptir stærð þess og legu, og hvernig það er á sig komið, eins skal hún og taka eptir, hve mjög himnur eggsins eru orðnar út þandar, og hve mikið legvatnið er, og eins að sínu leyti taka eptir þeim parti burðarins, er liggur fram og niður, og eptir legu hans í grindarholinu; eins skal hún um leið taka eptir, hvort grindarholið er jafn rúmlegt og það á að sjer, og hvernig leggöngin og hinir ytri fæðingarpartar eru á sig komnir.

## 83. grein.

Þá er þessari hinni fyrstu rannsókn er lokið, er yfirsetukonan eigi einungis orðin þess vísari, hvort fæðingin sje byrjuð, og hve langt henni sje komið, heldur hefur hún og nú þegar í mörgum tilfellum fengið nokkurn veginn ljósa hugmynd um allt ásigkomulag fæð-

ingarinnar, og hvernig hún muni takast, þá er lengra líður á hana. Þó er eigi með þessu sagt, að yfirsetukonan geti orðið þess vísari, er hún þarf að komast eptir, þá er hún rannsakar konuna í fyrsta sinn, og því síður getur hún gjört ráð fyrir eða haft ljósa hugmynd um breytingar þær, er vera má að síðar lýsi sjer, þá er fæðingunni miðar lengra áfram. Sökum þessa hlýtur yfirsetukonan opt að hefja rannsóknina að nýju, einkum um leggöngin, meðan á fæðingunni stendur, eða með öðrum orðum, rannsóknin skal svo opt fram fara, að yfirsetukonan allajafna viti hve langt fæðingunni er komið, en þess ber þó að gæta að rannsaka konuna eigi optar, en brýn nauðsyn ber til þess, svo eigi verði um skör fram bætt á þjáning hennar. Rannsóknin skal ýmist fram fara meðan á hríðunum stendur, og þá er hlje verður á þeim. Þetta er svo að skilja, að hægast er að komast eptir, hve mjög legopið er orðið út þanið, meðan á hríðunum stendur, og eins lýsir sjer þá glöggvara, hve mjög himnurnar eða belgirnir eru orðnir út þandir, og eins öll áhrif hríðanna, er koma því til leiðar, að burðinum miðar niður eptir grindarholinu; en þá er hlje verður á hríðunum, má nákvæmara komast eptir öllu ásigkomulagi þeirra parta burðarins, er fyrst bera að, og eins eptir legu þeirra í grindarholinu, og ber það til þess, að þetta lýsir sjer glöggvara, þá er hríðunum ljettir, að um leið linast samdrættirnir í öllum fæðingarpörtunum.

### 2. *Undirbúningurinn.*

84. grein.

Þá er yfirsetukonan er orðin þess vísari við rannsóknina, að konan muni þegar fæða, eða með öðrum

orðum, að konan hafi tekið jóðsótt, skal hún því næst sjá svo um, að hún hafi allt við höndina, er líkindi eru til, að hún þurfi við að hafa meðan á fæðingunni stendur, og eins að henni liðinni, til að hjúkra með konunni og barninu, og skal hún raða því öllu niður á vissan stað, svo hún geti viðstöðulaust gengið að hverju fyrir sig, þá er þurfa þykir.

Verkfæri þau, er hjer segir, verður yfirsetukonan að eiga sjálf og hafa með sjer, þá hún er sótt til óljettrar konu, og skal hún, er þau snertir, ávallt gæta reglusemi og þrifnaðar; og teljum vjer þá:

*Tinspröitu* með tveimur smáum pípum; skal önnur þeirra vera styttri, og er það stólpípan, en hin lengri og bogin, og er það legpípan; er bezt að pípur þessar sjeu úr tini, því annars er hætt við, að þær skemmist með því opt þarf að þvo þær úr sóda eða pottösku.

*Pípu úr silfri* til að ná þvaginu úr þvagblöðrunni, ef þess er eigi kostur með öðrum hætti;

*bíld* með því er honum fylgir;

*tvö bönd* til að snúa burðinum við með, þá er þess gjörist þörf;

*skæri;* og skulu kinnar þeirra vera snubbóttar að framan, en með þeim skal skilja á milli burðarins og fylgjunnar;

*bönd nokkur* til að binda utan um naflann, og á sama stendur hvort þau eru gjörð úr mjórri reim úr ljerepti, eða úr ullar þráðum, sem eru marglagðir saman, en þau skulu vera hjer um bil fjórðungur úr alin á lengd.

Enn fremur skal yfirsetukonan hafa hjá sjer kanelsdropa, hoffmannsdropa og salmíak-spíritus á glösum, og skal hún jafnan gæta þess, að tappinn sje vel látinn

í þau, svo droparnir láti sig ekki, því eigi er hægt að nálgast þá í hvert skipti, þá er lyfjabúðirnar liggja langt burtu.

Hitt getur yfirsetukonan fengið á hverjum bæ, er hún við þarf, en hún skal einungis safna því að sjer, og raða því niður, og teljum vjer til þess:

*olíu, flot eða ósaltað smjör,* er hún þarf við, þá er hún rannsakar konuna;

*trog* til að lauga barnið í, og heitt og kalt vatn til laugarinnar;

*beiskt edik* og *fjöður,* og þarf hún að halda á þessu, þá er hún reynir til að lífga barnið við;

*hrein* og *volg nærföt* handa konunni og *barnsreifana.*

Að lokum viljum vjer minna yfirsetukonuna á að hafa tvær konur sjer til hjálpar, og fer bezt, að þær sjeu komnar á efra aldur, og vinkonur sængurkonunnar, en opt má verða, að yfirsetukonan þurfi aðstoðar við.

## 85. grein.

Í næstu grein að framan höfum vjer sagt, með hverjum hætti yfirsetukonan skal búa sig undir hverja fæðing, en það þykir og nauðsynlegt að skýra frá, hvernig *búa skal um rúmið*, svo hjálpinni í fæðingunni verði komið við sem hægast og bezt verða má, en konan skal leggjast í það, þá er líður á fæðinguna. Menn hafa búið til eins konar *rúm,* og var svo sjeð um, að hægt var að draga það sundur og saman, svo hægara væri að flytja það með sjer, en það er svo lagað, að konan getur spyrnt í bæði með fótum og höndum, og er sagað úr botni þess fyrir holdbrúnni; en þess ber að geta, að svo er sjeð um, að skjóta má loku fyrir

op þetta, og má þá liggja í rúmi þessu eins og í hverju öðru rúmi. Það verður eigi varið, að rúm þetta, er þannig er til búið, er reyndar jafn hentugast í alla staði, þá er konan kemur hart niður, og læknis hjálpar þarf við, en þó má á hinn bóginn fullyrða, að eigi ber nein brýn nauðsyn til að við hafa það, enda þótt svo standi á, sem nú var sagt, og þá er fæðingin gengur með öllu eðlilega, gerist þess engin þörf. Þetta er svo að skilja, að þá er náttúran sjálf hjálpar sjer, og fæðingin tekst vel, þá má fullyrða, að allajafna fer bezt, að konan fæði í sjálfs síns rúmi; verður slíkt og þægilegra fyrir konuna og nota betra, og eins er síður hætt við, að kuldi komi að henni. Þess ber að geta, að búa skal um rúmið með öðrum hætti, en venja er til, og sjá svo um, að hátt sje undir lendunum og sitjandanum; má það verða með þeim hætti, að brjóta saman rekkjuvoðir eða brekán úr ull, og leggja undir lendar konunni; eins má og hafa til þess poka, sem troðinn er út með heyji, en þó svo, að eigi sjeu bungur út úr honum, heldur skal hann vera nokkurn veginn flatur; en bezt fer að við hafa til þessa dýnu nokkra, sem einungis er höfð til þess; yfir hana skal breiða rekkjuvoðir með þeim hætti, að hægt sje að taka þær burt, þá er þurfa þykir, og láta nýjar í staðinn, og efst skal breiða yfir stóran vaxdúk eða skinn, til þess að blóðið, er konan missir, lendi eigi í rúminu sjálfu. Sje nú þannig með farið, og fæði konan í rúminu, má binda klút um rúmstólpann, svo hún megi halda í hann, og eins má að sínu leytí láta eitthvað hart viðkomu til fóta upp við rúmgaflinn, sem hún getur spyrnt í. Þá er konan er búin að eiga barnið, skal taka burt úr rúminu dýnuna

með öllum umbúðunum, og er þá rúmið jafn breint og áður, og skal konan liggja í því úr því.

Enda þótt konan komi hart niður, og hjálpar sje þörf, þá má engu síður láta konuna fæða barnið í rúminu, en þess ber þó að gæta, að það eigi sje of breitt eða of lágt. En þá svo stendur á, að hjálpar þarf við, skal búa um konuna með öðrum hætti í rúminu, og skal þannig með fara: búa skal um konuna um þvert rúmið, og hefur hún þá höfðalagið upp við vegg, en sitjandann fram á rúmstokknum, og hátt undir honum, en fæturna skal hún leggja á tvo stóla, er standa fyrir framan rúmið.

En til þessa þarf breitt rúm, og vera kann að eigi sje þess kostur að fá það eins breitt, og það þarf að vera, og skal þá við hafa til þess ferhyrnt borð, ef svo stendur á, að konan kemur hart niður, og búa um með hinum sama hætti, og áður er sagt.

Margir ókostir eru á því, að *búa um konuna á stólum*, eins og stundum er gjört nú á tímum, með þeim hætti, að fjórir stólar eru bundnir saman, en þess ber þó að geta, að fyr meir var það tíðara, en nú er það, en ráðandi væri til að hætta því með öllu, sökum þess, að þá er fæðingin er með öllu eðlileg, fer bezt að búið sje um konuna í rúmi, eins og áður er sagt, en hins vegar er stólarúm þetta eigi eins stöðugt og fast fyrir, og það skal vera, þá er fæðingin er óeðlileg, og eins er það of lágt, og þess vegna í alla staði óhentugt, þá er hjálpar þarf við í fæðingunni.

Allajafna þá er konan fæðir og eigi hefur verið búið um hana í rúmi, skal yfirsetukonan hugsa fyrir því að hafa uppbúið rúm, er konan leggst í, þá er hún er búin að fæða, og skal yfirsetukonan sjá svo um,

að rúmið sje eigi kalt, og eins láta það eigi standa of nærri glugga eða dyrum eða ofnum, ef til eru, og haga allajafna svo til, að ekki leggi mikla birtu í andlit konunni.

### 3. *Um hjálpina meðan á fæðingunni stendur.*

86. grein.

Þá er fæðingin er með öllu regluleg, og eigi sýna sig nokkur merki hins gagnstæða, skal yfirsetukonan allajafna bera fullkomið traust til þess, að náttúran muni sjálf hjálpa sjer bezt, og það, er hún skal gæta, er þá komið undir því einu, með allri varúð að tálma öllu því, er verða má barninu eða konunni að tjóni. Þetta er aðal ætlunarverk yfirsetukonunnar þá er fæðingin fer með öllu eðlilega, og skal hún í því skyni aðstoða konuna með ráði og dáð frá hinu fyrsta til hins síðasta, eins og nú þegar mun sagt verða; en ráð þau, er hjer segir, eru talin upp í þeirri röð, sem þau eiga við, eptir því sem lengra líður á fæðinguna.

1. Þegar í byrjun fæðingarinnar skal yfirsetukonan gæta þess að færa konuna í föt þau, er hvergi þrengja að líkamanum, en klæða hana úr þeim fötum, sem henni eru þröng, eða að minnsta kosti sjá svo um, að þau eigi þrengi að henni. Þá er svo er komið, skal konan sjálf varast að neyta matar eða drykkjar, sem er megn; en þess ber að geta, að sjaldan ber við, að konan hafi mjög mikla matarlyst, en sje svo, skal hún helzt neyta grjónasúpu eða hafrasúpu. Enn fremur skal yfirsetukonan gæta þess, að loptið sje heilnæmt í herberginu, sem konan liggur í, að hvorki sje of heitt nje of kalt í því, og að það sje reykjarlaust, og enginn megn daun sje í því. Hún skal og sjá svo um, að eigi sjeu fleiri viðstaddir, en nauðsynlegt er, svo konan hafi fullkomið

næði, og ef hún er hrædd eða óþol kemur að henni, er það skylda yfirsetukonunnar að hughreysta hana og telja svo um fyrir henni, að hún eigi kvíði um of fyrir fæðingunni; en þó skal yfirsetukonan varast alla orðmælgi um þetta, því vera má að konunni leiðist það, og sjer í lagi skal hún gæta þess að segja eigi konunni frá örðugri fæðing, og er fyr skýrt frá þessu.

87. grein.

2. Almennast er að yfirsetukonan setji konunni stólpípu, svo hún megi ganga úr skugga um, að eigi sjeu svo mikil saurindi eða vindur í görnunum, að slíkt megi tálma fæðingunni. Eins skal yfirsetukonan gæta þess að láta konuna hvað eptir annað hægja sjer til kviðarins; hún skal vandlega gæta þessa, og þegar fæðingin er langvinn, skal hún eigi treysta því, þótt konan segist hafa haft hægðir til kviðarins, því reynslan sýnir, að þvagblaðran eigi að síður má vera full af þvagi og ná upp fyrir nárabeinið, og má þá utan á kviðnum finna til hennar svo sem væri þar lin bólga; liggur þá þvagblaðran upp að fremri fleti móðurlegsins, og er hún miklu linari en móðurlegið. Sje þannig mikið þvag í þvagblöðrunni, getur slíkt tálmað mjög fæðingunni, ef þess er eigi gætt, og ef yfirsetukonan finnur greinilega til þvagblöðrunnar fyrir ofan blöðrubeinið, skal hún þegar tæma hana. En ef konan á bágt með það, þá má opt hjálpa því við einungis með því að láta konuna liggja á annan veg, eða með þeim hætti að láta hana sitja upp yfir gufu af heitu vatni eða af urtaseiði; stundum ber það við, að höfuð burðarins veldur því, að konan eigi má hægja sjer til kviðarins, en það má verða með þeim hætti, að höfuðið þrýstir að þvagblöðr-

unni eða blöðrupípunni á leiðinni niður eptir grindarholinu, en þá svo stendur á, má ráða bót á þessu á þann hátt, að fara skal með einn fingur inn í leggöngin, og þoka höfðinu lítið eitt frá blöðrubeininu. Ef ekkert af því hjálpar, er nú hefur verið sagt, þá skal tæma þvagblöðruna með þvagpípunni, og er áður skýrt frá henni.

Þegar yfirsetukonan þarf að við hafa silfurpípuna, skal konan leggjast á bakið og skal sjá svo um, að hátt sje undir sitjandanum, og skal hún halda lærunum nokkuð í sundur. Því næst skal yfirsetukonan með tveimur vinstri handar fingrum víkja blygðunarbörmunum til hliðar, og skal leita að blöðrupípuopinu rjett fyrir neðan og aptan sepann, og má þekkja það á barminum, sem liggur umhverfis það, eins og áður er getið. Skal því næst nema staðar með vinstri vísifingur hjá opinu, en taka silfurpípuna með hægri hendi og halda á henni eins og skrifpenna, og fara með hana niður með vinstri vísifingrinum inn í blöðrupípuopið; gengur hún úr því liðlega inn í blöðruna upp á við, og rennur þvagið svo út. Þess skal gætt, að velgja skal fyrst silfurpípuna, og bera á hana feiti. Þegar svo ber við, að einhver örðugleiki er á því að koma pípunni inn í blöðruna, tekst það stundum með því að víkja pípunni lítið eitt við; en þess ber yfirsetukonunni vandlega að gæta, að ávallt skal hún fara gætilega inn með pípuna og aldrei beita afli, því slíkt má olla miklu tjóni.

88. grein.

3. Í byrjun fæðingarinnar og nokkuð eitt fram eptir henni skal yfirsetukonan helzt láta konuna sjálfa ráða, hvernig hún vill liggja, og eins hvort hún heldur

vill liggja eða standa. Þannig stendur á sama, hvort hún liggur á bakið eða á aðrahvora hliðina, eða hún er á stjái eða situr, og má hún gjöra slíkt eins og henni bezt líkar, þangað til fæðingunni bagar svo, að hún hlýtur að leggjast í rúmið. Þá er fæðingin er með öllu eðlileg, skal yfirsetukonan láta konuna fyrst leggjast í rúmið þá komið er að því, að himnurnar rifni, því að öðrum kosti er hætt við, að legvatnið renni út í einu vetfangi þá er hún stendur, og má vera, að slíkt valdi nokkru tjóni, og teljum vjer til þess, að burðurinn detti um leið niður á gólfið, eða og naflastrengurinn og nokkrir partar, er heyra burðinum til. Þá er konan á barn í fyrsta sinn, og hún fyrir þá sök er ó-reynd í þessum efnum, mun bezt fara, að yfirsetukonan gjöri hana vara við, áður en himnurnar rifna og legvatnið rennur út, því annars er hætt við, að konan verði hrædd, ef það kemur að henni óvörum. Ef svo stendur á að fæðingunni seinkar eptir að himnurnar eru rifnaðar, má yfirsetukonan stundum láta konuna til skiptis sitja uppi eða vera á stjái í herberginu.

89. grein.

4. Þá er er legvatnið er runnið út, tekst yfirsetukonan á hendur að kanna konuna um leggöngin, og skal hún þá um leið komast eptir, hvort allt er eins og þá, er hún fyrst rannsakaði konuna, og má hún nú hægar rannsaka þann part burðarins, sem snýr niður, því þá er legvatnið er runnið út, má miklu glöggvara finna til hans, en áður. Að öðru leyti skal hún úr þessu einungis gæta þess að styðja konuna um hrygginn eða lendarnar með höndunum, meðan á hríðunum

stendur, og linar slíkt nokkuð eitt þjáning konunnar. Eins skal yfirsetukonan gæta þess að láta konuna eigi til ónýtis reyna á sig, og eyða fjörinu, þá er hlje verður á hríðunum, en síðar skal hún endurnýja rannsóknina, þá er verður á milli hríðanna, og með þeim hætti komast eptir, hvernig höfuð burðarins snýr, og eins hve langt því miðar niður eptir grindarholinu.

Þegar svo ber við, að býsna langur tími er liðinn frá því að legvatnið er runnið út og til þess að barnið fæðist, skal yfirsetukonan við og við hlusta eptir hjartslætti burðarins, því þá er svo fer, getur óregla komizt á blóðrásina milli móðurinnar og burðarins, og verður yfirsetukonan þessa áskynja, þegar hún heyrir, að hjartslátturinn er eigi eins tíður og áður, og eigi heyrist eins vel til hans. Þá er yfirsetukonan heyrir, að þessi breyting er orðin á hjartslættinum bæði á meðan stendur á hríðunum og eins þá engar hríðir eru, skal hún, ef kostur er á, láta sækja lækni, með því nauðsynlegt má verða að hjálpa verði konunni sem fyrst. Þess skal gætt, að þegar sá hluti burðarins, sem liggur fyrir, er kominn nokkuð niður í grindarholið, heyrist vanalega bezt til hjartsláttar burðarins fremur á miðjum kviðnum og nokkru neðar en í byrjun fæðingarinnar; er það auðskilið, að svo verður að vera, þegar þess er gætt, hvernig burðarlegan breytist eptir því sem fæðingunni miðar á fram; hryggur burðarins snýst sum sje smásaman fram á við og niður á við, og um hann heyrist bezt til hjartsláttarins.

90. grein.

5. Þá er höfuð burðarins er því nær komið niður að hinu neðra opi grindarholsins og að holdbrúnni,

skal yfirsetukonan gæta þess vandlega, að hinir ytri fæðingarpartar eigi skaddist um leið og höfðinu skýtur út, og á þetta sjer einkum stað hvað holdbrúna snertir. En þessu má koma til leiðar með þeim hætti, að láta konuna liggja haganlega og styðja utan á holdbrúna með hendinni, sem síðar mun sagt verða. Þá er nú fæðingin er komin svo langt, er og kominn tími til þess, að konan leggist í rúmið, hvort heldur búið er um hana í sjálfs hennar rúmi eða annar staðar. Bezt fer að hún leggist á bakið í rúmið, og svo skal sjá um, að holdbrúin standi fram af rúmstokknum, en lærunum skal hún halda svo í sundur, að yfirsetukonan megi án tálmunar komast að með hendurnar eins og henni þykir þurfa meðan á fæðingunni stendur. Enn fremur skal og vandlega gæta þess, að konan hafi trausta fótfestu og handfestu, en tveir aðstoðarmenn skulu standa sinn til hvorrar hliðar konunni, og halda um og styðja hnjen á henni.

Þá er búið er að koma konunni fyrir í rúminu eins og nú hefur sagt verið, og höfuð burðarins er komið niður að holdbrúnni og þenur hana út, skal yfirsetukonan gæta þess, að styðja utan á hana meðan á hríðunum stendur, en slíkt má verða með þeim hætti, að hún skal leggja höndina um þvera holdbrúna, og haga svo til, að skinnið milli þumalfingursins og vísifingursins liggi upp við fremri barminn á holdbrúnni, og skal hún með sögðum hætti þrýsta lítið eitt á holdbrúna í hvert skipti, sem hríðirnar og höfuð burðarins þenja hana út. Ef konan liggur í sjálfs síns rúmi skal yfirsetukonan sitja á rúmstokknum við hliðina á henni; en ef búið er um hana annar staðar, skal yfirsetukonan sitja á stól. Þá er yfirsetukonan með þessum hætti

styður utan á holdbrúna, finnur konan eigi til jafn mikils sársauka, þegar hríðirnar og höfuð burðarins þenja hana út, sem annars mundi verða, og á hinn bóginn er heldur eigi eins hætt við, að holdbrúin rifni, þá er höfðinu skýtur of snögglega út millum blygðunarbarmanna. Þá er verður á milli hríðanna, skal yfirsetukonan láta höndina liggja kyrra á holdbrúnni, en eigi styðja fast á hana, og skal þá um leið bera hálfvolga olíu eða annað þess konar á holdbrúna og blygðunarbarmana, og verða þeir þá því liðugri og þola betur teygjuna síðar, þá er hríðirnar koma að. Hættast er við, að holdbrúin rifni þegar enninu skýtur fram yfir fremri röndina á holdbrúnni, og skal því yfirsetukonan gæta þess vandlega, að styðja þá vel utan á holdbrúna. Með þessum hætti, er nú var sagt, skal yfirsetukonan styðja á holdbrúna, þangað til höfðinu og herðunum er skotið út, því holdbrúnni er nær því jafn mikil hætta búin af herðunnm og af höfðinu. Enn fremur skal yfirsetukonan, þá er fæðingunni er hjer komið, ráða konunni frá að beita miklu afli meðan á hríðunum stendur til þess að koma burðinum út, heldur skal hún láta þær einar ráða, en því hægara sem höfðinu skýtur út, þess minni hætta er holdbrúnni búin. Þess ber og að geta á þessum stað, að yfirsetukonan skal allajafna forðast að reyna til að þenja eða víkka út hina ytri fæðingarparta með fingrunum.

91. grein.

6. Þegar er höfðinu er skotið út, skal yfirsetukonan leita fyrir sjer með þeirri hendinni, er hún eigi heldur á holdbrúnni, til þess að komast eptir, hvort naflastrengurinn eigi er flæktur um hálsinn á barninu,

eins og sjá má af 9. mynd. Því það ber opt við, og það stundum með þeim hætti, að hann er margvafinn um hann. Venjulegast er, að flækjan liggi að mestu leyti laus um hálsinn, og þá svo stendur á, má þegar takast að smeygja flækjunni fram yfir höfuðið, með því móti að taka í endana á henni, en ef bolnum á burðinum skýtur út áður en flækjunni verður náð fram yfir höfuðið, skal smeygja henni aptur yfir herðarnar. En standi svo á, að þessu eigi verði komið við, sökum þess að flækjan liggur svo fast um hálsinn, skal þegar klippa naflastrenginn í sundur, og láta aðstoðarmanninn halda um báða endana, en yfirsetukonan skal með flýti ná burðinum út, og að því búnu binda þegar fyrir naflastrenginn.

92. grein.

7. Þá er höfuð burðarins er komið í ljós, þarf yfirsetukonan eigi að hugsa um annað, en að styðja á holdbrúna, og bíða svo þangað til herðunum skýtur út, þá er hríðirnar koma síðar að konunni, en yfirsetukonan skal varast að reyna að toga barnið út. En ef hríðirnar eru linar eða of langt verður á milli þeirra, en andlit barnsins tekur til að blána og þrútna út, skal yfirsetukonan strjúka kvið konunnar með hendinni, og eins ráða henni til að svo miklu leyti í hennar valdi stendur að flýta fæðingunni, þá er hríðirnar koma að henni. Takist eigi með þessum hætti að ná barninu, skal yfirsetukonan reyna til að komast með vísifingurinn inn í annan hvorn handarkrikann á barninu, og bezt fer að sá verði fyrir því, er niður snýr, og með þessum hætti skal hún reyna til að toga herðarnar út, en þó með mestu hlífð og varúð, og skal hún þá um

leið lypta þeim nokkuð eitt upp á við frá holdbrúnni. Þá er yfirsetukonan fer með fingurinn inn í bandarkrikann, skal hún gæta þess að láta hann fylgja hryggnum á barninu. En ef svo stendur á, að herðarnar eru svo langt upp í grindarbolinu, að eigi er hægt að ná í handarkrikann með fingrinum, skal yfirsetukonan taka báðum höndum um hliðarnar á höfðinu á barninu, og með þessu móti reynt til hægt og bægt að toga herðarnar svo langt niður eptir grindarholinu, að ná megi með vísifingrinum í handarkrikann, og síðar ná þeim fyrir fremri röndina á holdbrúnni með áður sögðum bætti. En þess ber að geta, að yfirsetukonunni verður aldrei tekinn of opt vari fyrir að toga fast í höfuðið á barninu, fyrir þá sök að hætt er við að mænan togni, ef eigi er svo með farið, og er þá barninu dauðinn vís.

Þegar er herðarnar eru skroppnar fyrir holdbrúna, fylgir optast allur kroppurinn viðstöðulaust á eptir, en yfirsetukonan tekur þá á móti barninu með þeim hætti, að hún heldur annari hendinni undir höfðinu á barninu, en hina hendina færir hún smátt og smátt eptir bakinu niður fyrir sitjandann, og þannig heldur hún barninu í legu þess á þverveginn, og lætur það liggja nokkuð eitt á bliðinni, og snýr þá andlit þess að hinum ytri fæðingarpörtum á konunni; en þess ber að gæta, að halda eigi barninu langt frá konunni. Þegar skal og sjá svo um, að barnið megi draga andann um nefið og munninn, og ef yfirsetukonan verður vör við, að barnið á bágt með að draga andann, og hún heyrir nokkurs konar hrigluhljóð í hálsi þess, skal hún þegar fara með litla fingurinn inn í munninn á barninu og hreinsa svo með honum hálsinn, en þó með mestu varúð.

93. grein.

8. Þegar er barnið er komið í ljós, *skal skilja á milli*, eða með öðrum orðum, binda fyrir naflastrenginn og klippa hann í sundur. Eigi skal halda fast í naflastrenginn, en binda skal fyrir hann með þeim hætti að vefja skal um hann naflastrengsbandinu, er áður er skýrt frá, hjer um bil þrjá þumlunga frá kvið barnsins, og hnýta svo á annari hliðinni einn hnút, en lykkjuhnút á hinni hliðinni. Því fastar skal binda um naflastrenginn, sem hann er fitumeiri, fyrir þá sök, að eigi verður bundið fyrir æðarnar með öðrum hætti; en sje naflastrengurinn magur eða mjór, skal yfisetukonan varast að binda fast um hann, svo hann eigi reyrist í sundur. Þá er búið er að binda fyrir naflastrenginn með þessum hætti, er nú var sagt, skal yfirsetukonan þegar skilja á milli eða klippa naflastrenginn í sundur hjer um bil einn þumlung fyrir framan naflastrengsbandið.

En þá er svo stendur á, að barnið eigi þegar eptir fæðinguna tekur til að hljóða, skal þegar skilja á milli, þá er andlit barnsins og allur líkami þess er svo sem bólgið og bláleitt útlits, og lítið lífsmark finnst með því, en þannig skal með fara: klippa skal naflastrenginn í sundur hjer um bil þverhönd frá kvið barnsins, og láta blóðið renna út, svo sem tvo góða matspæni, en að því búnu skal þegar binda fyrir naflastrenginn eins og áður er sagt.

94. grein.

9. Þegar er yfirsetukonan er búin að binda fyrir naflastrenginn og skilja á milli, skal hún fyrst og fremst fara höndum um kvið konunnar, og með þeim hætti

komast eptir, hvort legið er farið að kiprast saman aptur, og hvort lögun þess er orðin lík hnetti, og ef svo er, þá er það sjálfsagt, að konan hefur eigi gengið með tvíbura. Þá er yfirsetukonan hefur með vissu komizt eptir þessu, þarf hún eigi úr því að hafa allan hugann á konunni, ef henni annars vegar líður vel, og ef eigi sýna sig merki þess, að fylgjan muni þá og þegar koma í ljós, og getur hún fyrir þá sök veitt barninu meiri eptirtekt og hjúkrun, en áður, en þó ber þess að gæta, að taka allajafna vandlega eptir, hvernig konunni líður. En ef svo stendur á högum konunnar, að eigi má hafa augun af henni, þá fer bezt, að yfirsetukonan vefji þegar barnið innan í ljerept, en það skal vera volgt, og leggi það síðan í vögguna, þangað til henni gefst betra færi á að sjá um aðhjúkrun þess. Einungis þá er lítið eða ekkert lífsmark finnst með barninu eptir fæðinguna, skal yfirsetukonan samstundis veita því alla hjúkrun og aðstoð, er í hennar valdi stendur, en þess ber þó að gæta, að hún eigi gefi sig svo mjög við hjúkrun barnsins, að hún eigi um leið smám saman taki eptir, hvernig konunni líður.

95. grein.

10. En hvað konunni sjálfri viðvíkur, þá er nú *fylgjan* ein eptir, og þarf yfirsetukonan allajafna að hafa mestu gát á, hve nær hún muni koma í ljós. Áður er skýrt frá merkjum þeim, er lýsa því, að fylgjan muni þegar koma í ljós, en á þessum stað viljum vjer enn taka það upp aptur, því það verður varla of opt sagt, að hríðirnar einar valda því, að fylgjan færist niður í leggöngin, og fyrir þá sök er hver önnur hjálp til þessa svo að segja til ónýtis, og opt má verða, að

hún komi af illu einu. Yfirsetukonan skal því varast að reyna til að flýta fyrir því, að fylgjan komi í ljós, t. a. m. með því að toga í naflastrenginn eða hvetja konuna til að herða á eptir fylgjunni með óþarfa áreynslu meðan á hríðunum stendur, því vera má að af slíku verði konunni opt mikil hætta búin og stundum lífsháski. Að minnsta kosti skal yfirsetukonan varast þetta, meðan eigi verður fundið til legkökunnar langt niður í leggöngunum, og ef konan eigi kennir sjer nokkurs sjerlegs meins. Yfirsetukonan skal því að eins taka sjer það eitt fyrir að vefja magabeltinu um kvið konunnar og sjá svo um, að það liggi yfir legbotninum og þrýsti eins og jafnt og þjett á hann; að öðru leyti skal yfirsetukonan hvetja konuna til að halda kyrru fyrir að svo miklu leyti verða má. En þá er legkakan annað hvort að öllu eða mestur hluti hennar er komin niður í leggöngin, svo hægt er að ná til hennar innan undir hínum ytri fæðingarpörtum, en legið kíprast saman um leið fyrir ofan blöðrubeinið og líkist hnetti að lögun, má yfirsetukonan fyrst toga í naflastrenginn, og með þeim hætti flýta fyrir, að fylgjan komi í ljós.

Yfirsetukonan skal toga í naflastrenginn á þann hátt, að hún skal vefja honum um vísifingurinn á annari hendinni, og toga svo nokkuð eitt að sjer, en um leið fer hún með vísifingur og löngutöng hinnar handarinnar fram með naflastrengnum upp að legkökunni, svo langt sem verða má; en um leið þrýstir hún með þessum tveim fingrum hinum efsta hluta af naflastrengnum nokkuð eitt aptur á við í grindarholinu, en með hinni hendinni togar hún hægt og hægt í hann, og með þessum hætti verður því til leiðar komið, að

fylgjan öll hægara liðkast niður eptir leggöngunum og svo út um hina ytri fæðingarparta. Þá er legkakan kemur fram í millum blygðunarbarmanna, skal yfirsetukonan halda annari hendinni fyrir framan holdbrúna, og taka á móti legkökunni með henni; en með hinni hendinni tekur hún um legkökuna að ofanverðu og snýr henni svo við nokkrum sinnum, en þó hægt, millum handa sjer, en með þessum hætti snýr hún himnur þær saman, er liggja á bak við legkökuna, og rifna þær síður, þá svo er með farið. Þá er nú fylgjan öll er komin í ljós, skal leggja hana þegar í ílát nokkurt og skoða hana í krók og kring, og grenslast svo eptir, hvort eigi vanti nokkurn part hennar, er orðið hefur eptir inn í leginu.

Skal yfirsetukonan nú því næst gæta að, hvert legið kiprast eðlilega saman fyrir ofan blöðrubeinið, því kiprist það eigi eðlilega saman, má verða að blóð nokkurt safnist fyrir í legholinu og það jafnvel mörgum klukkustundum eptir fæðinguna; hún skal einnig vandlega þvo hina ytri fæðingarparta konunnar, og láta hreinar og þurrar og volgar rekkjuvoðir undir hana, en hylja hina ytri fæðingarparta með ljerepti, og eins skal hún binda ljereptsdúk eða handklæði um kvið konunnar, en eigi of fast.

Láta skal konuna liggja nokkra stund án þess að hreifa sig, en síðar eptir nokkurn tíma liðiun, þá er hún er farin að hressast, skal bera hana í rúm hennar; en ef svo er, að hún hefur átt barnið í rúminu, þá skal einungis lypta henni nokkuð eitt upp, og taka burt umbúðirnar undan henni, en laga rúmið um leið.

Yfirsetukonan skal einungis gæta þess, er nú hefur verið skýrt frá um stund, þá er fylgjan kemur í

ljós á eðlilegan hátt. En á þessum stað viljum vjer og geta þess, að opt má verða að miður takist til, og opt er konunni hætta búin á þessum kafla af fæðingunni, og eru það einkum blóðlát, sem eigi sjaldan koma að um þennan kafla fæðingarinnar, og verður opt nauðsynlegt að vitja læknis; en síðar viljum vjer skýra gjör frá, hvernig með skal fara, þá er svo ber undir.

96. grein.

11. Hin *fyrsta aðhjúkrun að barninu eptir fæðinguna* er að mestu leyti í því fólgin, að þvo það vel upp og færa það í reifana. Hörundið á öllum líkamanum er eigi einungis að mestu leyti alblóðugt, heldur er það og alþakið af kvoðukenndu slími, en mest finnst af því, þar er hrukkur hafa komið á hörundið; blóðið á líkama barnsins er komið úr fæðingarpörtum konunnar. Hreinsa skal líkamann á barninu annað hvort með því að lauga það, eða hins vegar þvo það upp, en þess ber vandlega að gæta, að láta eigi kulda koma að barninu. Til laugarinnar skal hafa volgt vatn með hvítsápu í; en í andlitið skal bera olíu í staðinn fyrir sápu, til þess að hlífa augunum, og skal núa henni um allt andlitið, en hún leysir í sundur slímið, og síðar skal þvo hana burt með eintómu volgu vatni. Þess ber og að geta, að olían leysir betur í sundur slímið en sápan, og er fyrir þá sök bezt að bera hana fyrst í hörundshrukkurnar á líkamanum, því þar er hörundið mest grómtekið, en síðar skal þvo það með sápuvatninu. Þegar er búið er að lauga barnið, skal vandlega þurka allan líkamann með volgu ljerepti, en um leið skal yfirsetukonan skoða barnið í krók og kring, og með þeim hætti komast eptir, hvort barnið sje rjett skapað, eða með

öllu lýtalaust og óskaddað, og eins skal hún taka eptir, hvort öll op á líkamanum eru á sínum stað. Þá hún nú verður vör við missmíði nokkur á líkamanum, skal hún varast að láta konuna þegar komast að því, en í þess stað skal hún gjöra lækninum njósn um það, eða að minnsta kosti segja skyldmönnum konunnar frá því.

Þá er yfirsetukonan er búin að lauga barnið og hún einu sinni hefur gætt að, hvort eigi hefur losnað um naflastrengsbandið, skal hún, þá svo er komið, bera umhyggju fyrir þeim parti naflastrengsins, sem hangir úti. Í því skyni skal hún með varúð vefja utan um hann litilli og smágerðri ljerepts pjötlu, er hún áður hefur vætt í olíu; síðan skal hún leggja naflastrenginn hægt upp að kviðnum og hylja með þurrum og samanvöfðum ljereptsklút, en yzt skal binda naflabandið um kvið barnsins, og heldur það naflastrengnum í skorðum; naflabandið sjálft skal vera 3 fingra breitt, og eigi skal það herða að kviðnum. Að svo búnu skal færa barnið í reifana, og vefja ullardúk um fæturna og lærin, en þess ber allajafna vandlega að gæta, að reifarnir þrengi hvergi að líkamanum og eigi sjeu við hafðir títuprjónar. Þá er búið er að reifa barnið með þessum hætti, fer bezt að leggja það þegar í rúmið hjá móðurinni.

## 97. grein.

Vera má, að barnið fæðist með litlu eða engu lífsmarki, enda þótt fæðingin sje með öllu regluleg og þykir það þess vegna eiga vel við á þessum stað að lokum að skýra nokkuð frá:

hvernig fara skal með barnið, þá er lítið eða ekkert lífsmark finnst með því.

Þá segja menn, að svo líti út, sem barnið sje dautt, þá er lítið eða ekkert lífsmark finnst með því, en þó leynist líf með því. Fyrr má eigi vita með vissu, að barnið sje dautt, en rotnun er komin í líkamann, en þá er sjálfsagt, að eigi er líf með barninu, og fyrir þá sök er það allajafna skylda yfirsetukonunnar að hugsa svo sem líf leynist með hverju nýfæddu barni, þó eigi finnist glöggt lífsmark með því; en ef rotnun er komin í líkamann, þá er öll von úti.

Rotnunar merki á barni, sem deyr, annað hvort á meðan á fæðingunni stendur eða um meðgöngutímann, eru ýmisleg, og fer það eptir, hversu mikil rotnun er komin í líkamann. Hafi barnið dáið fyrir æði löngum tíma síðan, þá er höfuðið meirt viðkomu og samanskroppið og liggja beinin laus í því, það er mislitað í andliti og hjer og hvar liggur hið mislita skinn svo að kalla laust á líkamanum; kviðurinn er vanalega þrútinn, þar blóðkennt vatn hefir safnazt í hann; en þó ber sjaldan mikið á rotnunarlykt. Hið fyrsta rotnunar merki er vanalega það, að skinnið fer að losna, opt er þetta hið einasta merki rotnunar, þá er barnið hefur dáið skömmu fyrir fæðinguna. Þá er þessi merki sýna sig, má ganga úr skugga um, að barnið sje dautt og skal yfirsetukonan þegar klippa naflastrenginn í sundur og færa það út úr herberginu, sem konan liggur í, og varast að hryggja hana með því að láta hana sjá barnið.

En þá er reyndar eigi finnst lífsmark með hinu nýfædda barni, en útlit þess er þó eigi dauðlegt, skal fara með það, sem eigi væri það dautt, í von um, að takast muni að lífga það við. Reyndar ber opt við, að

vonin bregzt, en engu er þó til spillt, en þar á móti mundi samvizkan bíta oss, ef svo bæri við, að barn það dæji, er líf leyndist með, sökum þess, að eigi hefði verið farið rjett með það.

98. grein.

Margt er það, er veldur því, að opt lítur svo út, sem barnið muni dautt vera, og teljum vjer einkum til þess: að fæðingunni miðar seint eptir að legvatnið er runnið út, að opt kreppir lengi að höfðinu og naflastrengnum, að legkakan losnar of snemma; hið sama er og að segja um sjúkdóma og veikindi konunnar fyrir fæðinguna og eins meðan á henni stendur; vera má og að þessu valdi fyrri veikindi í barninu og eins það, ef barnið eigi hefur náð tálmunarlaust að draga andann þegar eptir fæðinguna, og getur þetta að borið, enda þótt fæðingin sje með öllu eðlileg.

99. grein.

Hvað því viðvíkur, hvernig *fara skal með barn það*, er lítið eða ekkert lífsmark finnst með, þá er sjálfsagt, að slíkt er að mestu leyti komið undir því, að reyna til með öllu móti, sem verða má, að lífga það við. Vjer höfum þegar sjeð, að þegar barn fæðist, sem lítið eða ekkert lífsmark er með, þá skal yfirsetukonan sjerstaklega hafa gætur á því, hvernig skilja skal á milli. Sje barnið þegar eptir fæðinguna þrútið í andliti, rautt eða blátt útlits og varirnar eru bláar og þrútnar, mjög úteygt og hörundið á öllum líkamanum er mjög rauðleitt, þá má verða gagn að því, þegar eptir fæðinguna að

klippa naflastrenginn í sundur, og láta 1 eða 2 matspæni af blóði renna út, áður en bundið er fyrir hann.

Þá er yfirsetukonan er búin að skilja á milli, og búin að ná slími úr munni og koki barnsins, skal hún þegar reyna til að lífga við bið dauða barn, er svo sýnist. Fyrst og fremst viljum vjer af þess konar lífgunarmeðölum telja: *volga laug*, og skal láta barnið þegar í hana, og liggja í henni meðan tilraunir eru gjörðar til að lífga það. Laugina skal til búa í djúpu trogi og skal vatnið í henni vera svo heitt, að mátulegt þyki, þá er maður rekur hendina ofan í það, og skal sjá svo um, að þessi hiti laugarinnar haldist með því að hella í hana volgu vatni jafnóðum og hún kólnar.

Í lauginni skal nú núa með berri hendinni eða með mjúkri vaðmáls pjötlu brjóstið á barninu og alla útlimina, en strjúka nokkru harðar iljarnar; enn fremur skal ná slíminu úr hálsinum, og má slíkt verða annað hvort með vísifingrinum eða með óklipptri fjöður og skal hægt og hægt liðka hana niður í hálsinn og snúa henni svo nokkrum sinnum við; upp að vitunum skal halda meðölum með megnum þef, svo sem salmíakspíritus eða skornum lauk; smám saman skal ýra í andlit barninu köldu vatni, og eins skal láta kalt vatn í dropatali detta niður á hjartagróf þess úr bolla, er haldið er uppi yfir barninu. Hvað eptir annað skal taka barnið upp úr lauginni og hampa því mjög stutta stund í köldu lopti; má og vera, að stundum lífgi það eitt barnið við, að hrista það nokkrum sinnum og láta höfuðið snúa niður, svo slímið megi betur renna út úr barkanum, og einnig að skella með lófanum á sitjandann um leið og því er hampað. Sje kviður barnsins mjög útþaninn, mun bezt fara að setja

því stólpípu og hafa vatn eitt í henni, eða lítið eitt salti blandað. Geti barnið rennt niður, má opt verða gagn að því, að gefa því með gætni ofurlítið af volgu sikurvatni og láta 1 eða 2 Hoffmannsdropa í það.

Takist eigi að lífga barnið við með þessu móti, má reyna aðferð, sem stundum getur lífgað barnið við, þótt svo að kalla ekkert lífsmark sje með því, og skal þannig fara að: Yfirsetukonan tekur barnið upp úr lauginni og með þremur hægri handar fingrum tekur hún utan um öklana á barninu þannig, að löngutöng liggi á milli þeirra en vísifingur og hringfingur liggi að utanverðu við öklana; skal hún því næst láta barnið hanga nokkrar mínútur og láta höfuðið snúa niður, svo að slímið úr kokinu og barkanum megi renna út, og væri því gott að vingsa því með hægð fram og aptur. Þessu næst skal hún leggja vinstri hendina flata ofarlega á hrygginn og á hálsinn og hafa endaskipti á barninu þannig, að hún með þeirri hendinni, sem hún hefur á bakinu á barninu, snúi höfðinu upp á við og um leið láti þá hendina, sem hún heldur í fæturna með, síga niður á við. Þannig heldur hún nú barninu nokkra stund, lætur svo höfuðið snúa til skiptis niður á við aptur og síðan upp á við. Þegar yfirsetukonan er búin að vera að þessu í 10—15 mínútur, veitist henni stundum sú gleðin, að barnið fer að draga andann; en til þess að þetta vel fari, skal við hafa stillingu og þol.

### 100. grein.

Þannig er venjulegt til skiptis að reyna til að lífga barnið við, og er því haldið áfram þangað til ljós lífsmörk lýsa sjer með því, eða og hins vegar, þangað til útsjeð er um, að það muni eigi lifna við.

Lífsmörk þau, þó lítil sjeu, sem geta gefið yfirsetukonunni góða von meðan á tilraununum stendur, um að takast muni að lífga barnið við, eru þessi: hörundið á líkamanum verður allt rauðleitara, en þó fyrst þar, er hann var nuddaður; máttleysið í útlimunum verður minna og allir partar líkamans styrkjast; smáteygjur sýna sig í andlitinu og útlimunum; eins er sem barnið dragi andann (geispi) og smám saman ber meira og meira á því; barnið reynir til að hljóða, og að síðustu æpir það hástöfum, og er þá fullkomin vissa fyrir, að fullt líf sje með því.

Þá er þannig hefur tekizt að lífga barnið við, skal þegar taka það úr lauginni og hylja með heitum klæðum og leggja það í rúm og láta það taka hvíld, en síðar þvo það og klæða með venjulegum hætti.

En ef svo stendur á, að engin tilraun tekst, enda þótt þeim hafi verið haldið áfram um langan tíma, og eigi verður vart við hið minnsta lífsmark með barninu, eða og hins vegar þau minnka og hverfa að síðustu öldungis, í stað þess að aukast, ef í fyrstunni hefur orðið vart við þau, þá hverfur öll von vor smátt og smátt, og að síðustu verðum vjer úrkula vonar. Þá er svo er komið, skal þegar hætta tilraununum um að lífga barnið við og taka það þegar upp úr lauginni, þurka vel allan líkamann og leggja það óklætt undir heitar ábreiður.

Eigi verður með vissu ákveðið, hve lengi skuli halda tilraununum fram um að lífga barnið við, þangað til þeim er hætt með öllu, þá er svo stendur á, sem nú var sagt, en það eitt viljum vjer brýna fyrir yfirsetukonunni, að hún haldi áfram tilraununum um að lífga barnið við, þá er vart verður við lífsmark með því, hve lítið sem

það er, enda þótt hún þurfi að verja til þess 2 stundum eða þar yfir, og einkum er það skylda yfirsetukonunnar að hætta eigi tilraununum meðan hún finnur til hjartsláttar barnsins, því þá er þó von um, að barnið lifni við; vanalega er hægt að finna til hjartsláttarins með því linlega að taka með 2 fingrum um þann hluta naflastrengsins, sem festir sig við kviðinn.

---

Fjórði þáttur

## ~~þriðji kafli~~

### um óreglulega fæðing og hjálpina þá svo stendur á.

101. grein.

Þá er vjer nú tökum til að skýra frá hinni óreglulegu fæðingu, er það með öllu nauðsynlegt, að setja á sig, að eigi er með því sagt, að konunni og barninu sje hætta búin, þótt fæðingin sje óregluleg Hin óreglulega fæðing er meira eða minna frábrugðin hinni reglulegu, en þótt svo sje, má eigi hugsa sjer, að fæðingin hljóti því að vera örðug eða hættuleg, því hún *getur* verið auðveld. Það er að vísu satt, að þegar fæðingin er óregluleg, er *hættara við* að konunni og barninu sje hætta búin, og því sje meiri nauðsyn á að læknir sje við hendina, en þá allt fer reglulega. Reynslan mun kenna yfirsetukonunni, hve nær leita skal læknis þá svo á stendur, og skal hún með athygli lesa það, sem síðar segir.

Eptir því sem á stendur, er annað hvort konunni eða burðinum eða hinum öðrum pörtum eggsins um

að kenna, að fæðingin verður óregluleg, eða og hins vegar því um að kenna, að fæðingin kemur í ótíma. Samkvæmt þessu skulum vjer nú skýra frá hinni óreglulegu fæðingu.

---

## FYRSTI ~~ÞÁTTUR~~ kafli.

Hin óreglulega fæðing, þá er konunni er um að kenna.

102. grein.

Með mörgum hætti er konunni um að kenna, að fæðingin verður óregluleg, og getur slíku valdið: móðurlegið, hinn mjúki fæðingarvegur, grindin, hinir kringumliggjandi partar í grindarholinu, eða einhver sjúkleiki, sem eigi er í fæðingarpörtunum.

---

### Fyrsti kapituli

*skýrir frá, hvernig það má verða, að móðurlegið valdi óreglulegri fæðingu.*

Móðurlegið veldur óreglulegri fæðingu að mestu leyti með þeim hætti, að *hríðirnar eða samdrættirnir í því eru of linir eða of ákafir, eða staða og lega legsins eigi er hin rjetta.*

103. grein.

*Hríðirnar* geta þannig verið allt of linar og magnlitlar eða allt of ákafar eða óreglulegar og eins og krampakenndar.

I. Hinar linu og magnlitlu hríðir.

Þá er hríðirnar eru of linar í fæðingunni, lýsir það sjer eigi einungis með þeim hætti, að hinar einstöku

hríðir vantar afl það, er þær þurfa að hafa, heldur og á því, að þær standa of stutta stund yfir, og koma sjaldnar að, en venja er til; stundum má og vera, að mikil brögð verði að slíku, og hríðirnar hætti með öllu. Það er því auðsætt, að hríðirnar sýna sig með mjög svo margbreyttum hætti, en undir slíku er fæðingin hins vegar að miklu leyti komin.

Eigi er síður áríðandi að taka vandlega eptir, hve lengi stendur á því, að hríðunum hættir í fæðingunni, því slíkt má verða með mörgum hætti, stundum varir það lengur, en stundum skemur. Mjög sjaldan ber við, að hríðirnar sýni sig að eins eða öldungis ekki meðan á fæðingunni stendur. Optar hættir hríðunum einungis á einum kafla fæðingarinnar, og má þess vegna sjá þess mörg dæmi, að fæðing sú, er í fyrstunni var mjög svo langvinn, er bráðum á enda, sökum þess að hríðirnar aukast þá er á hana líður, en hins vegar eru og þess dæmi, að hríðirnar eru ákafar fyrst í fæðingunni, en síðar rjena þær eða hætta með öllu, og fyrir þá sök gengur hinum síðara hluta fæðingarinnar miklu örðugar, en hinum fyrri hluta. En standi svo á, að barnið er komið í ljós fyr en venja er til, sökum þess, að hríðirnar hafa verið of harðar og of ákafar, þá er mjög svo hætt við, að magnleysi hlaupi í legið, og má þá opt vera, að konunni sje hætta búin þá er líður að því að fylgjan kemur í ljós.

Einna mest er áríðandi að komast eptir, hvað því valdi, að mest eða allt magn dregur úr hríðunum, fyrir þá sök, að undir orsökunum til þess er komið, hvernig ráða skal bót á því.

Fyrst hlýtur maður að gjöra sjer það með öllu ljóst, að magnið dragi úr hríðunum með mörgum hætti,

eptir því sem orsakirnar til þess eru hver annari frábrugðnar, en að því búnu má öllum verða það auðsætt, að eigi muni verða ráðin bót á þessu með hinum sömu ráðum í öllum tilfellunum, heldur verði slíkt að fara eptir því, hvernig á stendur, og hverjar orsakirnar eru til þess, að hríðirnar eru magnlitlar. Nú viljum vjer skýra frá, hvernig það má verða, að magnið dregur úr hríðunum, og má til þess telja:

1) Magnleysi í barnsleginu, 2) blóðmegni legsins, sem orsakað getur að bólga hlaupi í það, 3) veikindi í trefjavefjum legsins.

104. grein.

1. *Magnleysi í barnsleginu.* Þá er konan um meðgöngutímann hefur verið mjög þjáð af langvinnum sjúkdómi, er dregið hefur mest allt magn og fjör úr henni, ber það opt við, að slíkt hefur þau áhrif á fæðinguna, að magnleysi sýnir sig í leginu, og fyrir þá sök verða samdrættirnir í því og hríðirnar mjög svo magnlitlar, og stundum verður magnleysi þetta í leginu svo mikið, að hríðirnar koma alls ekki í ljós. Eins er þá, er konan hefur átt mjög bágt og liðið skort um meðgöngutímann, eða og áhyggja og sorg hefur lagzt þungt á hana. En hins vegar höfum vjer reynsluna fyrir oss um það, að vera má að hríðirnar sjeu eins magnmiklar, og ákafar og þær eiga að vera, enda þótt konan hafi verið mjög svo veik um allan meðgöngutímann, og er fyrir þá sök eigi hægt að ráða af einu ásigkomulagi konunnar um meðgöngutímann, hvort hríðirnar muni verða eðlilegar í fæðingunni.

Optar ber það við, að máttleysi hleypur í legið því nær af sjálfu sjer, en eigi sökum þess, að allur

líkami konunnar sje máttfarinn, og vera má að hún sje stundum, þá svo fer, með öllu heilbrigð og hraust. Þá er svo stendur á, ber það til þessa, að annað hvort hefur konan fæðzt með veikindum í trefjunum í leginu, og ber stundum við, að slíkt leggst í ættir, eða og hins vegar valda því ýms atvik, að magnleysi hleypur í legið eitt, og teljum vjer til þess: að konan margsinnis hvað eptir annað verður óljett; að hún kemur optar hvað eptir annað hart niður eða lætur burðinum; að blóð og slím rennur til langframa úr leginu; að legið þenst venju fremur út um meðgöngutímann, þá er konan gengur með tvíbura, eða og að legvatnið er of mikið; og að lokum má og telja til þessa, að of harðir samdrættir koma í legið á hinum fyrstu köflum af fæðingunni, og er áður skýrt frá því.

Máttleysi þetta í leginu sýnir sig með mörgum hætti meðan á fæðingunni stendur, og viljum vjer nú skýra nokkru nákvæmar frá þessu. Þannig sýnir það sig á þann hátt, að hríðirnar eru magnlitlar, standa stutta stund yfir og koma sjaldan að, eða og þeim hættir með öllu; finna má til legbotnsins með því að fara höndum um kvið konunnar, og er hann mjög svo linur viðkomu, og þá er hríðirnar eru magnlitlar, verður hann einungis um stundar sakir nokkru harðari, en linast þegar aptur; legopið er eigi mjög viðkvæmt; það er eigi kiprað fast saman, og hægt er að fara með fingurinn um það, og eins þenst það lítið eitt út meðan á hríðunum stendur; burðinum miðar mjög svo lítið niður eptir grindarholinu meðan á hríðunum stendur, og er hægt að ýta þeim parti burðarins, er snýr niður, til og frá og fara í kring um hann, og eigi myndast neinn sveppur á þessum parti burðarins, sem venja er til, þá er fæðingunni gengur

seint og hríðirnar annars vegar eru með öllu eðlilegar. Enn má því við bæta, að konan þjáist eigi mjög mikið, þá er svona stendur á fæðingunni; þjáningin er lítil og allt útlit hennar er að mestu leyti eðlilegt, og eigi hleypur roði eða hiti í andlit henni, og lífæðin er hæg og jöfn. Þó má svo fara, að um síðir dragi máttinn af konunni ef þetta stendur lengi yfir, og fæðingin sökum þessa verður mjög langvinn.

105. grein.

2. *Blóðmegni og bólga í leginu* valda því eigi allsjaldan, að hríðirnar eru of hægar eða magnlitlar, því þá svo stendur á, streymir svo mikið blóð í legæðarnar, að samdrættirnir í trefjavefnum í leginu eigi mega verða eðlilegir.

Þá er svo stendur á, að *mjög mikið blóð streymir að leginu*, mun því opt valda það, að konan er mjög blóðrík, og má slíkt ráða af því, að konan í alla staði hefur hraustlegt útlit og er mjög svo rjóð í andliti, en hún finnur og jafnaðarlega til hita og þyngsla og smáhviða í höfðinu og að sínu leyti eins til þyngsla í öllum líkamanum og máttleysis í útlimunum, og opt er hún mjög þyrst, en blóðið streymir um lífæðina með miklu afli. Eigi finnur þó konan til mjög mikilla verkja í kviðnum, en hann er allur mjög heitur og útþaninn viðkomu; eins er legopið optast mjög svo heitt viðkomu og nokkuð eitt þrútið, en þó er það eigi mjög viðkvæmt; þá svo er ástatt, standa hríðirnar mjög svo stutta stund yfir, og eru þær magnlitlar, en þó fylgir þeim þjáning nokkur, og þá er á milli þeirra verður, finnur konan til sárra verkja yfir um lendarnar og spjaldhrygginn.

En ef blóðmegnið í leginu helzt um langan tíma án þess að reynt sje til að eyða því með meðölum, er við eiga, þá er hætt við, að *hiti* og *bólga* hlaupi í legið, er beinlínis orsakast af blóðmegninu, og að því leyti er slíkt náskylt blóðmegninu sjálfu; þó má vera, að hiti og bólga hlaupi í legið, þó blóðmegni eigi valdi því, og eru margar orsakir til þessa, og teljum vjer þá einkum: að mjög svo ákafir samdrættir hlaupa í legið á hinum fyrstu tímabilum af fæðingunni; að grindin er eigi rjett mynduð, og seinkar þá mjög fæðingunni; að höfuð burðarins á hinum síðari köflum af fæðingunni þrengir um langan tíma að leghálsinum og legopinu; eins má slíku valda það, að konan er of opt og mjög óliðlega könnuð um leggöngin, eða yfirsetukonan reynir um skör fram að víkka legopið út, eða og hún reynir til að snúa burðinum við, þá er eigi er kominn tími til þess eða henni tekst það óhönduglega. Eins má það og valda þessu, að kuldi er látinn koma að konunni.

Optast ber það við, að hiti og bólga hleypur fyrst í legið að neðanverðu og sækir þaðan upp eptir því; en sjaldan hleypur hitinn og bólgan í það allt í senn þegar í byrjuninni.

Þá er veikindi þessi koma í legið, eru hríðirnar, meðan á því stendur, mjög svo magnlitlar en þó þjáningarmiklar, og konan finnur til sárra verkja yfir um lendarnar og spjaldhrygginn og um allan kviðinn, enda þótt hún eigi hafi hríðir. Þá er farið er höndum um kvið konunnar að utanverðu, má glöggt finna til legsins, og er það mjög svo hart viðkomu og með öllu útþanið og viðkvæmt þá er þrýst er á það. Leggöngin eru með öllu þurr innan og heit viðkomu, og hið sama er að segja um legopið, og er það enn

nokkuð eitt þrútið, og mjög svo viðkvæmt þá er komið er við það. Blóðið streymir ótt um allan líkama konunnar, en kuldahrollur kemur að henni hvað eptir annað, hörundið er brennheitt og skráþurrt; hana þyrstir mjög, og lífæðin er mjög óð. En þá er þessu hefur haldið fram um nokkurn tíma eykst enn meir hitinn og bólgan í leginn, og breytist þá og allt útlit konunnar með þeim hætti, að hún verður náföl, og hræðsla kemur að henni.

106. grein.

3. Stundum má og vera að það valdi því, að hríðirnar hætta að mestu eða öllu leyti, að *fyrr hafi komið veikindi í trefjavefinn í leginu,* og má til þess telja: sigg, hnúta, o. fl. þh., eða og veldur því það, að hliðarnar á leginu að innanverðu hafa skaddast eða rifnað í sjálfri fæðingunni. Mjög svo er torvelt að komast eptir þá er sigg og hnútar í leginu valda hríðateppunni, og mun, þá svo stendur á, bezt fara að gjöra lækni njósn um slíkt; en síðar munum vjer skýra frá, hvernig það má verða, að legið skaddast og rifnar, og skal þá um leið skýrt frá, hvernig að skal fara, þá er svo stendur á.

107. grein

*skýrir frá, hver áhrif það hefur á fæðinguna, þá er hríðirnar hætta að mestu eða öllu leyti.*

Almennt má svo skoða þetta tilfelli, að öll líkindi eru til, að fæðingin muni venju fremur verða langvinn, má og vera, að náttúran ein eigi sje einhlít til að koma fæðingunni fram, þá er hríðirnar verða magnlitlar; en til þess að skýra því glöggara frá áhrifum þeim, er

slíkt hefur á fæðinguna, er það mjög svo áríðandi að kynna sjer til hlítar með hverjum hætti magnleysi hríðanna sýnir sig.

Viljum vjer nú fyrst skýra frá áhrifum þeim, er *magnleysi í leginu* hefur á fæðinguna, en reynslan hefur sýnt, að slík áhrif á fæðinguna fara að mestu leyti eptir því, hve mikið máttleysið er, og eins eptir tímanum í fæðingunni, þá er það fyrst sýnir sig. Þetta er svo að skilja, að eigi veldur slíkt nokkru tjóni fyrir konuna eða burðinn þá er máttleysið annað hvort eigi er mjög mikið, eða það einungis sýnir sig á einstöku köflum af fæðingunni, allra sízt ef engar aðrar kringumstæður tálma fæðingunni. Hitt er víst, að máttleysið í leginu tálmar mjög svo lítið fæðingunni áður en himnurnar rifna, en síðar á fæðingunni er þó barninu stundum lífshætta búin, þá er fæðingin gengur mjög tregt. En ef máttleysið í leginu verður svo mikið, að allan mátt dregur úr hríðunum, þá mun mega fullyrða, að náttúran ein eigi muni geta hjálpað sjer, eða og hins vegar fæðingin muni verða svo langvinn og örðug, að barnið deyji og konan verði með öllu máttfarin um það fæðingunni er lokið. Eins fer þá er máttleysið í leginu er reyndar nokkru minna, en stendur þó yfir mestalla fæðinguna. Enda þótt barnið með þessum hætti seint og síðar komi í ljós, þá mun máttleysið í leginu um langan tíma tálma því, að fylgjan komi í ljós, og hins vegar er mjög svo hætt við, að konan fái blóðrennsli úr leginu, þá er svo stendur á, og er henni meiri hætta búin af þessu, en þótt fylgjan eigi komi þegar í ljós.

*Blóðríki* eða *blóðmegni* í leginu veldur því, að fæðingin verður mjög svo langvinn, og, ef það helzt lengi, er hætt við, að *hiti og bólga* hlaupi í það, og

er þá konunui meiri eða minni hætta búin, eptir því sem á stendur. Þetta er svo að skilja, að vonandi er, að fæðingin muni vel takast og náttúran ein muni geta hjálpað sjer ef annars vegar ekkert tálmar fæðingunni, þá er hitinn og bólgan einungis kemur í legopið og leghálsinn, og eins er þá og líkindi til að eyða megi bólgunni þegar eptir fæðinguna, ef rjett er með farið. En ef hitinn og bólgan eykst og hleypur i mestan hluta legsins, þá er það sjálfsagt, að fæðingin stendur í stað, en bólgan fer æ vaxandi. Þá er svo stendur á, skal í tækan tíma leita allra bragða við að ráða bót á þessu, því annars vegar er hætt við að hitinn og bólgan valdi dauða konunnar jafnvel fyrir fæðinguna, eða að minnsta kosti skömmu eptir hana, með því hitinn og bólgan breytist í illkynjaða barnsfarasótt.

Að lokum viljum vjer minna yfirsetukonuna á, að aldrei er konunni meiri hætta búin, en þegar hríðirnar verða of máttlitlar sökum *veikinda í trefjavefnum í leginu;* slíkt má opt valda því, að fæðingin verður með öllu óeðlileg, og enn fremur er mjög svo hætt við, að legið rifni þá svo stendur á. Tökum vjer það þess vegna upp aptur, að yfirsetukonan skal hafa alla varúð við, þá er hún verður þess vísari, að þess konar veikindi í leginu valda því, að fæðingin verður með öllu óeðlileg, og skal hún þá svo stendur á, þegar koma lækni njósn um slíkt.

### 108. grein

*skýrir frá, hvernig að skal fara, þá um of dregur magnið úr hríðunum.*

Hríðirnar geta orðið of máttlitlar með ýmsu móti, og er þetta mjög svo athugavert, til þess að rjett

verði að farið og þau ráð höfð, sem eiga við í hvert skipti.

Stundum veldur því *magnleysi* eða *doði* í leginu, að úr hríðunum dregur, án þess þó að magnleysi þetta eigi nokkuð skylt við önnur veikindi konunnar, og er ráðlegast, þegar svo stendur á og fæðingunni er skammt komið að láta hana ráða sjer sjálfa og eiga ekki hlut að, fyrr enn himnurnar rifna, því opt ber það við, að hríðirnar aukast og magnast, þegar legvatnið er runnið út. Þótt himnurnar sjeu rifnaðar og legvatnið runnið út, þarf yfirsetukonan þó eigi þegar að bera kvíðboga fyrir fæðingunni, ef engin önnur merki þess lýsa sjer, að fæðingin muni verða óeðlileg, því opt má verða, að hríðirnar magnist til hlítar ef konan nýtur svefns og værðar fáeinar stundir, má og vera, að hinu sama verði framgengt með þeim hætti að láta konuna breyta stöðu sinni og ganga nokkrum sinnum um gólf. Þegar nokkur stund er liðin og hríðirnar eru jafn máttlitlar og áður og fá eigi flýtt fyrir fæðingunni, eða þeim hættir með öllu, þá er það allajafna ráðlegast að gjöra lækni þegar njósn um slíkt; má þá svo fara, að hann geti magnað hríðirnar til hlítar eða og náð burðinum með töng. Það er sjálfsagt, að þegar skal læknis vitja þá er svo stendur á, sem nú hefur verið frá skýrt og burðurinn þar að auki liggur skakkur, og ber þá brýn nauðsyn til þess; sjaldan ber það við, að máttleysinu í leginu valdi ljemegni og máttleysi í öllum líkamanum, en þegar svo stendur á, skal og þegar leita læknis.

Á þessum stað viljum vjer leiða hjá oss að fara orðum um doðann eða magnleysið í leginu eptir fæðinguna, en síðar mun verða skýrt frá því, þegar talað

verður um alla þá örðugleika, er geta sýnt sig um það leyti, er fylgjan kemur í ljós.

Þá er öll merki þess lýsa sjer, að *mjög mikið blóð* streymir að leginu, eða og *hiti og bólga* er þegar hlaupin í það, þykir það allajafna bezt eiga við, að hún með öllu haldi kyrru fyrir, og drekki súran og kælandi þorstadrykk. Með öllu skal yfirsetukonan ráða konunni frá að neyta megns matar og drykkjar, er æsir blóðið, og eins skal konan forðast alla áreynslu og hreifing, og einkum ber þess að gæta, að kanna eigi fæðingarpartana optar, enn brýn nauðsyn ber til þess, en þeir eru mjög svo viðkvæmir. Ráðandi er til að láta stöku sinnum, en þó með mestu varúð, volga olíu, hafrasúpu eða mjólk, o. fl. þh., renna inn í leggöngin, og er spröitan höfð til þess, er áður er skýrt frá, og má vera, að með þessum hætti minnki hitinn og þurkurinn í leggöngunum og legopinu.

Sje svo, að konunni eigi þá og þegar ljetti, er með öllu nauðsynlegt, að læknis sje vitjað, því hann einn þekkir og kann að viðhafa þau meðöl, sem friðað geta konuna og við eiga þegar blóðríki og hiti og bólga er hlaupin í legið.

Komist þar á móti yfirsetukonan að því eða henni þyki það líklegt, að *veikindi nokkur í trefjavefnum í leginu* valdi því, að mestan eða allan mátt dregur úr hríðunum, skal hún þegar að vörmu spori gjöra lækni njósn um slíkt, og eins ber brýn nauðsyn til, að svo sje með farið þá er legið rifnar, og er, þá svo tekst til, konunni enn meiri hætta búin. Ber það til þess, að svo skal með fara, að læknirinn einn má ráða bót á slíku, því bæði er það, að slíkt ber sjaldan við, og hins vegar er eigi venja til, að yfirsetukonan nemi, hvernig með skal fara þá er svo fer, sem nú var sagt.

II. Þá er hríðirnar eru of harðar og koma of opt að og ekkert hlje verður á þeim.

109. grein.

Áður er skýrt frá að opt má verða, að hríðirnar eru of magnlitlar, en hins vegar getur og opt borið við, að þær eru of harðar og of ákafar, og koma of opt að eða lítið sem ekkert hlje verður á þeim, og verður slíkt opt þegar í byrjun fæðingarinnar, en stundum lýsir það sjer fyrst þá er líður á hana. Þá er svo stendur á, þjáist konan mjög án þess hlje verði á, svo varla er henni svipstund vært, má og vera, að hún eigi hafi nokkurt viðþol; um sama leyti þenst og allur kviðurinn mjög svo út, sökum þess að samdrættirnir í öllu leginu aukast, og mikið óþol og hræðsla kemur að konunni.

Það er reyndar auðsætt, að hríðirnar taka mjög svo upp á konuna, þá er þær eru svo ákafar og koma svo opt að, sem nú var sagt, en á hinn bóginn má þó fullyrða, að konunni er engin hætta búin ef svo tekst til, að hríðirnar eigi koma með ákefð þessari þegar í byrjun fæðingarinnar, og fæðingin sjálf annars vegar er með öllu eðlileg, og allra sízt er henni þá háski búinn, er burðurinn liggur með öllu eðlilega og vídd grindarholsins og stærð höfuðsins á burðinum er eðlileg, og þá svo er, stendst hjer um bil á hríðamagnið og mótspyrna sú, er verður á leið burðarins um grindarholið.

Öðru máli er að gegna, þegar mótspyrnan er óvenjulega mikil eða óvenjulega lítil.

110. grein.

En sje svo, að mótspyrnan sje venju fremur mikil

og hríðirnar of harðar og of ákafar og komi of opt að, og burðurinn liggi skakkur eða bann sje venju fremur fyrirferðarmikill eða og grindin er svo þröng, að náttúran ein eigi megi hjálpa sjer, og fæðingin fyrir þá sök mistekst með öllu, má vera, að áreynslan af samdráttunum í leginu, er öll reyndar er til ónýtis, eigi einungis hafi dauðleg áhrif á burðinn, beldur ber það og opt við, að leginu er mikil hætta búin, ef eigi er með öðrum ráðum sjeð betur fyrir, með þeim hætti, að opt hleypur hiti og bólga í það, og vera má að það stundum rifni, eða og veldur því áreynslan, að nokkurs konar doði hleypur í það, en af því leiðir aptur, að útsjeð er um, að samdrættirnir komi í það að svo stöddu. Sökum þess, er nú hefur sagt verið, viljum vjer ráða yfirsetukonunni til að láta þegar vitja læknis, en hún getur einungis gjört það eitt að til að lina þjáning konunnar og draga úr fæðingaraflinu að taka konunni blóð, og má vera, að slíkt komi opt að góðu haldi, þá er konan er mjög blóðrík, og sem neyðarúrræði þar til læknir kemur.

111. grein.

Stundum ber það við, að hríðirnar eru of harðar og of ákafar, eins og sagt hefur verið bjer á undan, en grindin er of víð eða og burðurinn er mjög fyrirferðar lítill, og fyrir þá sök mætir burðurinn engri mótspyrnu á leiðinni um grindarholið, en af slíku leiðir aptur, að fæðingin verður of fljót, og mundi margur við fyrsta álit halda, að þá takist vel til, en þetta er reyndar eigi svo, því opt má vera, að konunni og barninu sje mikil hætta búin þá er svo fer.

Konan getur beðið tjón af slíku með ýmsum hætti,

og viljum vjer á þessum stað telja til þess: að yfir hana liður, sökum þess, að burðinum skýtur of snögglega út, og er henni mikil hætta búin af slíku; og vera má, að holdbrúin rifni að nokkru leyti. Enda þótt að þess konar fæðing eigi fylgi ókostir þeir, er nú voru taldir, þá má þó allajafna búast við, að fylgjan komi seint og síðar í ljós, sökum þess að máttleysi hleypur í legið, sem valdið getur blóðlátum og jafnvel umsnúningi legsins.

Þá er fæðingin er of hastarleg, er barninu opt hætta búin með þeim hætti að vera má, að því skjóti út meðan konan stendur, og er þá hætt við, að það skaddist um leið og það dettur niður á gólfið, og eins getur það við borið, að naflastrengurinn slitni, og er þá barninu opt lífsháski búinn; reynslan hefur og sýnt, að það ber við, þá er svo tekst til, að himnurnar rifna eigi, heldur skýtur öllu egginu út í senn, og er þá hætt við að barnið, sem liggur innan í himnunum, kæfist þegar, ef eigi er öll varúð við höfð, sökum þess, að það eigí nær að draga að sjer andann.

## 112. grein.

Á þessum stað viljum vjer skýra frá, *hvernig með skal fara*, þá er fæðinguna ber of fljótt að, og þykir þá fyrst eiga við að geta þess, að svo má takast til, að fæðingin verði svo fljót, að henni sje með öllu lokið, áður en yfirsetukonan kemur, og þá svo fer, er hjálp hennar og aðstoð í því einu fólgin að ráða bót á meinbugum og tjóni því, er vera má að hlotizt hafi af þess konar fæðing. En þá er yfirsetukonan hefur verið við stödd frá því fæðingin fyrst byrjaði, og henni virðist, að allt bendi til þess, að fæðingin muni verða of fljót, eða og hún kemur að í því, að hríðirnar eru hvað á-

kafastar, og hún með þessum hætti sjer glöggt, að fæðingin muni verða of fljót, en slíkt má ráða af því, að legopið víkkar út þegar, og burðinum öllum miðar fljótt niður eptir grindarholinu, þá skal hún það eitt að gjöra, að svo míklu leyti verða má, sumpart að sjá svo um með öllum ráðum, að fæðingin eigi verði of hastarleg, og hins vegar búa svo um hnútana, að konan og barnið bíði sem minnst tjón verða má.

Viljum vjer nú skýra frá, hvers yfirsetukonan einkum skal gæta þá er svo stendur á, sem nú var sagt, og teljum vjer þá:

a, hafi konan alið barn einu sinni eða optar, og fæðingin verið of fljót, viljum vjer ráða henni til að halda með öllu kyrru fyrir síðast á meðgöngutímanum, og sneyða hjá allri áreynslu og eigi neyta megns matar eða áfengra drykkja; þá er konan fyrst verður þess vör, að hún er komin að því að leggjast á gólf, skal hún þegar láta sækja yfirsetukonuna.

b. Þegar er konan hefur tekið jóðsótt, skal láta hana leggjast í rúm og fer bezt, að hún eigi barnið í því, og binda skal kviðarbeltið um hana, en þó einungis lauslega, en herða þegar á því, er þess gjörist þörf, og með öllu skal taka konunni vara fyrir að herða á eptir fæðingunni meðan á hríðunum stendur.

c. Þá er legopið víkkar of fljótt út, má vera að opt megi sjá svo um, að slíkt eigi verði með öllu, með þeim hætti að sprengja himnurnar, því þær koma því til leiðar að miklu leyti, að legopið víkkar út, en það ber til þess, að þær eru útþandar eins og uppblásin blaðra. En ef höfðinu á burðinum engu að síður miðar niður eptir grindarholinu, þá hefur það fyrr á tímum þótt ráðlegt að fara með tvo fingur inn í leggöngin

beggja megin við höfuðið á burðinum, og með þessum bætti spyrna á móti höfðinu meðan á hríðunum stendur; en reynslan hefur sýnt, að þess konar mótspyrna eigi kemur að miklu haldi, og er því ráð þetta að álíta ónýtt í alla staði. En hitt er mjög svo áríðandi, þá er höfuð burðarins nálægist hið neðra op grindarinnar, að hafa mestu gætur á holdbrúnni, því mjög er hætt við, að húu skaddist, ef eigi er öll varúð við höfð. Þegar svona er á statt má það opt verða að góðu liði að láta konuna liggja á annari hvorri hliðinni meðan á fæðingunni stendur. Reynslan hefur sumsje sýnt og sannað, að aðstoðaraflið eigi getur neytt sín eins vel og þá konan liggur á bakinu og verður að álíta að þetta sje vel farið, þar sem fæðingin er svo snögg og fljót, að verkirnir verða svo mjög sárir, að konan leitast við sjálf að flýta fyrir fæðingunni og er því hættara við að holdbrúin rifni. Sje því konan heldur látin liggja á annari hvorri hliðinni, er bezt að hún leggist á vinstri hliðina þannig, að sitjandinn sje alveg út við rúmstokkinn, skal konan kreppa lærin upp að kviðnum og skal leggja fastan kodda eða samanvafða rekkjuvoð milli hnjánna, og skal yfirsetukonan standa eða sitja við rúmstokkinn og styðja vel holdbrúna á vanalegan hátt, en þó skal hún heldur halda holdbrúnni upp á við í stefnu upp að blöðrubeininu, því með þeim hætti má betur tefja fyrir gang höfuðsins út um hina ytri fæðingarparta.

d. Þá er burðurinn er kominn í ljós skal konan vandlega gæta þess að halda með öllu kyrru fyrir, og binda skal kviðarbeltið fast um hana, og sjá svo um, að þegar sje ráðin bót á, er svo lítur út, sem konunni sje hætta búin, með því er við á í hvert skipti. Þá er svo er komið viljum vjer taka yfirsetukonunni vara fyrir

að reyna til með nokkrum hætti að flýta því, að fylgjan komi í ljós, en sjálfsagt er, að brýn nauðsyn beri til slíks, þá er konan hefur blóðlát, hvort heldur það er útvortis eða innvortis.

e. Ef barnið er meira eða minna skaddað er það sjálfsagt, að bezt fer að vitja þegar læknis. Er t. a. m. naflastrengurinn slitinn í sundur, skal þegar binda fyrir hann svo fljótt sem verða má, og með þeim hætti sjá svo fyrir, að barninu eigi blæði til ólífis. Þá naflastrengurinn hefur slitnað svo nærri kvið barnsins, að eigi er hægt að binda fyrir hann, skal yfirsetukonan þegar reyna til að stilla blóðrásina með þeim hætti að troða þurrum njarðarvetti inn í sárið og leggja yfir samanvafið línskaf eða ljereptspjötlur og binda um með naflabandinu. En takist eigi að stöðva blóðrásina með þessum hætti skal þegar vitja læknis, og þangað til hann kemur skal halda með vísifingrinum þar er naflaæðarnar eru fyrir, og stöðvast þá blóðrennslið meðan því fer fram. En hitt skal allajafna hafa í huganum, að hvað lítið sem er, getur komið því til leiðar, að sárið tekur sig upp að nýju, og opt má vera að barninu blæði þá til ólífis, og skal fyrir þá sök við hafa hina mestu varúð fyrst framan af í þessu tilfelli.

### 113. grein.

Vera má, að konan með mörgum hætti bíði tjón, þá er fæðingin er of fljót eða hastarleg, en á þessum stað viljum vjer að eins skýra frá því, er *sprungur eða rifur koma upp í holdbrúna.*

Vera má að *sprungur og rifur komi upp í holdbrúna* enda þótt fæðingin sje með öllu eðlileg, og veldur þá slíku það, að yfirsetukonan hefur annað hvort alls

ekki eða of linlega stutt á holdbrúna eins og áður er sagt, eða og henni hefur tekizt slíkt mjög svo óhönduglega; enn fremur orsakast slíkt af því, að konan liggur mjög ókyrr í rúminu, eða og er holdbrúin venju fremur breið og lætur eigi undan eða tognar. Þá eru allajafna meiri líkindi til að slíkt beri við, er fæðingin er örðug og óeðlileg og þá er hana ber að of snögglega eða of hastarlega, og stundum hefur borið við, þá er fæðingin kemur of snögglega að, að gat hefur komið á holdbrúna, en burðurinn hefur komið í ljós um það. En slíkt ber mjög svo sjaldan við, sem betur fer.

Sjeu rifurnar eða sprungurnar eigi stærri en svo, að þær einungis nái inn úr fremri barminum á holdbrúnni, gróa þær optast saman af sjálfu sjer og konunni er engin hætta búin. En hins vegar eru rifurnar því háskalegri, sem þær eru stærri, og má vera, að þær stundum nái aptur að endagörninni og stundum er henni hætta búin. Þá er svo tekst til, að rifurnar upp í holdbrúna ná aptur að endagörninni, er mjög svo hætt við, að leggöngin sígi út um rifu þessa og síðar legið sjálft; en þá er rifurnar ná aptur í endagörnina og hún hefur skaddast, stendur það eigi úr því í valdi konunnar að halda saurindunum, og má vera að alls ekki verði ráðin bót á slíku, og þjáist hún þá með þessum hætti allan þann tíma, hún á eptir ólifað.

Þá er rifurnar eigi eru mjög miklar mun yfirsetukonan ein duga til að koma slíku í samt lag aptur, en vjer viljum á þessum stað taka vara fyrir að reyna til að lækna rifur þær, er stórar eru, heldur skal hún þegar láta sækja lækninn þá svo stendur á, en yfirsetukonan skal þannig með fara: hún skal vandlega gæta alls hreinlætis og þess, að konan liggi á aðrahvora

hliðina og hún hreifi sig eigi mjög mikið, en haldi lærunum saman; á hinum fyrstu dögum eptir fæðinguna skal smátt og smátt baða sárið eða rifuna með volgu urtaseyði eða mjólk, þangað til allur þroti er horfinn úr börmunum, og þá svo er komið, skal bera á þá sárasmyrsli eða og leggja ljereptspjötlu yfir sárið og væta hana í olíu. Áður er sagt, að þegar skal læknis vitja þá er rifurnar eru mjög stórar.

### III. Þá er hríðirnar eru með öllu óeðlilegar og taugateygjur (krampi) eru þeim samfara.

114. grein.

Þá segja menn, *að hríðirnar sjeu með öllu óeðlilegar* eða taugateygjur þeim samfara, er samdrættirnir í leginu eigi sýna sig á eðlilegan hátt og annað hvort verður of skammt eða of stutt á milli þeirra, og konan finnur hjer og hvar til þeirra í öllu leginu, en eigi eins og eðlilegt er fyrst um legbotninn og svo þaðan jafnt niður eptir öllu leginu. Stundum ber og við, að hríðirnar og samdrættirnir eru of ákafir á einum stað í leginu, og með þeim hætti tálma þeir fæðingunni í stað þess að flýta fyrir henni.

Vera má, að þess konar samdrættir komi í legið á hverjum kafla fæðingarinnar sem er. Á hinum fyrstu köflum fæðingarinnar sýna þeir sig einkum með þeim hætti, að óeðlilegar teygjur koma í legopið, og síðar sýnir og slíkt sig í leghálsinum og hjer og hvar í öllu leginu; hríðirnar standa mjög stutta stund yfir og þeim hættir allt í einu þá svo er ástatt, þær eru og mjög svo þjáningarfullar, og eigi flýta þær fæðingunni svo nokkru nemi, og opt selur konan upp vatnskenndu eða grænleitu slími; kviðurinn er allur út þaninn og viðkvæmur, þá er þrýst er á hann.

Þá er svo fer, að teygjurnar og hinir óeðlilegu samdrættir eru í legopinu, þenst það einungis lítið eitt út og er það hart fyrir og nokkuð þrútið og mjög viðkvæmt; það kiprast og stundum eigi alllítið saman í stað þess að þenjast út meðan á hríðunum stendur. Sjeu hinir óeðlilegu samdrættir ofar í leginu, til að mynda í leghálsinum eða legbolnum, þá kiprast legið saman á þessum stað, en reyndar er eigi hægt að komast eptir, að svo sje með því að rannsaka konuna um leggöngin, því legopið er þvert á móti mjög lint; að utan á kviðnum finnst flatneskja og eymsli rjett fyrir ofan blöðrubeinið, og allur er hann viðkvæmur. Hríðirnar reyna mjög á konuna og hún þjáist mjög; þá þannig er ástatt, miðar burðinum ekkert niður eptir grindarholinu enda þótt hinir óeðlilegu samdrættir einir tálmi fæðingunni. Optast ber það reyndar við, að hinir óeðlilegu samdrættir koma fyrst í legið eptir að barnið er komið í ljós, og sýnir slíkt sig með hinum sama hætti, og áður er sagt, og tálmar slíkt því, að fylgjan komi í ljós. Þá er svo fer, er einka örðugt að komast eptir, hvort þessir óeðlilegu samdrættir sjeu í leginu, sökum þess, að allur kviðurinn er orðinn mjög flatneskjulegur eptir að burðurinn er kominn í ljós, en hins vegar má glöggt finna, að svo er, þá er þess gjörist þörf annara orsaka vegna að fara með alla hendina inn í legið til að ná legkökunni lausri. Stundum ber við, að hinir óeðlilegu samdrættir og teygjurnar ná um allt legið öðru megin, og er með öllu auðsætt, að legið skekkist allt þá svo fer, en þess ber að gæta, að gjöra mun á þessari skekkju og hinni skekkjunni á leginu, er orsakast af því, að það liggur skakkt, og er áður skýrt frá þessu.

115. grein.

Á þessum stað þykir eiga vel við að skýra frá, hvað því *veldur* optast, að hinir óeðlilegu samdrættir og teygjur koma í legið, og má þá fyrst geta þess, að hætt er við, að svo fari fyrir konum, sem eru mjög ungar og veikbyggðar, og er opt eiga vanda fyrir teygjur í leginu og fleiri þess háttar veikindi; en optar veldur slíku: að skömmu áður hefur komið kuldi að konunni og hún fengið kvef, að henni hefur sinnazt um of með einhverjum hætti, að burðurinn liggur skakkur, að legvatnið rennur of fljótt út, og enn það, að konan hefur verið könnuð of opt og óhönduglega um leggöngin; eins má því við bæta, að opt veldur það óeðlilegum samdráttum í leginu, þá er sá tími er kominn, að fylgjan kemur í ljós, að fæðinguna ber of snögglega að, og á þetta sjer einkum stað, þá er svo stendur á, að legið er áður venju framar út þanið, til að mynda þá er legvatnið er of mikið, og eins ef konan hefur gengið með tvíbura.

116. grein.

Opt má vera, að bæði konunni og barninu sje mikil hætta búin, þá er hinir óeðlilegu samdrættir í leginu sýna sig í fæðingunni; konan má bíða tjón af slíku með þeim hætti, að hún fær köldu, og hiti og bólga hleypur í legið og má vera að úr því komi taugateygjur í allan líkamann, en slíkt orsakast beinlínis af því, að konan þjáist mjög um langan tíma af áreynslunni, en hún er öll til ónýtis; en hins vegar má vera, að barninu sje lífsháski búinn sökum þess, að legið kiprast svo fast saman um bolinn á því, og einkum er hætt við, að svo fari þá er legið kiprast saman um nafla-

strenginn, því með þeim hætti nær blóðið eigi að halda hinni eðlilegu rás sinni um hann. Á öðrum stað viljum vjer skýra nákvæmlega frá, með hverjum hætti samdrættir þessir og teygjur tálma því, að fylgjan komi í ljós.

117. grein.

Þá er samdrættir þessir og teygjur í leginu eru mjög miklir, má yfirsetukonan ein eigi ráða bót á slíku, og ber því með öllu nauðsyn til að læknis sje þegar vitjað, því hann einn þekkir þau meðöl, er við því eiga og getur sagt, hvernig með skal fara til að koma öllu í samt lag. En opt má vera, að yfirsetukonan ein dugi til að hjálpa konunni og lina þjáning hennar, þá er samdrættirnir og teygjurnar í leginu eigi eru mjög miklir, og skal hún eingöngu við hafa til þessa meðöl þau, er venjulega eru höfð til að stöðva teygjur með, og henni er kunnug, en þó skal hún við hafa alla varúð. Með meðölum þeim, er við eiga í þessu tilfelli, og er yfirsetukonan má gefa konunni inn, má telja kamfórudropa og Hoffmannsdropa, og skal gefa konunni inn tuttugu dropa af kamfórudropunum eða af Hoffmannsdropunum, og láta hana um leið drekka heitt seyði af kamillugrasi; utan á kviðinn skal yfirsetukonan bera kamfóruolíu, en leggja volga ljereptsþjötlu yfir blöðrubeinið og væta hana í olíu; opt kemur sjer vel að setja konunni stólpípu, og skal hafa eintómt seyði af kamillugrasi í henni, og enn koma með spröitunni volgri olíu inn í leggöngin. Konan skal liggja í rúminu án þess að hræra sig mikið, en vera vel hulin öll af yfirdýnunni, og vera má, að hún svitni þá svo er með farið, og tekst þá vel til, en yfirsetukonan skal gæta þess, að

kanna eigi konuna um leggöngin optar en brýn nauðsyn ber til þess. Takist eigi með þessum hætti að lina þjáning konunnar eptir nokkurn tíma liðinn, skal yfirsetukonan eigi skjóta því lengur á frest að láta sækja lækni.

118. grein.

Þess er áður getið, að fæðingin má verða óregluleg þegar *lega og staða móðurlegsins er eigi eins og hún á að vera.* Til þessa teljum vjer á þessum stað skekkju og sig legsins, aptur á móti tekst sjaldan svo til að allt legið snúist við, sem allajafna er mjög hættulegt og mun nákvæmar verða skýrt frá þessu þegar talað verður um óreglu þá, er orðið getur á fæðingu legkökunnar (246. grein), því það er á þessu tímabili fæðingarinnar sem slíkt getur að borið, og þegar talað verður um veikindi konunnar um meðgöngutímann, (285. grein) mun verða getið um, þegar svo tekst til að legið snýst aptur á við.

119. grein.

*Skekkja móðurlegsins* má verða með tvennum hætti, annað hvort hallar legbotninum til annar hvorrar hliðar eða hann slútir mjög fram í kviðinn.

Þegar legbotninn er skakkur til annar hvorrar hliðar verður maður þess áskynja við hina ytri rannsókn, að kviðurinn er eigi jafn út þaninn, en að legbotninum hallar mjög til hægri eða vinstri hliðar, og þegar kannað er um leggöngin finnst að legopinu hallar til hinnar gagnstæðu hliðar í grindarholinu. Þannig liggur legopið í gagnstæða stefnu við legbotninn og þessi skekkja í móðurleginu er því frábrugðin, þá er bæði er

skekkja á legbotninum og legopinu, en skekkju hvorutveggja veit til sömu hliðar.

120. grein.

Þá er svo stendur á, að einungis lítil skekkja er á leginu, tálmar slíkt lítið fæðingunni. Sje aptur á móti skekkjan talsverð, seinkar vanalega fæðingunni; meðan á hríðunum stendur rekst sá partur burðarins, sem að ber, til annarhvorrar hliðar í grindarholinu, þeim megin, sem legopið snýr, og af þessu leiðir þá, að mjög dregst úr hríðaraflinu, sem eins og klýfst. Hríðirnar verða óreglulegar, linar eða krampi kemur í legið og svo getur að borið, að konan eigi geti fætt; þó má opt sjá, að náttúran ein hjálpar sjer, og lagar smátt og smátt skekkjuna á leginu á þann hátt, að legopið, sem í byrjun fæðingarinnar víkkar út á ská til annar hvorrar hliðar, smámsaman leggst í miðlínu grindarholsins og burðarparturinn, sem að ber, fjarlægist hliðarvegg grindarinnar og sígur niður í fæðingarveginn. Hríðirnar verða svo reglulegar og harðar, og lýkur svo fæðingunni, að hvorki konunni nje barninu er nokkur hætta búin.

121. grein.

Þegar yfirsetukonan er viss um það, að skekkja er á móðurleginu til annar hvorrar hliðar, skal hún eigi hugsa um annað, en að láta konuna liggja svo haganlega sem verða má, svo konunni sje sem minnst hætta búin. Skal yfirsetukonan ráða konunni til, að svo miklu leyti verða má, að liggja á þá hliðina, sem legopinu og þeim parti burðarins, sem að ber, hallar út að. Legbotninn sígur þá út á þá hliðina og hríðaraflið verkar

þá betur eptir miðlínu grindarholsins. Þegar konan er búin að liggja á hliðinni um nokkurn tíma og þetta eigi gagnar, eða sje skekkjan svo mikil, að yfirsetukonan þegar sjer, að ekkert muni það stoða, þótt konan leggist á aðra hvora hliðina, skal hún sem fyrst láta sækja lækni, því opt má verða, að bæði konunni og barninu sje að öðrum kosti mikil hætta búin.

122. grein.

Þegar skekkju legsins er þannig varið, að legbotninn slútir fram á við, segja menn, að konan sje kviðsígin, með því kviðurinn eins og slútir mjög fram yfir blöðrubeinsröndina, og stöku sinnum kveður svo mjög að því, að kviðurinn slútir niður á lærin.

Orsakir til þess að kviðurinn þannig slútir fram, hvort heldur það er um meðgöngutímann eða um fæðinguna, er óvanalegt magnleysi í magálnum, og ber þetta optast við hjá konum, sem opt hafa áður alið barn; hjá konum, er eiga barn í fyrsta skipti, ber það að eins við þegar þrengsli eru fyrir í efra opi grindarholsins, því þá þrýstist móðurlegið út úr hinu minna grindarholi og kemst að eins fyrir með því að hallast fram á við.

Þegar kviðurinn er kannaður að utan, má fljótt komast að þessu; sje konan könnuð um leggöngin, verður maður þess var, að legopið er býsna ofarlega og opt veit það aptur á við í grindarholinu, og vanalega er örðugt að finna til þess parts burðarins, sem ber að, af því að hann er fyrir ofan efri rönd blöðrubeinsins og hvílir að nokkru leyti á henni.

123. grein.

Þegar um meðgöngutímann hefur konan mikla

þvingun af kviðsíginu; hún verður þannig mjög opt að kasta af sjer þvagi, hún á bágt með að ganga og henni finnst eins og sár stríðleiki liggi um kviðinn. Það getur því orðið nauðsynlegt, eins og áður er getið, að láta konuna hafa magabelti, og mætti festa það betur með tveimur böndum, er gengu yfrum herðarnar, því með þessu móti helzt það bezt að kviðnum og þvingar minnst konuna.

124. grein.

Þegar konan er kviðsígin og legbotninn slútir mjög fram á við, má þetta tálma mjög fyrir fæðingunni, því hríðirnar verða linari, og þeim parti burðarins, sem ber að, miðar seint niður á við í grindarholinu; þetta kemur til af því, að hríðaraflið eigi getur verkað eptir miðlínu grindarinnar, heldur verkar í skakka stefnu að aptari hlið grindarinnar. Opt er því nauðsynlegt, að læknir sje við staddur, en sjeu eigi mikil brögð að þessu, skal yfirsetukonan fyrst reyna, hvort hún eigi getur eitthvað lagað halla legbotnsins fram á við, með því að vefja belti eða magabindi um kviðinn, og reyna með því móti að halda kviðsiginu upp á við.

125. grein.

Hin önnur tegund skakkrar stöðu og legu legsins er *sig* þess og *útsig;* getur það valdið óreglulegri fæðingu, og er áríðandi að yfirsetukonan þekki það.

Þá er legið liggur lengra niður í grindarholinu en vanalega, nefna menn það *sig*, og er hægt að þekkja það á því, að legopið er sígið svo langt niður, að finna má til þess rjett fyrir innan eða jafnvel lítið eitt fyrir utan hina ytri fæðingarparta. Sígi nú legið enn lengra,

þannig að það að mestu leyti liggur fyrir utan hina ytri fæðingarparta, mætti nefna það *útsig*. Utan um hið útsigna leg liggja þá leggöngin, sem hafa dregizt niður á við og eru eins og umsnúin; er hægt að þekkja leghálsinn og legsigið á hinu útsigna legi.

126. grein.

Legsig og útsig kemur einkum fyrir hjá konum um fyrri hluta meðgöngutímans, og sjer í lagi ef konan hefur haft legsigið meðan hún var heilbrigð; einnig er hættara við því sje grindin mjög víð. Því lengra sem líður á meðgöngutímann, því sjaldnara er það og að konan fái legsig, og kemur það til af því, að legið verður smásaman svo fyrirferðarmikið, að það eigi getur sígið niður í hið litla grindarhol, og beri fæðinguna að í rjettan tíma ber útsígið mjög sjaldan að; aptur á móti ber það stöku sinnum við, að fremsti hluti leghálsins (fremsti barmur legopsins) sígur niður.

127. grein.

Þegar konan hefur legsig og útsig *um meðgöngutímann*, eru hægðir bæði til baks og kviðar opt mjög örðugar; auk þessa er hætt við að egginu hrindi út áður tími til þess er kominn, sökum þess að legið verður fyrir stöðugum þrýstingi og núningi. Yfirsetukonan skal því ráðleggja konunni að leita læknis, og skal konan liggja rúmföst þangað til hann kemur, en yfirsetukonan skal með 2 fingrum ýta leginu aptur í sína venjulegu legu. Svo að nú legið eigi sigi aptur, þegar konan fer á fætur, skal leggja ljereptsbindi þjett á milli fótanna og festa bindið bæði að framan og aptan í kviðbelti; á bindinu er lítill púði, og skal haga

því svo, að púðinn lendi í holdbrúnni og þannig styðji hana og með þeim hætti hindri legsigið að minnsta kosti svo, að það eigi gangi út fyrir hina ytri fæðingarparta. Megi þetta eigi takast, skal leita læknis.

128. grein.

Þegar legsigið ber að *meðan á sjálfri fæðingunni stendur*, skal eigi gjöra annað en spyrna linlega með 2 fingrum við leghálsinum, meðan á hríðunum stendur, og með því móti hindra það, að legsigið verði meira. Sje að eins nokkur hluti leghálsins, sem siginn er niður, má vera að þetta lagist eptir því sem á fæðinguna líður, og skal yfirsetukonan því eigi fyrst framan af fást neitt við það. Sje náttúran látin ráða, má vera, að sá barmur legopsins, sem siginn er niður, lagist aptur, þegar himnurnar eru rifnaðar, og þótt þær sjeu rifnaðar fyrir býsna löngum tíma síðan, þá má búast við hinu sama, og skal yfirsetukonan þá leggja ríkt á við konuna að rembast eigi mjög við meðan á hríðunum stendur. Komist nú samt sem áður sá partur burðarins, sem að ber, eigi fram úr barminum, sem siginn er niður, en þroti og eymsli koma í hann, má óttast, að hiti og bólga hlaupi í hann, og skal þá þegar vitja læknis til þess að flýta fæðingunni.

Beri það við í fæðingunni að konan fái útsig, þannig að legið að mestu eða öllu leyti sje gengið út fyrir hina ytri fæðingarparta, skal þegar sækja lækni, og á meðan á því stendur, skal yfirsetukonan eigi gjöra annað en styðja legið með því að taka ferhyrndan klút og klippa gat á hann og láta legopið lenda í því, en halda í hornin á klútnum þannig að 2 hornin sjeu fyrir ofan lærin, hin 2 fyrir neðan.

129. grein.

Þegar fæðingunni er lokið, skal konan liggja rúmföst um lengri tíma en vanalegt er og það sakir þess, að mjög er ella hætt við, að legsigið fylgi henni meðan hún lifir. Yfirsetukonan gæti á degi hverjum spröitað inn í leggöngin seyði af eikarberki og ætti að gjöra þetta, þegar 2 vikur væru liðnar frá fæðingunni; verði þetta eigi að neinum notum, skal konan leita læknishjálpar.

---

## Annar kapítuli

*skýrir frá missmíðunum á hinum mjúka fæðingarvegi og á hinum kringum liggjandi pörtum í grindarholinu.*

130. grein.

Opt ber við, að missmíði nokkur eru á *hinum mjúka fæðingarvegi*, en svo má nefna legopið, leggöngin og hina ytri fæðingarparta, og á *hinum kringum liggjandi pörtum* í grindarholinu, og má það verða með mörgum hætti, en slíkt tálmar því, að fæðingin megi verða eðlileg, og skal yfirsetukonan kynna sjer þetta til hlítar, en þó má vera, að eigi standi allajafna í valdi hennar að ráða bót á slíku. Í því skyni skal yfirsetukonan setja á sig það, er þegar mun sagt verða.

1. Hjer að framan höfum vjer skýrt frá, hvernig það má verða, *að hiti og bólga hleypur í legopið*, að *teygjur* koma í það, að það *kiprast saman*, og að barmar þess *færast niður eptir* leggöngunum og stundum út um hina ytri fæðingarparta, en á þessum stað viljum vjer bæta því við og skýra frá, með hverjum hætti það má verða, að barmar legopsins verða *harðir fyrir*

og *togna* eigi þá er höfuðið ber að, en *sigg* og *hnútar* eru hjer og hvar í þeim, og þeir *loða fast saman* með öllu.

Einna minnst tálmar það fæðingunni, þó barmar legopsins sjeu *harðir við komu og togni eigi,* því þá svo stendur á, eru þeir eigi mjög viðkvæmir en fastir fyrir og togna eða víkka út með öllu í fæðingunni með tímanum, en auðsætt er að slíkt verður seinna, en annars mundi verða, þá er allt fer skipulega. Opt ber við að konur, sem komnar eru á efra aldur og eiga barn í fyrsta sinn, eiga vanda fyrir þetta, og togna, þá svo stendur á, miklu síður leggöngin og hinir ytri fæðingarpartar. En optast fer svo, að náttúran ein hjálpar sjer og togna þá allir partar þessir eða víkka út smátt og smátt, en konunni er engin hætta búin, og eigi hefur slíkt önnur áhrif á fæðinguna, en að hún verður langvinnari, en annars mundi hún verða, en yfirsetukonan skal einungis það eitt að gjöra að sjá svo um, að konan hafi fullkomið næði og telja svo um fyrir henni, að eigi komi óþol að henni, og vera má að stundum komi sjer vel að láta volga olíu renna úr spröitunni inn í leggöngin.

En meiri hætta er konunni búin, þá er barmar legopsins eru mjög harðir viðkomu og *sigg* og *hnútar* eru hjer og hvar í þeim; stundum veldur slíku það, að konan um langan tíma hefur átt vanda fyrir allskonar veikindi í leginu eða og kemur sigg í barmana á legopinu sökum þess að konan hefur áður komið hart niður, en rifnað hefur upp í þá. Þá er þannig tekst til, er opt hætt við, að fæðingin takist miður, sökum þess að vera má, að barmar legopsins rifni ef hríðirnar eru mjög á-

kafar, en þeir þola enga hastarlega teygju, og þá svo er ástatt, fer bezt að læknis sje þegar vitjað.

Til hins sama viljum vjer og ráða þá er svo stendur á, að barmar legopsins *loða fast saman,* en slíkt má verða með þeim hætti, að slím nokkurt eða einskonar trefjavefur sezt fyrir legopið og heldur börmum þess föstum saman. Sjaldan ber við, að þannig takist til, en vera má, að einka örðugt sje með vissu að hitta legopið og finna hvar það liggur, og vera má að stundum verði alls ekki fundið til þess þá er því hallar mjög mikið aptur á bak í grindarholinu, og þá svo stendur á, finnst til þess eins og lítillar lægðar nokkurrar á leghálsinum, og er því hætt við, að yfirsetukonan fari með öllu á mis við það. Þá er þannig fer, tekst hríðunum fyrst seint og síðar að víkka legopið út, en vjer höfum reynsluna fyrir oss um það, að optast tekst þó þeim einum að víkka legopið út; og verður þá öll fæðingin úr því að mestu eða öllu leyti eðlileg. Loði barmar legopsins svo fast saman, að hríðunum eigi takist að ná þeim í sundur, þá er hætt við, að legið rifni þá og þegar, sökum þess að öllu hríðaaflinu lendir á legopinu, og þá viljum vjer ráða til að sækja lækni hið bráðasta.

### 131. grein.

2. *Missmíði á leggöngunum.* Með missmíðum þessum má einkum telja, að opt ber við, að *leggöngin eru of þröng*, og tálmar slíkt fæðingunni. Með mörgum hætti verða leggöngin of þröng, og má vera, að þau sjeu svo gjörð af náttúrunni eða og valda því fyrri veikindi í þeim, eða konan hefur áður komið hart niður, og koma þá hnútar og sigg í þau, og vera má, að

stundum grói hjer og hvar saman hinar innri hliðar þeirra.

Enn má því við bæta, að optar koma *bólguhellur* og *þroti* hjer og hvar í leggöngin, og má slíkt verða með mörgum hætti, en þannig verða þau mjórri á þessum stöðum, og tálmar slíkt fæðingunni. Síður er hætt við, að hinir svo nefndu *æðahnútar* tálmi fæðingunni, en vera má, að þeir ýfist upp og úr þeim blæði meðan á fæðingunni stendur. Opt er það, að konan hefur æðahnútana í leggöngunum, þá er þeir eru á fótum hennar og hinum ytri fæðingarpörtum, og sýna þeir sig með þeim hætti, að hjer og hvar þjóta upp rauðleitir nabbar á innanverðum leggöngunum; stundum eru þeir margir saman en stundum einn og einn, og sjaldan eru þeir mjög stórir. Optast tekst svo til, að höfuð burðarins kemst án tálmunar um leggöngin fyrir æðahnútum þessum, en stundum ber við, að þeir springa um leið, og rennur þá allmikið blóð annað hvort út úr leggöngunum, eða og kemur það eigi í ljós, en rennur allt á bak við hliðina á leggöngunum og safnast allt fyrir í hinum ytri fæðingarpörtum, er verða blárauðir útlits, og bólga hleypur í þá og konan hefur varla viðþol. Þá er svo tekst til, er það skylda yfirsetukonunnar að láta þegar sækja lækni eins og þá er önnur mikil missmíði eru á leggöngunum; en hún skal þá að svo miklu leyti í hennar valdi stendur reyna til að stöðva blóðrásina úr leggöngunum, og skal hún þannig með fara: hún skal annað hvort með fingurgómunum eða með saman vafðri ljereptspjötlu, er væta skal í ediki, reyna til að halda fyrir þar, er blóðið rennur úr æðahnútnum og stöðva það með þessum hætti. En ef hún einhverra orsaka vegna eigi getur hitt beint á sárið, þar er blóðið renn-

ur út, skal hún þegar troða upp í öll leggöngin, og viljum vjer síðar skýra frá, hvernig með skal fara þá er svo stendur á.

Enn ber þess að geta, að vera má að konan fái *leggangasig* að sínu leyti eins og legsig meðan á fæðingunni stendur, og verður slíkt með þeim hætti, að nokkur partur þeirra, optast fremri hliðin, fylgir með höfðinu á burðinum út í millum blygðunarbarmanna, og má vera, að slíkt tálmi því, að höfuðið komist í ljós, fyr en seint og síðar, og hins vegar er leggöngunum og opt hætta búin þá er svo tekst til. Þá er svo fer, skal konan liggja í rúminu meðan á fæðingunni stendur, og að svo miklu leyti hún getur að gjört, skal hún eigi reyna til að flýta fæðingunni þá er hríðirnar koma að henni, því slíkt má koma að miklu ógagni; þá er höfuð burðarins er komið næstum því niður að hinu neðra opi grindarinnar, skal yfirsetukonan með tveim fingrum ýta þeim partinum af leggöngunum, sem sígið hefur út, inn á milli blygðunarbarmanna meðan á hríðunum stendur. Eptir fæðinguna dragast leggöngin aptur saman; en bezt fer að konan liggi í rúminu lengur en vanalega, því annars er hætt við að leggöngin sígi aptur, þegar á fætur er komið.

132. grein.

3. Líkt og skýrt var frá hjer að framan um leggöngin, má og vera að *hinir ytri fæðingarpartar* sjeu *of þröngvir*, og má slíku valda það, að þeir eru svo gjörðir af náttúrunni, eða og hefur áður hiti og bólga hlaupið í þá og sár komið á þá, eða blygðunarbarmarnir eru hjer og hvar grónir saman, og tálmar slíkt fæðingunni,

Vera má, að *þroti* og *bólga* í blygðunarbörmunum, er kemur með ýmsum hætti í þá, tálmi að nokkru leyti fæðingunni, og enn má og telja *æðahnútana*, er opt koma á blygðunarbarmana, og er hætt við, að þeir springi í fæðingunni likt og í leggöngunum.

Enn má því við bæta, að optar tálmar það því að höfuð burðarins komi í ljós, að *holdbrúin er venju fremur breið og þykk* og *tognar eigi eða lætur undan* þá er höfuð burðarins þrýstir á hana að innanverðu, en þá er svo stendur á er opt hætt við, að holdbrúin skaddist þá er hríðirnar eru mjög harðar og ákafar.

Missmíði þau, er nú hefur verið skýrt frá um stund, eru því nær öll þess eðlis, að náttúran ein má koma öllu í samt lag aptur, og mjög sjaldan tálma missmíði þessi svo fæðingunni, að sækja þurfi lækni til að ná burðinum. Þá er þannig stendur á, skal yfirsetukonan gæta þess eins að bera olíu á hina þrútnu fæðingarparta eða og baða þá með urtaseyði, og þá er höfuð burðarins nálgast holdbrúna, skal með varúð styðja hendinni utan á hana. En á þessum stað viljum vjer taka yfirsetukonunni vara fyrir að reyna til að þenja út fæðingarpartana með fingrunum eða þrýsta fremri barminum á holdbrúnni aptur fyrir höfuðið á burðinum, fyrir þá sök, að vera má að slíkt eigi einungis komi að neinu haldi, heldur komi það að illu einu, og fæðingarpartarnir skaddist á konunni. Ef svo ber undir, að einn af æðahnútunum springur og hann tekur til að blæða mjög mikið, skal yfirsetukonan með áður sögðum hætti reyna til að stöðva blóðrásina þangað til læknirinn kemur.

133. grein.

4. *Með hinum kringum liggjandi pörtum* í grindarholinu, sem mega tálma fæðingunni, má telja þvagblöðruna og endagörnina.

Þá er svo stendur á, að þvagblaðran er full og út þanin af þvaginu, tálmar hún ein opt fæðingunni, fyrir þá sök, að svo má takast til, að höfuð burðarins á leiðinni um grindarholið þrýsti svo að hinum neðra hluta þvagblöðrunnar, að þess sje alls enginn kostur, að konan megi hægja sjer til kviðarins, og vegna þessa er það svo mikils áríðandi að gæta þess, að láta konuna hægja sjer til kviðarins þegar í byrjun fæðingarinnar, því vera má, að slíku eigi verði komið við síðar, eins og nú var sagt. Finna má til þvagblöðrunnar fyrir ofan blöðrubeinið, og er hún mjög svo út þanin og að lögun eins og hnöttur, en hægt er að aðgreina hana frá leginu, er og kiprast saman í kviðnum, því það er miklu fastara og þrýstnara fyrir en hún. Þá er svo tekst til, er nú var sagt, hefur slíkt þau áhrif á fæðinguna, að hríðirnar eru þjáningarmiklar, óeðlilegar og magnlitlar; fari þessu fram um langan tíma má vera, að hiti og bólga hlaupi í þvagblöðruna, og að síðustu kemur þá kolbrandur í hana eða hún rifnar í sundur, og er þá konunni opt dauðinn vís, eða að minnsta kosti fer svo, að hún eigi úr því má halda þvaginu með sjer, og eigi verður við slíku gjört.

Sökum þess, er nú var sagt, skal yfirsetukonan vandlega gæta þess, að láta konuna hægja sjer til kviðarins þegar í byrjun fæðingarinnar; en takist svo til, að hún eigi hefur gætt þessa, og fæðingunni er svo langt komið, að höfuð burðarins þrengir að þvagblöðrunni svo konan má eigi hægja sjer til kviðarins, má

vera að stundum dugi það eitt, að lypta með einum fingri höfðinu á burðinum frá röndinni á blöðrubeininu. Takist þetta eigi, skal tæma blöðruna með silfurpípunni, en vera má að svo margar torfærur verði á slíku, að læknis aðstoðar við þurfi til þessa.

Hið sama er og að segja þá er svo stendur á, að yfirsetukonan finnur til steins í þvagblöðrunni eða blöðrupípunni um leið og hún kannar konuna um leggöngin, og má vera, að slíkt eigi einungis tálmi því, að konan megi hægja sjer til kviðarins, og eins fæðingunni með ýmsum hætti, heldur einnig að hann valdi því, að þvagblaðran skaddist, ef eigi er sjeð svo um, að annað hvort sje honum ýtt inn í hana eða náð út, áður en höfnðið færist lengra niður eptir grindarholinu. Mjög sjaldan ber þetta við.

Áður er skýrt frá, að einka áríðandi er, að konunni sje sett stólpípa þegar í byrjun fæðingarinnar svo verkir þeir úr görnunum, er áður er sagt, eigi tálmi hríðunum. En ef þess er eigi gætt, má og vera, að tjón nokkurt hljótist af slíku með öðrum hætti, og má til þess telja, að opt ber við, að *svo mikil saurindi eru í endagörninni,* að slíkt eitt tálmar því að nokkru leyti, að höfuð burðarins færist eðlilega niður eptir grindarholinu. Það er því mjög svo áríðandi, að yfirsetukonan setji konunni stólpípu eigi einungis í byrjun fæðingarinnar, heldur skal hún og síðar gjöra það að nýju, þá er fæðingin stendur lengi yfir, og sjá svo um með þessum hætti, að aldrei safnist of mikil saurindi fyrir í endagörninni.

---

## þriðji kapítuli
*um missmíði á grindinni.*

134. grein.

Kalla má að missmíði sjeu á grindinni, hvað lítið sem ber út af hinni eðlilegu lögun og bygging hennar, er með einhverjum hætti tálma fæðingunni eða að minnsta kosti koma því til leiðar, að hún eigi má verða með öllu eðlileg. Missmíði þessi eru stundum í því fólgin, að grindin er eigi jafn rúmgóð eða jafn víð og hún á að vera, stundum eru og missmíði nokkur á lögun hennar, en þess ber að geta, að lögunin, þá hún eigi er eins og hún á að vera, tálmar fæðingunni einungis með þeim hætti, að víddir grindarinnar, er áður er skýrt frá, verða skakkar eða eigi jafnstórar, og þær eiga að vera þá er allt fer eðlilega. Af þessu leiðir þá að skipta má öllum grindum, sem missmíði nokkur eru á, í þrjá flokka, og eru það: I. *of víðar grindir,* II. *of þröngvar grindir,* og III. *skakkar eða illa lagaðar grindir.*

135. grein.

I. Annað hvort er það, að grindin er öll *of víð* eða og er hún *of víð* einungis á sumum stöðum. En þá er svo stendur á, sem nú síðast var getið, tálmar slíkt því nær ekkert fæðingunni, en þá er grindin er öll of víð, ber opt við, að burðurinn kemur í ljós of snögglega þá er hríðirnar eru mjög ákafar, og burðurinn er venju fremur lítill, svo að mótspyrna grindarinnar verður ónóg og fæðinguna ber mjög skjótt að; einnig er hætt við, að konan fái legsig annað hvort meðan á fæðingunni stendur eða eptir hana.

Þá er svo er, að grindin er öll of víð, mun mega fullyrða, að hún er svo gjörð af höndum náttúrunnar, og mörg eru þess dæmi, að grindin er of víð eigi einungis á konum, sem eru mjög stórar, heldur og á meðal kvennmönnum. Sje konan mjög gild um mjaðmirnar og hafi hún áður einu sinni eða optar fætt mjög snögglega, er opt svo, að grindin er víðari en almennt er.

Þá er þannig er ástatt skal yfirsetukonan gæta þess eins að láta konuna leggjast í rúmið þegar í byrjun fæðingarinnar, og ráða henni frá að reyna til að flýta fæðingunni með óþarfa áreynslu meðan á hríðunum stendur, og má vera, að með þessum hætti takist að tálma því, að tjón hljótist af hinni snöggu fæðingu. Enda þótt fæðingin sje vel afstaðin og konan sje alheil staðin upp af sænginni, skal hún þó við hafa alla varúð, því að öðrum kosti er hætt við, að hún fái legsig, sökum þess, að hún annað hvort hefur farið of fljótt á fætur eða hún hefur hreift sig of mikið eða reynt á sig og verið of mikið á stjái.

136. grein.

II. Enn meira tálmar fæðingunni þá er svo stendur á, að grindin er *of þröng*, hvort heldur sem svo er, að hún er öll of þröng, eða hún er það einungis á sumum stöðum og missmíði nokkur eru á lögun og bygging hennar, en þó er eigi alla jafna sagt að svo sje.

1. Vera má, að grindin sje öll of þröng, en jafnþröng á alla vegu, og verða þá stundum alls engin missmíði á lögun grindarinnar, en hún er einungis eigi jafn rúmleg, og hún á að vera. Þess eru og dæmi, að einungis nokkur partur af grindinni er of þröngur, með þeim hætti, er nú var sagt, t. a. m. hið efra og neðra

op grindarinnar. En optar má sjá þess dæmi, að grindin er of þröng á einn veginn og optast er þá svo stendur á einungis nokkur partur af henni þrengri með þessum hætti. Slíku valda missmíði nokkur, sem eru á grindinni, stundum á einum stað, en stundum víðar. Missmíði þau, er verða einungis á nokkrum pörtum af grindinni, eru þessi:

2. Í efra opi grindarholsins þrengist þykktarvíddin þá er spjaldið gengur of langt fram og stundum er einnig blöðrubeinið flatara en venjulegt er. Þessi þrengsli koma optast fyrir og þá einkum á konum, sem á unga aldri hafa haft ensku sýkina. Svo má vera að hinar víddirnar sjeu eðlilegar og stundum jafnvel meiri en venjulegt er; þykktarvíddin í efra opi grindarinnar er stundum 2 þumlungum minni en eðlilegt er.

3. Í sjálfu grindarholinu eða um miðbikið eru þrengslin venjulega um þvermálið, með þeim hætti, að hliðarveggir grindarinnar og einkum setubeinsnibburnar beygjast of mikið inn á við.

4. Í hinu neðra opi grindarinnar verður víddin á þykktina of þröng með þeim hætti, að neðri endinn á spjaldinu gengur of langt fram á við í grindarholinu, eða því er um að kenna, að typpið er eigi sveigjanlegt; eins má vera, að krókarnir á setubeininu liggi hvor of nærri öðrum, og verður grindin því of þröng um víddina um þvert; vera má og að boginn undir blöðrubeininu sje of lítill eða of þröngur, svo að lmakkinn á burðinum eigi komist fyrir í honum þá er hann ýtist upp á við um leið og hinum parti höfuðsins skýtur fyrir fremri barminn á holdbrúnni, en þá svo stendur á, er hætt við, að hún skaddist meira eða minna.

Missmíði þau á grindinni, er nú voru talin, eru öll þess eðlis, að þau eru einungis á tilteknum stöðum í henni, en hjer má og því við bæta, að stundum ber við, þó sjaldan sje, að hjer og hvar finnast *beinhnútar* og *bungur* út úr grindarbeinunum á innri hliðinni, og tálmar slíkt eigi alllítið fæðingunni.

137. grein.

III. Þá er svo stendur á, að eigi eru einungis þau missmíði á grindinni, að hún er of þröng, heldur og eru hins vegar beinin skökk eða undin og liggja eigi eðlilega, má segja, að grindin sje *illa löguð* og *skökk*, og ímynda má sjer, að grindinui sje skipt í tvo parta eptir miðjunni á þykktina, en lögunin verður eigi hin sama á báðum helmingunum, og eigi eru þeir heldur jafnstórir. Sökum þessa, er nú var sagt, verður það skiljanlegt, að sama kona kemur stundum harðar niður, en stundum. En betur fer, að sjaldan ber við, að grindirnar eru mjög skakkar og illa lagaðar, því slíkt veldur því, að fæðingin verður allajafna meira eða minna óeðlileg eptir því sem á stendur.

138. grein.

Það er eitt af tvennu, er optast *veldur því*, að grindirnar eru skakkar og í alla staði illa lagaðar, að annað hvort hefur konan fæðzt svo, eða og valda veikindi og sjúkdómar skekkjunni, og er það optar, að svo er; einkum má telja til þess hína svo nefndu *ensku sýki*, er veldur skekkjunni, er þegar á unga aldri kemur því til leiðar, að eigi einungis beinin í grindinni bogna og færast úr skorðum, heldur bogna og beinin hjer og hvar í líkamanum og skekkjast. Vera má og

að aldraðar konur fái sjúkdóm eða veikindi nokkur í grindarbeinunum, er líkist hinni ensku sýki, og á þetta sjer einkum stað hjá þeim konum, er átt hafa barn einu sinni eða optar; en þess ber að geta, að mjög sjaldan ber slíkt við. En sökum þess má vera, að konur, sem áður hafa alið barn og þá allt farið skipulega, síðar komi hart niður og fæðingin verði í alla staði óeðlileg.

Að lokum viljum vjer geta þess, að vera má að eigi alllitlir hnútar og ójöfnur komi á grindarbeinin eptir *beinbrot í henni*, og verður þá grindin að því skapi þrengri.

139. grein.

Auðsætt er, að mjög svo er áríðandi í tíma að komast eptir, hvort grindin er of þröng eða hún er illa löguð, en vera má, að eigi veiti með öllu hægt að komast nákvæmlega eptir slíku, allra-sízt þá svo er ástatt, að missmíði þessi eigi eru mjög mikil, eða þá er grindin öll er hjer um bil jafn þröng á alla vegu og lögun hennar er með öllu eðlileg. Stundum má vera, að *líklegt þyki* á undan fæðingunni, að missmíði nokkur sjeu á grindinni, til að mynda þá er maður veit, að konan áður hefur komið svo hart niður, að leita hefur þurft læknis, og að konan hefur áður haft hina ensku sýki, og merki þess lýsa sjer hjer og hvar á líkamanum. Merki þess, að konan hafi haft hina ensku sýki, lýsa sjer með þeim hætti: að höfuðið er stórt, en bolurinn er veikbyggður að sjá; göngulagið er hvikult og hún reigist á bak aptur; hún er framsett mjög og kviðsigin; óeðlilegar bugður verða á hryggnum hjer og hvar og á brjóstinu; mjaðmarspaðarnir ganga eigi jafn-

langt upp, og lærleggirnir og fótleggirnir eru mjög svo bognir. Þó hljótum vjer að geta þess á þessum stað, að vera má, að konan sje mjög svo skökk og bjöguð án þess þó að grindin sje skökk og illa löguð eða of þröng, og fyrir þá sök sýna merki þau, er nú voru talin, eigi annað en það, að líkur eru fyrir því, að grindin sje illa löguð, en aldrei má með fullkominni vissu komast eptir slíku af merkjum þessum einum.

Í fæðingunni má ímynda sjer, að grindin sje of þröng þá er höfðinu á burðinum miðar lítið niður eptir grindarholinu eða það kemst alls ekki niður í það, enda þótt hríðirnar sjeu ákafar og höfuð burðarins bafi eðlilega stærð. Hið sama er og að segja um það, að þá eru líkindi til, að grindin sje of þröng, er höfuðið reyndar kemst lítið eitt niður í efra op grindarinnar meðan á hríðunum stendur, en dregst þegar aptur upp úr því er þeim hættir; reyndar tekst hríðunum um síðir, þá er þær eru harðar og koma opt að, að þrengja höfðinu niður eptir grindarholinu, en það verður með þeim hætti, að höfuðbeinin hljóta að ganga mikið á misvíxl, og koma þá og stórir fæðingarsveppar á höfuðið; en þetta allt lýsir því, að grindin sje þröng, og að því leyti má ráða af þessu, að svo sje, þegar í byrjun fæðingarinnar.

Eigi verður með *fullkominni vissu* komizt eptir, að missmíði sjeu á grindinni með öðrum hætti, en þeim að kanna hana, og má slíkt verða að nokkru leyti með því að fara höndum um kvið konunnar að utanverðu, og hins vegar með því að kanna grindina um leggöngin. Þó má vera, að eigi takist með þessum hætti að komast eptir litlum missmíðum á grindinni, og hitt er

víst, að yfirsetukonan þarf að hafa mikla reynslu og æfingu, svo henni eigi skjátli í þessari grein.

Þá er yfirsetukonan fer höndum um kvið konunnar að utanverðu, getur hún komizt eptir, hvort blöðrubeinið er venju fremur flatneskjulegt eða framstandandi, og enn fremur skal hún taka eptir, hvort bungan á spjaldinu muni ganga langt fram í grindarholið, og má slíkt ráða af því, að þá verður lægð mikil inn í spjaldhrygginn á þessum stað, og eins hvort mjaðmarspaðarnir gangi jafn langt upp beggja megin, og hvort eðlilega langt sje á milli þeirra á þverveginn, hvort spjaldið sje venju fremur bogið eða flatneskjulegt, og hvort krókarnir á setubeinunum eigi liggi of nærri hvor öðrum.

Þá er yfirsetukonan kannar konuna um leggöngin, skal hún fara með fingurinn innan um allt grindarholið, og taka eptir, hvort nokkur missmíði verða fyrir henni, og hvort lögun þess eigi er með öllu eðlileg. Með þessum hætti má hún komast eptir, hvort framstandandi nibbur eða bungur og ójöfnur eru innan í grindarholinu, eða og hvort grindin sjálf er of þröng á summum stöðum, og þess ber að geta, að optast er víddin á þykktina í efra opi grindarinnar of þröng þá svo stendur á, að talsverð missmíði eru annars vegar á grindinni á þessum stað. Eigi verður rannsókn þessari komið við svo dugi, þá er höfuðið á burðinum er komið niður í grindarholið. Fullkomin vissa er fyrir því, að víddin á þykktina í efra opi grindarinnar sje of þröng, þá er ná má með fingrinum bungunni á spjaldinu, fyrir þá sök að ónáandi er til hennar þá er grindin er með öllu rjett mynduð og lýtalaus.

140. grein.

Með öllu er auðsætt, *að áhrif þau, er þrengsli hjer og hvar í grindinni hafa á fæðinguna,* fara að mestu leyti eptir því, hve mikil þau eru, en hins vegar fer þó slíkt að nokkru leyti eptir því, með hverjum hætti hríðirnar lýsa sjer, og eins eptir stærð og lögun höfuðsins á burðinum og hve fast eða hart það er fyrir. Þá er þrengslin í grindinni eigi eru mjög mikil, mun opt svo fara, að náttúran ein megi hjálpa sjer, en þó er þess eigi að dyljast, að alla jafna verður fæðingin örðug og langvinn þá er svo stendur á, og vera má, að stundum sje bæði konunni og barninu mikil hætta búin. En þá er þrengslin í grindinni eru mjög mikil, og höfuðið á burðinum annað hvort alls ekki kemst niður í grindarholið, eða það situr með öllu fast í holinu sjálfu og kemst eigi lengra sökum þrengslanna, er með öllu auðsætt, að fæðingin muni standa hjer við í stað þá svo er komið, ef eigi er annara ráða leitað, og opt má vera, að burðinum eigi verði náð nema með hinni mestu fyrirhöfn og áreynslu, og hætt er við, að bæði konan og barnið bíði tjón nokkurt af slíku. Verði burðinum eigi náð þegar í tækan tíma með ráðum, er við eiga, er bæði konunni og barninu dauðinn vís, konunni með þeim hætti, að legið rifnar, eða hiti og bólga hleypur í það og síðast kolbrandur, en barninu sökum þess, að til langframa þrengir um of að höfðinu á því í grindarholinu.

Þá er grindin er of þröng og náttúrunni annað hvort einni um síðir tekst að hjálpa sjer, eða ná verður burðinum með ráðum um þrengslin í grindarholinu, er konunni alla-jafna hætta búin, með þeim hætti, að hún verður mjög máttfarin, hiti og bólga hleypur í leg-

ið, en sár eða og kolbrandur kemur í hinn mjúka fæðingarveg; að þvagblöðrunni þrengir og doði eða hiti og bólga hleypur í hana og eins í legið og konan fær hættulega sængurköldu; að lokum má og geta þess, að um brjóskið losnar, er skeytir saman grindarbeinin, og sje svo, að konunni batni aptur, þá á hún þó alla jafna bágt með að ganga upp frá því.

Þá er svo stendur á, að fæðingin verður með þeim hætti, er nú var sagt, er burðinum að því leyti bætta búin, að legið kreppir of lengi eða of fast utan að bolnum eða naflastrengnum, og eins að sínu leyti sökum þess, að höfuðið mætir svo mikilli mótspyrnu í grindarbolinu, því vera má, að af slíku leiði það, að of mikið blóð streymi að heilanum, og eins það, að höfuðbeinin beygist inn á við eða brotni í sundur.

## 141. grein.

*Læknirinn einn* er fær um að veita hjálp, þá er þannig tekst til um fæðinguna, og skal fyrir þá sök vitja hans svo fljótt, sem verða má, og bezt fer, að yfirsetukonan láti þegar sækja hann áður en fæðingin byrjar, ef henni annars vegar þykja líkindi til, að missmíði nokkur sjeu á grindinni. En yfirsetukonan skal einungis gæta þess, þangað til læknirinn kemur, að láta konuna með öllu halda kyrru fyrir í rúminu, og enn fremur sjá svo um, að hún hafi góðar hægðir til baks og kviðar. En hitt skal hún með öllu varast að reyna til að magna hríðaaflið með nokkrum hætti, og eins skal hún gæta þess að láta eigi fæðingarsveppinn, er óðum eykst, villa fyrir sjer, svo hún haldi, að höfuðið þegar sje komið langt niður eptir grindarholinu og í trausti til þessa skjóti á frest að láta vitja læknis.

142. grein.

Bezt þykir við eiga á þessum stað að skýra frá, hvernig *leggöngin og legið rifnar*, en sú er optast orsökin til þess, að grindin er of þröng og fæðingin stendur í stað, en hríðirnar eru á hinn bóginn mjög ákafar og harðar. Þó má vera að legið rifni og annað valdi því, svo sem til að mynda þá er þess eigi hefur verið gætt að snúa burðinum við, ef hann liggur skakkur, þá er illa tekst og óhönduglega að snúa honum við, og þá er konan biltist óstjórnlega eða reynir um of á sig meðan á hríðunum stendur. Til eru og þess dæmi, að legið rifnar um meðgöngutímann eða í fæðingunni, án þess nokkur sýnileg eða þreifanleg orsök sje til þess, og þá svo stendur á, hlýtur það að valda því, að legið rifnar, að veikindi nokkur hafa komið í trefjavefinn í leginu, er hefur haft þau áhrif á hann, að hann er hjer og hvar orðinn stökkur.

*Merki þau,* er lýsa því, að legið muni vera rifnað, eru þessi:

Konan finnur snögglega til sárrar þjáningar og verkja á einum stað í kviðnum meðan á einni hríðinni stendur, og eins finnst henni sem eitthvað rifni í kviðnum, en hríðirnar hætta optast þegar með öllu. Að vörmu spori dregur allan mátt venju fremur af konunni, hún fölnar sem nár og hræðsla kemur að henni; hún kvartar um máttleysi og fær velgju og henni verður illt fyrir hjartanu; hún fær uppköst og hendur og fætur verða kaldar á henni; lífæðin er óð en lin, og eigi er þess langt að bíða, að konan fellur í öngvit hvað eptir annað. Meðan á þessu stendur, hefur og kviðurinn breytzt, og er hann nú orðinn linur viðkomu,

og glöggt má finna til nokkurra parta af burðinum með því að fara höndum um hann að utanverðu, og ber það til þess, að partar þessir eru nú komnir um rifuna á leginu út í kviðinn. Sá partur burðarins, er fyrst ber að í fæðingunni, dregst nú þegar lengra upp eptir kviðnum, ef hann annars vegar eigi var áður kominn niður í grindarholið og situr þar fastur, og er þá úr því ónáandi til hans, eða finna má til hans utan á kviðnum langt fyrir ofan efra opið á grindarholinu. Almennast er, að blóðlát mikið sje því samfara þá er legið rifnar, en blóðið rennur eigi alla jafna út um hina ytri fæðingarparta, heldur rennur það stundum allt inn í kviðinn og nemur þar staðar.

Þá er svo tekst til, að legið rifnar, verður optast sá endir á, hverra ráða sem svo er leitað, að konan deyr að nokkrum stundum liðnum eða eptir einn eða mest tvo daga. Mjög sjaldan hefur það tekizt að bjarga lífi konunnar, en slíkt má einungis takast með þeim hætti, að legið dregst saman af sjálfu sjer og rifan um leið, þá er búið er að ná burðinum og fylgjunni, og síðar grær þá rifan saman. Nokkru minni hætta er konunni ef til vill búin, þá er leggöngin rifna, og hvort heldur sem það er legið eða leggöngin sem rifna, er hjálpin, sem hægt er að veita konunni, að mestu leyti í því fólgin, að reyna til að ná burðinum og fylgjunni, og má slíkt almennast verða með þeim hætti, að snúa burðinum við og síðar toga hann út og fylgjuna með, og skal þegar gjöra tilraun þessa, er vart verður við, að legið er rifnað. Skal fara linlega og gæti lega að þessu, og eigi er það tiltökumál, nema því að eins að höfuðið sje hreifanlegt. Mjög sjaldan ber við, að höfuðið sitji fast í grindarholinu þá er legið rifnar,

en þá svo er, verður að ná burðinum með töng. Þá er með öllu auðsætt að brýn nauðsyn ber til, að læknir sje þegar sóttur, því líf konunnar liggur við, en yfirsetukonan hlýtur þó, þegar langt er til hans, sjálf að snúa burðinum við, ef eigi eru þeir örðugleikar á því, er hún eigi getur við ráðið.

---

## Fjórði kapítuli

*um veikindi konunnar, er eigi snerta fæðingarpartana en konuna að öðru leyti.*

### 143. grein.

Það er með öllu auðsætt, að eigi á við á þessum stað að telja upp og skýra frá öllum þeim veikindum og sjúkdómum, er vera má, að barnshafandi konur hafi samfara fæðingunni, ef þau annars vegar hafa engin skaðvæn áhrif á fæðinguna, heldur viljum vjer á þessum stað einungis skýra frá veikindum þeim, er annað hvort aukast svo og magnast meðan á fæðingunni stendur sökum áreynslunnar, að konunni er lífsháski búinn af þeim, eða og veikja þau eða eyða hríðunum að mestu eða öllu leyti, og hafa þannig í báðum tilfellunum skaðvæn áhrif á fæðinguna og tálma henni; viljum vjer nú telja upp hina helztu sjúkleika og kvilla, er vera má, að tálmi fæðingunni, eins og nú var sagt.

### 144. grein.

*1. Velgja og uppköst.*

Eigi ber það sjaldan við, að konan fær uppköst

meðan á fæðingunni stendur, og er það stundum slímkennt, stundum galliblandað sem gengur upp úr henni; eigi má álíta þetta sem skaðvænt, heldur ber opt við, að henni eins og ljettir allri á eptir, og er fyrir þá sök opt ráðandi til fremur að æsa velgjuna, heldur en deyfa hana, t. a. m. með því að drekka volgt vatn, blóðbergsseyði eða jafnvel seyði af vallhumli eða ærupris, ef til er. Stundum er orsökin sú að konan hefur borðað mikið, rjett áður en hún lagðist á gólf. En öðru máli er að gegna, þegar svo stendur á, að fæðingin er örðug og langvinn, en konan þjáist af velgju og uppköstum. Þetta kemur þannig stundum fyrir þá er samdrættirnir í móðurleginu eru mjög sárir og konan fremur taugaveik fyrir; en jafnfljótt og hinum sáru samdráttum linnir, lina og uppköstin. Hættulegri eru uppköstin þá er þau verða blóðlituð eða það er mestmegnis blóð, er gengur upp; verður konan þá mjög máttfarin og aflið dregur úr hríðunum, og skal yfirsetukonan með öllu móti leitast við að stöðva þau. Til þessa mætti gefa konunni 10-15 dropa af einföldum ópíumsdropum í spænivatns aðra hverja klukkustund, leggja ískalda vatnsklúta á hjartagrófina eða bera ópíumsáburð á kviðinn að ofanverðu: og sje þetta á vetrum, þá láta hana smátt og smátt gleypa smámola af tærum ís, því við það stöðvast uppköstin opt. Líka er það einkar gott, ef ómögulega verður náð til læknis, að leggja svo sem spesíustóra spanskflugu rjett neðanvert við flagbrjóskið; stundum stöðvast allhörð uppköst og við seyði af rjúpnalaufum; opt fer svo, að eigi kemur þetta að neinu gagni, og er þá ráðlegast, ef kostur er á, að leita læknis þegar í tíma.

Einka miklar gætur skal yfirsetukonan hafa á því, ef konan er kviðslitin og uppköstin eru mikil, því vel

má vera að bólga sje hlaupin í kviðslitið og uppköstin orsakist af því, og er það mjög hættulegt. Sje konan kviðslitin og hafi um meðgöngutímann haft umbúðir, skal hún taka þær af sjer, þegar hún er lögzt á gólf og meðan hún liggur á sæng. Meðan á hríðunum stendur skal yfirsetukonan eða annar kvennmaður, er hún hefur sjer til aðstoðar, með lófanum eða samanlögðum klút styðja á þann stað, er kviðslitið er, svo það eigi gangi út. Gangi nú kviðslitið eigi að síður út, eða kvarti konan um eymsli á þeim stað, án þess að neitt beri á kviðslitinu, eða fái hún mjög tíð uppköstin, þá er hætt við að bólga sje hlaupin í það. Ef yfirsetukonunni nú eigi tekst að koma kviðslitinu inn, er brýn nauðsyn á að flýta fæðingunni og skal því vitja læknis. En verði nú ómögulega náð til læknis, þá skal yfirsetukonan fyrst af öllu reyna kalda bakstra við kviðslitið, og viðhafa menn til þess ís í blöðrum á vetrum, en hjálpi þeir alls eigi, er enn reynandi hvort volgir bakstrar eigi lini verkinn. Hjer á landi vex ópíumstegund ein, sem heitir holtasóley. Jurt þessa má taka eins og hún er, vefja hana í ljereptsríju eða klút, og merja nokkuð milli handa sjer, en því næst sje hellt yfir klútinn sjóðheitu vatni, svo að jurtin, sem innan í honum er, eins og hálfblotni við; þetta er gott til að lina verki þegar það er lagt á verkjarstaðinn, og má það vel við hafa í stað ópíums ef það eigi er fyrir hendi.

### 145. grein.

### 2. *Öngvit.*

Það er eigi svo sjaldgæft, að konur, sem eru mjög veikbyggðar og eiga vanda fyrir að yfir þær líði, falli í

öngvit meðan á fæðingunni stendur eða þegar í stað að henni afstaðinni, en optast fer svo, að þær rakna þegar við, og eigi er konunni nein hætta búin. Vera má, að slíkum öngvitum valdi áreynsla og þjáning konunnar meðan á hríðunum stendur, en stundum ber það til þess, að yfir konuna líður, að andrúmsloptið í herbergjunum er óhollt, eða og það, að ofheitt er í því o. fl. þess háttar. Það er slæmur og hættulegur vani, sem opt tíðkast hjer á landi, sumsje það, að menn flykkjast inn í herbergi það, sem sængurkonur liggja á gólfi í, og gjörir það stundum slíkan hita og brælu í herberginu, að þeir, sem aðstoða eiga konuna, og konan sjálf fái eigi nægilegt andrúmslopt. Í kring um sængurkonuna ættu aldrei að vera aðrir en þeir, sem hún nauðsynlega þarf með sjer til hjálpar svo sem t. a. m. yfirsetukonan og 1 eða 2 kvennmenn, sem aðstoða hana. Það getur haft mjög vondar afleiðingar fyrir konuna, ef andrúmsloptið verður of þungt í herbergi því, sem hún liggur í, og þetta getur líka orðið eins skaðlegt fyrir barnið þegar það er fætt eins og konuna sjálfa. Það er eigi svo hægt á vetrum að hleypa nýju lopti inn í herbergið, þegar kuldi er og stormar ganga, án þess að konan kunni að verða fyrir súg, og hefur það stundum ollað brjóstameinum. Nauðsynlegt er samt sem áður að hafa vindsmugu á herbergi því, sem sængurkonan liggur í. Það er öðru máli að gegna á sumrum þegar hiti eða logn eru, því þá er alveg nauðsynlegt að hafa opna glugga einkum ef konunni finnst að sjer ætli að verða ómótt eða henni hættir mjög við öngvitum. Á hinn bóginn skal þegar reyna að lífga konuna við með þeim hætti, að ýra skal köldu vatni í andlit henni, núa ennið og gagnaugun með ediki, halda meðölum, sem hafa

megnan daun upp að vitunum á henni, t. a. m. salmíakspíritus, gefa henni inn nokkra Hoffmannsdropa eða matspón af víni (mætti vera af góðu brennivíni eða rommi), ef henni annars vegar getur runnið niður.

Eigi er þess að dyljast að vera má, að konunni sje hætta búin þá er yfir hana líður hvað eptir annað, sökum þess, að annað hvort hefur hún misst mjög mikið blóð eða sökum þess, að hún er öll mjög svo máttfarin og að fram komin, þá er hún hefur komið hart niður eða fæðinguna hefur borið of snögglega að. Optast fer þá svo, að konan liggur lengi í öngviti, eða yfir hana líður hvað eptir annað, og vera má, að ráð þau, er hjer að framan voru talin upp, eigi stoði, og sje svo, að blóðmissir og blóðrennsli valdi öngvitunum, skal hún þegar leita læknis. En nú getur staðið svo á, að ómögulegt sje að ná til læknis á stuttum tíma og þá skal yfirsetukonan grípa til þeirra ráða, er nú skal segja.

Fyrst af öllu skal hún grenslast eptir, hvort móðurlegið sje mjög útþanið eða eigi, eða hvort það hefur dregið sig saman í kúlu skammt fyrir ofan lífbeinið. Hafi móðurlegið eigi dregið sig saman þá eru öll líkindi til að konunni sje að blæða inn og að móðurlegið sje fullt af blóðlifrum. Yfirsetukonan skal þá fara sem fyrst með hendina upp í móðurlegið til að fullvissa sig um þetta, og er hún hefur náð út öllum blóðlifrunum, skal hún væta hendina í köldu vatni og fara með hana upp í móðurlegið; nú snýr hún hendinni þannig, að handarbakið snúi að legbotninum þar sem legkakan hefur verið, sem vant er að vera annað hvort á legbotninum sjálfum eða nokkuð til annarar hvorrar hliðar. Þegar hún heldur hendinni þannig með fingrunum hálf-

krepptum í lófann, þá getur hún auðveldlega fundið, hvaðan blóðið kemur og þrýstir hún þá handarbakinu á þann stað, til þess að blóðið eins og stöðvist þar við, hvað eð einkum verður bráðlega ef hún með lófanum á hinni hendinni þrýstir utan á kvið konunnar rjett gagnvart hendinni sem er inn í móðurleginu. Á meðan hún gjörir þetta lætur hún hella úr stútmjórri könnu eða katli bunu af ísköldu vatni yfir kviðinn, þar sem móðurlegið er undir og sje bunan látin falla svo sem 2—3 feta hátt frá kviðnum, svo þrýstingurinn af vatnsbununni verði því tilfinnanlegri; meðan þetta er gjört leggur hún hendina, sem hvílir utan á kviðnum, til hliðar konunni, en heldur hinni hendinni, sem í móðurleginu er, kyrri, og linar á þrýstingnum með henni, þegar hún verður þess vör, að legbotninn fer að dragast saman. Til þess að þessi samdráttur verði sem kröptugastur vætir hún hendina, er hún heldur á kvið konunnar, alltaf við og við í köldu vatni og fer hendinni þvers yfir kvið konunnar að utanverðu með nokkrum þrýstingi. Um sama leyti og yfirsetukonan gjörir þetta, er nú var sagt, gefur hún konunni inn blóðstemmandi meðöl hvorn $^{1}/_{4}$ eða hvorn hálfan tíma, unz hún verður vör við að blóðið fer að stöðvast. Hjer á landi höfum vjer jurt, sem bæði stöðvar blóð og líka gjörir samdrátt í móðurleginu; þessi jurt er sortulyngið; seyði af því er tilbúið á þann hátt, að menn hella svo sem svari pela af sjóðheitu vatni á 2 kúffulla matspæni af grænum sortulyngsblöðum, og láti vatnið standa á, unz það hefur dregið kraptinn úr blöðunum, og síðan sía það í gegn um ljerept. Af þessu seyði köldu má gefa konunni 1 matspón hverja $^{1}/_{2}$ klukkustund meðan blóðlátin vara. Enn fremur mætti telja hjer meðal hinna

blóðstemmandi meðala, sem gefa mætti konunni inn, þynnta brennisteinssýru (20—30 dropar í einu) hverja klukkustund eða sem þörf gjörist þar til blóðlátin minnka, og er bezt að gefa þá inn í mjólk eða hafurseyði, eða Hallers súru dropa (5—10 dropar í einu í vatnsspæni) álíka opt og hina áður töldu dropa.

146. grein.

3. *Taugateygjur* (*krampar*).

Einna háskalegastar eru taugateygjurnar fyrir konuna meðan á fæðingunni stendur, sökum þess, að aldrei verður með vissu sjeð fyrir, hver lok þær kunna að hafa, en þó eru þær ekki allajafna jafn hættulegar. Stundum ber við að konan fær taugateygjur þá er líður undir lok meðgöngutímans, en áður en fæðingin byrjar; optar koma þær að henni í byrjun fæðingarinnar eða á hinum síðari köflum hennar, en stundum fyrst þá er fæðingunni er lokið; en optast fer svo, að eigi er hægt að komast eptir, hver orsökin er til taugateygjanna.

Menn hafa orðið þess varir, að hætt er við, að þær konur fái taugateygjur, sem áður en þær urðu vanfærar eða um meðgöngutímann fá einhverja vatnssýkistegund, sem lýsir sjer með bjúg í fótum, þrota í andliti eða bjúg um allan líkamann; það er þá allajafna óhultast fyrir yfirsetukonuna að ráða slíkum konum til að leita læknishjálpar í tíma, því vera má, að hann geti fundið þau ráð, sem varni því, að þetta verði henni að meini um meðgöngutímann eða áður en fæðingin byrjar. Yfirsetukonan ætti alls eigi að vanrækja þetta og halda konunni fastlega til að leita þeirra ráða, sem læknir, þegar þannig er ástatt, kynni að leggja.

Opt ber við, að konan finnur til sárra verkja í

höfðinu og hana svimar rjett áður en hún fær taugateygjurnar, ýmist koma og smáhviður og stingir hjer og hvar í höfuðið og þyngsli í allan líkamann, vindur hleypur fyrir eyrun á henni og henni sortnar fyrir augum, og mjög er henni þungt fyrir hjartanu; stundum lýsir það sjer með þeim hætti, að konan muni fá taugateygjur, að hún verður öll svo sem máttfarin, smáteygjur koma hjer og hvar í andlitið, augun hvolfast um í höfðinu meira eða minna, og stundum kemur hún varla upp einu orði. Vera má, að allt slíkt lýsi sjer, enda þótt konan fái engar taugateygjur síðar, en hitt er þó víst, að allajafna er hætt við, að konan fái þær þá er öll þessi einkenni sýna sig berlega, og allar líkur eru til, að svo fari.

Taugateygjurnar lýsa sjer með þeim hætti, að allur líkaminn kippist til og frá, en konan getur eigi að því gjört og hún veit eigi af sjer; optast koma þær snögglega að henni, og í því þær koma, sýna þær sig með þeim hætti, að konan afmyndast í andlitinu og það þrútnar út og verður blóðrautt, eða og blánar hún og fölnar í andlitinu, augun standa með öllu kyr í höfðinu eða þau hvolfast um meira eða minna, konan froðufellir og nístir saman tönnunum; hún dregur mjög ótt andann og óeðlilega, og eins eru allar hreifingarnar á hálsinum, brjóstinu og kviðnum með öllu óeðlilegar, og ýmist liggja útlimirnir kyrrir, sem ekkert líf væri í þeim, eða og hlaupa ákafar taugateygjur í þá, og vera má, að konan láti stundum saurnum og þvaginu meðan á taugateygjunum stendur. Vera má, að konan liggi með þessum hætti stundum langan en stundum skamman tíma, en ætíð má ganga að því vísu, að síðast dettur hún út af í fasta svefn, og eins er sem hún hrjóti

hátt þá er hún dregur að sjer andann, en þegar hún vaknar við með öllu, kvartar hún um þreytu og máttleysi í öllum líkamanum, en ekkert veit hún af því, að hún hafi liðið í öngvit. Með þessum hætti er öngvitinu lokið, en eigi er þó með þessu sagt, að taugateygjunum sje hætt með öllu, því optast tekst svo til, að konan fær þær að nýju og hún líður í öngvit, og því optar sem slíkt verður, þess styttra verður almennast á milli þeirra, og hætt er við, að konan komi einungis að eins og stundum alls ekki til sjálfrar sín ef slíku fer lengi fram.

Þegar taugateygjurnar taka sig upp aptur, má aðgreina þær frá hinni svo nefndu *niðurfallssótt*, sem stundum kemur fyrir um fæðinguna, einkum eigi konan annars vegar vanda til hennar; en vanalega koma taugateygjurnar í niðurfallssóttinni að eins fyrir í eitt sinn, og eru þær eigi eins háskalegar fyrir konuna.

### 147. grein.

Þá er ákveða skal, hver áhrif taugateygjurnar og öngvitin hafa á fæðinguna, er með öllu auðsætt, að þau fara að miklu leyti eptir því, á hverjum kafla fæðingarinnar þær koma að konunni. Standi svo á, að taugateygjurnar komi að konunni áður en fæðingin byrjar eða fyrst á henni, má vera, að hríðirnar alls ekki sýni sig, eða þær hætti þegar, og eru þá allar líkur til, að konan eigi komist lífs af, ef eigi er þegar læknir sóttur, en vera má, að hann geti ráðið bót á slíku, en að öðrum kosti deyr konan og barnið kemur eigi í ljós. En komi taugateygjurnar fyrst að konunni, þá er langt er liðið á fæðinguna, má opt vera, að hríðirnar haldist eins eptir sem áður, og opt ber við, að konan fær

taugateygjurnar að nýju meðan á hverri hríð stendur, eða og haldast hríðirnar á hinn bóginn án þess að taugateygjurnar sjeu þeim samfara og flýta engu að síður fæðingunni, og vera má, að burðurinn komi í ljós meðan eitt öngvitið stendur yfir og opt verður fæðingin alls ekki langvinn. En hins vegar fer þó optast svo, að konan veit alls ekki af því, að barnið er komið í ljós, og vera má, að stundum sje örðugt að sannfæra hana um, að svo sje.

Á hinn bóginn er konunni þó næstum allajafna lífshætta búin þá er hún fær taugateygjurnar, fyrir þá sök, að vera má, að hún deyji meðan á einu kastinu stendur áður enn fæðingunni er lokið, eða og haldast taugateygjurnar enda þótt fæðingunni sje lokið, og má vera að hún að lokum deyji úr þeim. En allajafna eru þó meiri líkur til, að taugateygjunum hætti og lífi konunnar verði bjargað þá er fæðingunni er lokið og hún annars vegar hefur þær, og einna mestar líkur eru til, að svo takist til, þá er konan kemur til sjálfrar sín millum þess að hún fær taugateygjurnar og yfir hana líður. Hitt er og víst, að konum þeim er eigi jafnmikil hætta búin af taugateygjunum, er eiga vanda fyrir þær, sem hinum, sem sjaldan eða aldrei hafa fengið þær. Minnst hætta er konunni búin af taugateygjunum þá er þær eigi eru svo ákafar, að yfir hana líður. Á hinn bóginn má og vera, að burðurinn komist opt hætt þá er konan fær taugateygjurnar, einkum ef himnurnar eru rifnaðar, áður en hún fær þær, fyrir þá sök að vera má, að legið allt í einu kiprist fast saman um burðinn, og er hætt við, þá svo tekst til, að blóðið eigi nái að halda hinni eðlilegu rás sinni um líkama hans.

148. grein.

Taugateygjur eru taldar með hinum háskalegustu sjúkdómum, sem vanfærar konur og sængurkonur fái, og telst svo til að allur helmingur þeirra kvenna, sem fyrir taugateygjunum verða meðan á fæðingunni stendur, deyja, og að eins mjög fá börn komast lífs af. Það er því ráðlegast að láta þegar vitja læknis, er konan fær taugateygjur, því að öðrum kosti er hætt við, að yfirsetukonunni einni eigi takist að ráða bót á slíku, og er það því skylda hennar að sjá svo um, að hans sje vitjað þegar ljós merki þess lýsa sjer, að konan muni fá taugateygju. En þangað til að hann kemur, skal yfirsetukonan gæta þess vandlega, að konan eigi skaddist eða fari sjer að voða meðan á taugteygjunum stendur. Hún skal þannig gæta þess, að konan eigi við hastarlega hreifingu detti út úr rúminu og skaddist með þeim hætti, en vera má að svo takist til, ef eigi eru hafðar hinar mestu gætur á henni; þó er á hinn bóginn eigi nauðsynlegt að halda útlimunum allajafna föstum á konunni, og viljum vjer heldur ráða frá, að svo sje með farið. Bezt fer að láta spónskapt eða þunna trjespítu upp í munninn á konunni, en vefja þó fyrst utan um spítuna eða spónskaptið voðfeldri ljereptspjötlu, en með þessum hætti er sjeð svo um, að tungan eigi skaddist þá en konan nístir saman tönnunum í taugateygjunum.

Vera má að takast megi að draga mestu ákefðina úr taugateygjunum með því að taka konunni blóð, og láta henni blæða allmikið, en þó er tvennt athugandi, er svo er með farið, það annað, að öngvitið sje liðið af konunni og taugateygjurnar sjeu að því sinni hættar áður en henni er tekið blóð, og hitt, að hún sje blóð-

rík; síðan mætti leggja dúk, vættan í isköldu vatni, á höfuðið eða leggja á það blöðru með muldum klaka eða halda höfði konunnar fram yfir rúmstokkinn og hella köldu vatni yfir það; sennepsdeig mætti leggja á kálfana og síðan á upphandleggi eða bera crotonolíu á þessa hina sömu staði; setja mætti henni stólpípu pg mætti hafa í henni volga mjólk, og auk þess er opt mikið gagn að því að láta svo sem 15—20 dropa af einföldum ópíumsdropum í stólpípuna. En víst er um það, að varast skal að gefa konunni þau meðöl innvortis, er æsa blóðið, því af slíku leiðir aptur, að það streymir því ákafara að höfðinu.

En hvað fæðingunni sjálfri við víkur, skal yfirsetukonan fyrst framan af einungis gæta þess, er almennt þarf að íhuga við hverja fæðing. En þá er á hana líður og legopið er annars vegar með öllu orðið víkkað út, mun opt bera brýn nauðsyn til, að burðinum sje þegar náð annað hvort með þeim hætti, að snúa honum við þá er höfuð burðarins eigi er enn komið ofan í sjálft grindarholið eða og hægt er að ýta því til og frá í hinu efra opi grindarinnar, en þar á mót skal ná burðinum með tönginni þá er höfuðið er komið langt niður í grindarholið og situr þar fast, og viljum vjer taka það upp aptur, að vera má, að líf konunnar sje í veði, ef eigi er þannig með farið. Áður er skýrt frá að vera má, að svo takist stundum til, að hríðirnar einar gjöri enda á fæðingunni, stundum jafnvel meðan konan liggur í taugateygjunum; en sökum þess viljum vjer ráða yfirsetukonunni til hvað eptir annað að rannsaka konuna, og með þessum hætti komast með vissu eptir, hve langt fæðingunni er komið, og þegar komið er að því, að hún sje á enda, skal hún sjá svo um, að hvorki

sje holdbrúnni nje barninu nokkur hætta búin, því að öðrum kosti má vera að miður takist til.

### 149. grein.

#### 4. *Sjúkdómar og veikindi fyrir brjóstinu.*

Veikindi fyrir brjóstinu tálma mjög svo opt fæðingunni bæði sökum þess, að hætt er við, að magnið dragi úr hríðunum þá svo er ástatt, og hins vegar eru og allar líkur til, að hríðirnar valdi því og áreynslan meðan á þeim stendur, að mikið blóð streymi að brjóstinu, og vera má að konunni sje stundum lífshætta búin af slíku. Með veikindum þeim, er valda slíku, má telja, lungnaveiki, hjartveiki, andarteppa og ef konan á vanda fyrir að spýta blóði. Vera má, að lina megi þjáning konunnar nokkuð eitt með þeim hætti að sjá svo um, að hún hafi hátt undir höfðinu og herðunum, og opt má vera að bezt fari, að hún sitji því nær upp við herðadýnu meðan á allri fæðingunni stendur. Takist svo til, að fæðingin verði mjög langvinn eða konan veikist enn meira fyrir brjóstinu, mun bezt fara að láta þegar sækja lækni.

### 150. grein.

#### 5. *Veikindi í kviðnum.*

Hið sama er að segja um veikindi og sjúkdóma í kviðnum, til að mynda vatnssýki, lifrarsýki o. fl. þessh., og opt má vera að slík veikindi tálmi fæðingunni, og með öllu er nauðsynlegt, að læknir sje þegar sóttur. Að öðru leyti er allajafna ráðandi til að konur þær, er þjást af sjúkdómum fyrir brjóstinu eða í kviðnum, þegar fyrst á meðgöngutímanum ráðfæri sig við lækninn um slíkt, fyrir þá sök að opt má vera, að hann megi sjá

um, áður en konan leggst á gólf, að henni eigi verði svo mikil hætta búin eða barninu, enda þótt svo standi á, sem nú var sagt.

## Annar kafli

*skýrir frá, hvernig fæðingin má verða óregluleg, þá er burðurinn einn veldur slíku.*

151. grein.

Vera má, að burðurinn einn valdi því, að fæðingin verður óregluleg, en slíkt má verða með þeim hætti, að hann er annað hvort *of stór* eða *eigi eðlilega skapur*, eða og *liggur hann óeðlilega* eða *burðatalan er óeðlileg*. Viljum vjer nú skýra svo greinilega sem verða má frá hverju þessu sjer.

## Fyrsti kapituli.

*Þá er burðurinn er óeðlilega stór og eigi rjett skapaður.*

152. grein.

Vera má að burðurinn, enda þótt hann sje með öllu vel skapaður, verði mjög stór og mikil fita hlaupi á hann (hann vegur tuttugu merkur og þar yfir), og verður þá fæðingin sökum þessa meira eða minna örðug og langvinn. En hitt er þó reyndar víst, að eigi er í fyrstunni með öllu hægt að ákveða, hvort náttúran ein muni geta hjálpað sjer, eða þess gjörist þörf, að lækn- irinn nái barninu, heldur fer slíkt að miklu leyti eptir því, hve höfuðbeinin eru þykk og föst fyrir, og eins

eptir allri stærð og lögun grindarinnar; enn má því við bæta, að slíkt er og að miklu leyti komið undir hríðunum og undir því, hvernig fæðingin verður. Almennast tekst svo til, að höfuð burðarins tálmar mest fæðingunni á leiðinni um grindarholið þá er burðurinn er venju fremur stor; en á hinn bóginn má og vera, að herðarnar einar eigi tálmi all-lítið fæðingunni, enda þótt höfuðið sje komið í ljós.

153. grein.

Það er með öllu auðsætt, að nauðsynlegt er, að hjálpinni í fæðingunni, þá er höfuðið er of stórt, en grindin er rjett mynduð og eðlilega stór, verði komið við með líkum hætti og þá svo ber við, að grindin er of þröng, en höfuð burðarins hefur eðlilega lögun. Eins er um það, að hinir sömu örðugleikar verða á fæðingunni í báðum tilfellunum. Þá er svo tekst til, að höfuð burðarins annað hvort alls ekki kemst niður í hið efra op grindarinnar, eða það reyndar kemst niður í grindarholið en situr þar fast, enda þótt að hríðirnar sjeu með öllu eðlilegar, þá eru allar líkur til þess, að höfuð burðarins eitt tálmi fæðingunni, sökum þess að það er of stórt, og því nær má yfirsetukonan ganga úr skugga um, að svo sje, þá er hún eigi verður vör við nokkur missmíði á grindinni, og þá er svo stendur á, skal hún þegar í tíma gjöra lækni njósn um slíkt.

154. grein.

Þá er svo stendur á, að höfuð burðarins er komið í ljós, og náttúran ein hefur komið því til leiðar, en herðarnar tálma fæðingunni, skal yfirsetukonan fyrst reyna til að komast eptir, hvort því einu eigi er um að

kenna, að þær liggja skakkar eða með einhverjum hætti óeðlilega á þverveginn, og þá svo er, mun það eitt opt duga að laga þær nokkuð eitt með þeim hætti, að fara skal með öðrum vísifingrinum upp í handarkrikann á burðinum og snúa herðunum þannig meira á þverveginn, og tekst opt, þá svo er með farið, að ná þeim út um hina ytri fæðingarparta. En þess ber að geta, að sjaldan ber við, að herðarnar tálmi fæðingunni þá er höfuðið er komið í ljós. En komizt yfirsetukonan að því, að herðarnar liggi með öllu eðlilega í grindarholinu, en þeim miðar þó ekkert niður eptir því, enda þótt hríðirnar sjeu með öllu eðlilegar og hún reyni til að toga hægt og hægt í höfuðið á burðinum til að ná þeim út, viljum vjer taka yfirsetukonunni vara fyrir að toga fast í höfuðið, fyrir þá sök að vera má, að líf barnsins sje með þessum hætti í veði, en þar á móti skal hún reyna til að ná með vísifingrinum upp í annan hvorn handarkrikann á burðinum, þó skal hún helzt ná í þann handarkrikann, er snýr niður að holdbrúnni, og með þessum hætti má vera, að henni takist hægt og hægt að ná annari öxlinni út um hina ytri fæðingarparta, og tekst þá optast svo til, að hin fylgir þegar á eptir. Takist yfirsetukonunni eigi þetta, skal hún þegar láta sækja lækni.

## 155. grein.

Opt ber við, að *ýmsir sjúkdómar*, einkum vatnssýki, valdi því, að nokkrir partar burðarins, einkum höfuðið og kviðurinn, stækki svo mjög og bólgni allir út, að konan komi hart niður sökum þessa.

*Vatnssýki í höfðinu.* Þá er svo stendur á, safnast vatn mikið innan undir höfuðskelinni, og lýsir það sjer

með þeim hætti, að höfuðið er venju fremur stórt og lint fyrir og saumarnir eru breiðir og hausamótin mjög stór. Vera má, að yfirsetukonan megi komast eptir að svo sje þegar fyrst í fæðingunni, og sjer hún þá um leið, að slíkt muni tálma fæðingunni. En stundum tekst tvo til, að náttúran ein kemur því til leiðar, að fæðingunni lýkur eðlilega, og verður slíkt einkum vegna þess, að höfuðið er svo lint fyrir og beinin í því ganga á misvíxl, og opt tekst svo heppilega til, að barnið fæðist lifandi. Optar fer svo, að burðurinn deyr áður en hann fæðist, og stundum en mjög sjaldan ber við, að höfuðið rifnar meðan á einni hríðinni stendur, og rennur þá vatnið allt út úr því, en það kreystist saman með þeim hætti og skýtur því síðan hæglega út um hina ytri fæðingarparta. En takist eigi svo til, og höfuð burðarins er svo stórt, að hríðirnar eigi ná að kreysta það saman eða koma því niður eptir grindarholinu, þá er eigi annað fyrir, en að ná burðinum með verkfærum, og er fyrir þá sök með öllu nauðsynlegt, að læknir sje þegar sóttur, en sje eigi unnt að ná lækni, þá skal yfirsetukonunni leyfast að stinga gat á höfuðið með oddmjóum skærum, en gæta þess vel og vandlega, að skadda eigi konuna.

Líkur eru til, að burðurinn hafi *vatnssýki í kviðnum* þá er hann kemur í ljós allt upp að honum, en nemur þar staðar, og má þá glöggt finna þá er yfirsetukonan fer höndum um barnið, að kviðurinn er allur út bólgnaður og burðurinn situr fastur enda þótt hríðirnar sjeu með öllu eðlilegar og reki á eptir, og eins þó hægt sje togað í hann. Þegar svo er ástatt getur konan opt og tíðum ekki fætt nema því að eins að vatninu verði náð út, og er þá ávallt bezt að læknir

sje sóttur, en verði með engu móti náð til hans, skal yfirsetukonan stinga gat á kvið burðarins með oddmjóum skærum og þannig hleypa vatninu út. Optast er burðurinn annað hvort dauður áður, eða hann deyr skömmu eptir fæðinguna.

156. grein.

Að lokum má geta þess, að stundum má vera að það tálmi fæðingunni, að burðurinn *eigi er rjett skapaður,* til að mynda þá er nokkrir partar af honum annað hvort eru of stórir eða fleiri að tölu, en þeir eiga að vera. Vera má að börnin sjeu vansköpuð með mörgum hætti, og þannig hafa fæðzt börn með stórum bólguhellum á höfðinu, á hryggnum og annarstaðar á líkamanum, stundum fæðast börn með tveim höfðum eða of mörgum höndum eða fótum, eða og hafa tvíburar fæðzt, er með öllu voru fast grónir saman. Reyndar má sjá þess dæmi, að náttúran ein hjálpar sjer, þó svo standi á, sem nú var sagt, og burðinum skýtur út, en optar verður þó að ná honum með verkfærum, og eigi er hægt að ákveða, hvernig með skal fara, heldur verður slíkt með öllu að fara eptir því sem á stendur. Þá er burðurinn er vanskapaður með þeim hætti, að eigi er neinn partur hans orðinn stærri eða fyrirferðarmeiri, lýkur fæðingunni opt eðlilega, en á hinn bóginn má opt vera, að yfirsetukonan eigi geti með vissu komizt eptir, hvernig á stendur, og getur henni skjátlað í þessu efni, og fyrir þá sök ber brýn nauðsyn til að gjöra lækni njósn um slíkt eins og þá er hvern annan vanda ber að höndum. Hins vegar viljum vjer taka yfirsetukonunni með öllu vara fyrir að dylja konuna þess, þó henni þyki allar líkur til þá er hún kannar konuna, að barnið

sje vanskapað og eins þó hún fái fullkomna vissu um slíkt í fæðingunni sjálfri, og sjálfsagt er að varast að hryggja konuna með því að láta hana sjá hið vanskapaða barn.

---

## Annar kapítuli

*skýrir frá, með hverjum hætti lega burðarins má verða óeðlileg.*

157. grein.

Opt ber við, að *lega burðarins í leginu er óeðlileg* með ýmsum hætti, og tálmar slíkt allajafna meira eða minna fæðingunni, eptir því sem á stendur; en til þess að slíkt megi verða því ljósara, viljum vjer á þessum stað skipta legu burðarins, hver helzt sem hún er, í tvo flokka, en í hvorum flokknum fyrir sig verður þó legan nokkuð frábrugðin hver annari, en þó á hinn bóginn nokkuð áþekk. Flokkarnir eru þessir:

I. Þá er líkami burðarins liggur á lengri veginn í leginu (*lega burðarins á lengri veginn*), og

II. Þá er líkami burðarins liggur um þvert eða á ská í leginu (*lega burðarins um þvert eða á ská*).

Það er mjög verulegur munur á þessum 2 flokkum, því liggi líkami burðarins á lengri veginn, og allt annars kostar fari eðlilega, tálmar ekkert því, að náttúran ein megi hjálpa sjer; liggi líkami burðarins aptur á móti á þverveginn eða á ská, þá er ómögulegt að konan geti fætt hina síðustu mánuði meðgöngutímans, nema því að eins að legu burðarins sje breytt í legu á lengri veginn.

1. *Þá er burðurinn liggur með einhverjum hætti ó-eðlilega á lengri veginn.*

Þá er burðurinn liggur óeðlilega á lengri veginn, má slíkt verða með ýmsum hætti, og vera má að þannig beri fyrst að í fæðingunni annað hvort höfuðið eða neðri hlutann af líkamanum, til að mynda sitjandann, fæturna eða hnjen, og er, þá svo stendur á, fæðingin kennd við þann partinn af líkama burðarins, er fyrst ber að, og mundi mega kalla hana svo: *höfuðfæðing, sitjandafæðing, fótafæðing* og *hnjefæðing.*

Vera má að *höfuðfæðingin* (þá er höfuð burðarins ber fyrst að) sje óeðlileg með ýmsum hætti, svo sem þá er *hvirfilinn* eða *andlitið* eða *aðra hvora hliðina á höfðinu* ber fyrst að.

I. Þá er hvirfilinn ber fyrst að, og fæðingin er óeðlileg.

158. grein.

Þá er hvirfilinn ber fyrst að, verður fæðingin ó-eðlileg með þeim hætti, að annað tveggja ber hvirfilinn skakkt að niður í grindarholið, eða og fylgja með honum annað hvort önnur höndin og stundum báðar, eða annar fóturinn niður eptir grindarholinu.

*Algengast er fæðingin, þá er hvirfilinn ber fyrst að, óeðlileg með þeim hætti*, að hvirfilinn reyndar ber að nokkurn veginn eðlilega í víddina á ská í efra opi grindarinnar, en ennið snýr fram og hnakkinn aptur á við gagnvart hinu íbjúga viki grindarinnar, er liggur gegnt nárabeini því, er ennið snýr fram að.

Hægt er að komast eptir, að hvirfilinn liggur með þessum hætti, með því að kanna konuna um leggöngin, og lýsir slíkt sjer með þeim hætti að finna má til hinna

ferhyrndu hausamóta að framanverðu gagnvart öðru hvoru nárabeininu, og rekja má örvasauminn á ská úr þeim aptur að hinu íbjúga viki grindarinnar hinu megin, og liggja þar eða verða fyrir yfirsetukonunni hin þríhyrndu hausamót. Vera má, að fæðingin verði langvinnari, en annars vegar mundi hún verða, þá er þannig stendur á, en hins vegar tekst þó optar svo heppilega til, að henni lýkur með öllu eðlilega og náttúran ein hjálpar sjer að öllu leyti með þeim hætti, að hvirfillinn snýst við smátt og smátt á leiðinni um grindarholið svo að ennið snýr að síðustu aptur á við, en hnakkinn fram í grindarholinu. Höfuð burðarins snýst þannig við með þeim hætti, að hnakkinn fylgir með hliðarbarminum á efra opi grindarholsins og snýst meira og meira fram á við, en ennið snýst smátt og smátt aptur á við og fylgir með hinum hliðarbarminum í ofra opi grindarinnar í gagnstæða stefnu, og sá endir verður á, þá er höfðinu er með öllu snúið við, að hvirfilinn ber nú eðlilega að, þótt áður væri lega hans óeðlileg, hvort heldur sem hin ferhyrndu hausamót í fyrstunni snúa fram að vinstra nárabeininu, eða þau snúa fram að hinu hægra nárabeini, og í báðum tilfellunum ber hvirfilinn rjett að og fæðingin verður með öllu eðlileg; en áður er skýrt frá þessu, sjá 78. og 79. grein.

Sjaldnar tekst svo til, að hvirfillinn og höfuðið allt færist niður eptir grindarholinu án þess að snúningur þessi verði á því, ef það annars vegar í fyrstunni liggur óeðlilega með áður sögðum hætti. En þá er svo fer, verður fæðingin reyndar í marga staði örðugri, en annars vegar, þá er allt fer skipulega, en optast tekst þó hríðunum að gjöra enda á henni, ef þær eru magnmiklar, með þeim hætti, að ennið ber upp í bogann

undir blöðrubeininu um leið og það smátt og smátt færist niður eptir grindarholinu, og þessu samfara snýst hnakkinn að því leyti við, að hann lendir í lægðinni á spjaldinu. Þannig færist ennið smátt og smátt niður í bogann undir blöðrubeininu og skýtur því um leið nokkuð upp á við, en hnakkanum skýtur að síðustu fyrir fremri barminn á holdbrúnni, og verður þá lega höfuðsins, er það kemur í ljós, með þeim hætti, að andlitið að nokkru leyti snýr upp að boganum undir blöðrubeininu.

10. mynd.



*Á mynd þessari verður að hugsa sjer hægri hlið grindarinnar tekna burt þannig, að sjá má höfuðið*

*er því skýtur út milli blygðunarbarmanna, og ber hvirfilinn skakkt að.*

Það er með öllu auðsætt, að holdbrúnni er venju fremur hætta búin, þá er fæðingin verður með þessum hætti, sökum þess, að hnakkinn er fyrirferðarmikill, og vegna þessa skal gæta þess, að styðja dyggilega utan á holdbrúna þegar þannig er ástatt.

159. grein.

Í öðru lagi má svo takast til, *að fæðingin verði óeðlileg, þá er hvirfilinn ber fyrst að niður í grindarholið,* og fer þá svo, að hvirfilinn ber að í efra op grindarinnar í þeirri stefnu, sem vídd hennar um þvert liggur, og má, þá svo stendur á, með því að kanna konuna, glöggt finna, að örvasaumurinn liggur um þvert og hin ferhyrndu og þríhyrndu hausamót liggja sitt til hvorrar hliðar í grindinni. Optast tekst svo til, að náttúran ein lagar legu höfuðsins á leiðinni um grindarholið, svo það með öllu ber eðlilega að í neðra op grindarinnar, ef annars vegar ekkert annað tálmar því, að fæðingin megi verða eðlileg. En eru þar á móti hríðirnar magnlitlar, og grindin þröng eða höfuð burðarins er venju fremur fyrirferðarmikið, þá má opt takast svo til, að náttúran eigi má koma því til leiðar, að lega höfuðsins lagist, og stendur þá höfuðið við í stað í grindarholinu á þverveginn og kemst eigi lengra. Þá er svo fer, skal optast ná burðinum með tönginni; en þess ber og að geta, að eins ber og brýn nauðsyn til að svo sje með farið þegar höfuðið situr fast í grindarholinu, enda þótt lega þess sje með öllu eðlileg, en margt má valda slíku, og er fyr skýrt frá því.

160. grein.

Í þriðja lagi má svo takast til, að hvirfilinn ber reyndar með öllu eðlilega að í hið efra op grindarinnar, en með höfðinu fylgir *annað hvort önnur höndin eða þær báðar, en stundum annar fóturinn,* og tálmar slíkt eigi all-lítið fæðingunni, og verður hún bæði langvinnari og örðugri, en venja er til þá er allt fer eðlilega.

Optast er svo til háttað, að *önnur höndin* liggur við hliðina á höfðinu með þeim hætti, að stundum má finna einungis til eins fingurs jafnhliða því, en stundum til allrar handarinnar; en hins vegar má og vera, að eigi verði fundið til handarinnnar fyrst í fæðingunni, sökum þess, að hún eigi liggur svo langt fram með höfðinu, og þá svo stendur á verður eigi komizt eptir að svo sje, fyr en höfuðið kemur í ljós og höndin með. Höndin á burðinum er bæði mjúk og fyrirferðarlítil, og fyrir þá sök er það með öllu auðsætt, að eigi muni hún ein tálma fæðingunni svo nokkru nemi, en öðru máli er þó að gegna þá er svo fer, að höndin öll og nokkur hluti af handleggnum liggur fram undan höfðinu, því, þá svo tekst til, verður mótspyrnan miklu meiri á leiðinni um grindarholið, og vera má, að handleggurinn skaddist. Þá er fæðing burðarins verður með þessum hætti, og höndin liggur fram með höfðinu á honum, skal yfirsetukonan gæta þess eins að láta konuna liggja kyrra í rúminu, og hins vegar viljum vjer vara hana við að toga í fingurna og höndina þá er hún rannsakar konuna, því vera má, að höndin komist lengra fram undan höfðinu með þessum hætti, og tekst þá illa til. Eru hríðirnar ákafar, verður optast sá endir á, að höndin annað hvort kemur í ljós um leið og sjálft höf-

uðið, eða hins vegar kemst höfuðið fram fyrir höndina á leiðinni um grindarholið og skýtur því einu svo út úr því. En þá er yfirsetukonan fyr í fæðingunni kemst að því, að höndin og nokkur hluti af handleggnum liggur fyrir framan höfuð burðarins, skal hún, þá er verður hlje á hríðunum, reyna til með tveim fingrum hægt og hægt að ýta hendinni og handleggnum aptur fyrir höfuðið, og takist henni slíkt, skal hún með hinum sömu fingrum halda við höndina á burðinum þá er hinar næstu hríðir koma að konunni, og skal yfirsetukonan halda slíku fram þangað til höfuðið er komið nokkuð lengra niður eptir grindarholinu, og er þá síður hætt við, að höndin komist að nýju fram fyrir það. Takist eigi yfirsetukonunni slíkt, en hún verður þess vör, að höndin og handleggurinn færist lengra niður fram fyrir höfuðið á burðinum og tálmar fæðingunni, er með öllu nauðsynlegt, að læknir sje þegar sóttur, nema þegar svo stendur á, að höfuðið er enn langt upp í grindarholinu, og hægt er að þoka því til og frá með hendinni, því þá skal yfirsetukonan sjálf snúa burðinum við.

Það, er nú þegar hefur sagt verið, má og heimfæra upp á það tilfelli, en það ber sjaldan við, þá er *báðar hendurnar* liggja fram með höfðinu og bera að í hið efra op grindarinnar með því, en hitt er þó sjálfsagt, að fæðingin verður miklu örðugri og langvinnari, en þá er einungis önnur höndin fylgir með höfðinu, en opt má þó svo heppilega takast til, að náttúran ein megi hjálpa sjer og fæðingin verði að lokum að mestu leyti eðlileg.

Mjög sjaldan ber við, að *annar fóturinn* liggi fram með höfðinu á burðinum og beri með því að í hið efra

op grindarinnar, og optast en þó eigi ávallt er burðurinn þá svo stendur á annað hvort dauður eða hann er eigi fulltíða. Stundum tekst hríðunum einum að koma höfðinu fram fyrir fótinn á leiðinni um grindarholið, og hins vegar má og vera, að yfirsetukonan geti komið slíku til leiðar með því að ýta með tveim fingrum fætinum aptur fyrir höfuð burðarins þá er hlje verður á hríðunum, en þó skal hún við hafa alla varúð, en takist þetta mun fæðingin síðar verða að mestu leyti eðlileg. En heppnist eigi, með hvorugum hætti að lagfæra legu fótarins, en höfuðið og fóturinn með því situr fast í grindarholinu og kemst eigi úr stað, skal yfirsetukonan varast að toga í fótinn, er ráðlegast að sækja lækni, og má vera, að hann geti með tönginni náð höfðinu á burðinum fram fyrir fótinn.

## 2. *Þá er andlitið ber fyrst að.*

161. grein.

Að andlitið beri fyrst að í fæðingunni, getur yfirsetukonan þekkt á því, að þegar hún kannar konuna, verður vanalega fyrst fyrir henni, framan til í grindarholinu annar vanginn, augun og nefið, og öðru megin í grindinni finnst til ennisins og hinu megin finnst til munnsins og hökunnar.

Þá er þannig er ástatt er lega höfuðsins algengast með þeim hætti, að andlitið liggur um þvera grindina, ennið til annarar hliðar, en hakan hinu megin, þó má vera, að eigi veiti allajafna hægt að komast eptir því með vissu, að andlitið beri fyrst að, og einna örðugast er slíkt fyrst á fæðingunni, áður en himnurnar eru rifnaðar og þá er andlitið er enn langt uppi í grindarholinu; og jafnvel síðar á fæðingunni má yfirsetukonunni

skjátlast í þessu efni, og vera má, að fæðingarsveppur, ef hann er stór, villi fyrir henni, og taki yfirsetukonan eigi því betur eptir öllu, verður henni stundum það á, að taka andlitið fyrir sitjandann á barninu, og hefur slíkt optar en einu sinni við borið.

162. grein.

Algengast tekst svo til, þá er fæðingin verður með þessum hætti, að um síðir snýst andlitið þannig smátt og smátt við, en hríðirnar koma því til leiðar um leið og þær reka á eptir öllum burðinum niður eptir grindarholinu, að hakan færist meira og meira fram á við, en ennið að sínu leyti eins aptur á við og fylgir hakan og ennið hliðunum á grindinni. Þessari legu heldur andlitið, þá er það er komið að hinu neðra opi grindarinnar, og ber þá hökuna fyrst að í bogann undir blöðrubeininu, og þokast það nokkuð eitt upp á við, en nokkur hluti af andlitinu kemur þá um leið í ljós millum blygðunarbarmanna, og að lokum skýtur enninu og hvirflinum fyrir fremri röndina á holdbrúnni.

11. mynd.



*Á þessari mynd sjest andlitið, er því skýtur út á milli blygðunarbarmanna.*

Með þessum hætti tekst optast náttúrunni einni að gjöra enda á fæðingunni, en hins vegar stendur hún þó lengur yfir, en þá er hvirfilinn ber eðlilega fyrst að, en varla mun konan eða barnið bíða nokkurt tjón, hvernig sem svo andlitið liggur í grindarholinu, ef annars vegar ekkert tálmar fæðingunni, og hún er að öðru leyti með öllu eðlileg, og hríðirnar eru eðlilega magnmiklar, grindin rúmleg og jafnvíð, og burðurinn eigi er of fyrirferðarmikill. En standi svo á, að fæðingin verði óeðlileg með einhverjum hætti því samfara, að andlitið

ber fyrst að, mun hún og verða venju fremur langvinn og örðug, og hitt er víst, að hættara er við, að burðurinn deyji í fæðingunni þá er þannig tekst til, en þá er hvirfilinn ber skakkt að, og er almennt viðtekið, að sú sje orsökin til þess, að svo fer, að til langframa þrengir að æðunum á hálsinum, og nær þá blóðið eigi tálmunarlaust að halda rás sinni um líkama burðarins. Vera má, að svo mikil missmíði sjeu á grindinni eða hríðirnar sjeu svo óeðlilegar, að náttúran ein eigi megi hjálpa sjer, þá er fæðingin verður með þessum hætti og andlitið ber fyrst að.

163. grein.

En hvað *hjálpinni* viðvíkur, er yfirsetukonan má veita konunni, þá er andlitið ber fyrst að, þá er hún að mestu leyti í hinu sama fólgin og þá er fæðingin er eðlileg. En þó viljum vjer vara yfirsetukonuna við að skadda augun í burðinum, þá er hún rannsakar konuna, og hins vegar skal hún með mestu varúð gæta þess að styðja með hendinni á holdbrúna, en hún er venju fremur út þanin. Að öðru leyti skal yfirsetukonan engan hlut eiga að, heldur láta fæðinguna ráða sjer sjálfa að minnsta kosti meðan burðinum miðar nokkuð niður eptir grindarholinu og hríðirnar eru eðlilegar.

Takist þar á móti svo til, að andlitið nemur staðar í grindarholinu og situr þar með öllu fast um langan tíma einhverra orsaka vegna, þá er líður á fæðinguna, skal þegar sækja lækni til að ná burðinum með tönginni, og hins vegar má og vera, að nauðsyn beri til, að hann sje sóttur fyr í fæðingunni, þá er andlitið einhverra orsaka vegna alls ekki kemst niður í grind-

arholið, en nemur staðar fyrir ofan eða í hinu efra opi grindarinnar, en þá svo stendur á, skal snúa burðinum við.

Að síðustu viljum vjer minna yfirsetukonuna á eigi að láta konuna sjá barnið þegar eptir fæðinguna, þá er það hefur fæðzt með stórum fæðingarsvepp í andlitinu, því það lítur svo út sem væri það vanskapað, og mundi slíkt valda konunni í snöggu bragði mikillar hryggðar. En optast tekst að eyða að mestu leyti bólgunni úr andlitinu eptir nokkrar stundir með því að baða það upp úr köldu vatni eða urtaseyði, og verður þá andlitið að því búnu nokkurn veginn eðlilegt útlits.

### 3. *Þá er hliðar-helminginn af höfðinu ber fyrst að.*

164. grein.

Mjög sjaldan ber við, að höfuðið liggur svo skakkt þegar í byrjun fæðingarinnar, að hliðar-helmingurinn af höfðinu og nokkur partur af eyranu liggur rjett fyrir innan legopið, en hvirfillinn nemur einhverstaðar staðar á grindarbarminum efra. Vera má að slíku valdi skekkja á leginu eða missmíði nokkur á efra opi grindarinnar, en hins vegar ber þó slíkt við, þó eigi sje þessu um að kenna. Eigi er hægt að ákveða, hver lok muni verða á þess konar fæðing. Á hinum fyrstu köflum af fæðingunni er allajafna vonandi, að svo heppilega takist til, að hríðirnar megi smátt og smátt snúa höfðinu svo við, að hvirfillinn að lokum komist niður fyrir barminn á grindinni og beri fyrst að, en þá er slíkt eigi verður þegar fyrst í fæðingunni, má opt vera, að margt tálmi því síðar, að svo megi takast til, og stundum nemur hvirfillinn með öllu staðar á barmi grindarinnar og kemst eigi úr stað en heldur hinni skökku legu, og enda þótt

skekkjan á höfðinu lagist að nokkru leyti, má vera, að stundum dragi svo magnið úr hríðunum, að þær einar eigi megi gjöra enda á fæðingunni. Þá er fæðingin verður með þessum hætti, skal yfirsetukonan haga hjálp sinni eptir því hvað veldur skekkju höfuðsins. Sje það skekkju móðurlegsins um að kenna, þá er þess áður getið, hvernig að skal fara, og er það einkum að láta konuna liggja á þá hliðina, er höfuð burðarins stendur fast á; sjeu missmíði á grindinni, er ráðlegast fyrir yfirsetukonuna þegar í tíma að láta sækja lækni, svo að hann nákvæmlega geti kannað konuna, og síðan afráðið, hvort snúa eigi við burðinum, eða náttúran ein sje fyrst um sinn látin ráða. Að minnsta kosti fer bezt að yfirsetukonan láti sækja lækni þegar hún er búin að reyna allt, sem henni er unnt, en eigi hefur komið að liði.

### *4.—5. Þá er fyrst ber að í fæðingunni sitjandann eða fótinn.*

165. grein.

Þegar svo er ástatt, að burðurinn reyndar liggur á lengri veginn í móðurleginu, en höfuðið snýr upp að legbotninum, en hinn neðri hluti af bolnum snýr niður að legopinu, þá er tvennt til, það annað, að sitjandinn þokar fótunum til hliðar þegar í byrjun fæðingarinnar, og um leið og hann færist lengra niður eptir grindarholinu, leggjast fæturnir upp með bolnum á burðinum, eða hins vegar má og svo fara, að fæturna beri fyrst að í legopinu fram undan sitjandanum. Í fyrra tilfellinu ber þá fyrst að í fæðingunni sitjandann, en í hinu síðara fæturna eða hnjen. — Þegar yfirsetukonan fer höndum um kvið konunnar, má hún

verða þess vísari að svo muni vera ástatt, sem nú var sagt, því hún finnur til höfuðsins í legbotninum, og er það stórt, fast fyrir og sívalt, og þá er verður á milli hríðanna, má taka utan um það og hreifa það til og frá með hendinni. Auk þessa heyrist vanalega til hjartsláttar burðarins ofar á kviðnum, en þá er hvirfilinn ber að, og eru þá einnig nokkrar líkur til, að burðurinn muni liggja eins og sagt var í byrjun þessarar greinar. En það er hjer eins og þegar hvirfilinn ber að, að vissu sína fær hún fyrst þá, er hún kannar konuna um leggöngin, og finnur að sitjandinn eða fæturna bera að í legopinu. Það er því með öllu auðsætt, að þess konar fæðing er mjög lík hver annari í mörgum greinum, og þá er búið er að kynna sjer til hlítar, hvernig fæðingin má verða með þessum hætti, mun mega komast að raun um, að undir sitjandanum einum er mismunurinn kominn að mestu eða öllu leyti, og undir því, hvernig hann færist niður eptir grindarholinu, og hvernig svo sem á þess konar fæðing stendur, má reyndar segja, að hann beri að nokkru leyti fyrst að, en fyrir þá sök má eins kenna fæðinguna við sitjandann, enda þótt fyrst beri að annað hvort fæturna, eða hnjen. Sökum þessa, er nú var sagt, viljum vjer fyrst skýra frá, hvernig fer, þá er sitjandann ber fyrst að í fæðingunni, og síðar frá þeirri fæðing, þá er fæturna eða hnjen ber fyrst að.

### 4. *Þá er sitjandann ber fyrst að í fæðingunni.*

166. grein.

Opt er torvelt að *komast með vissu eptir* þegar í byrjun fæðingarinnar, hvort sitjandann muni fyrst bera að, því bæði er það, að hann liggur opt langt uppi í

grindarholinu, og að nokkru leyti er hann svipaður viðkomu og höfuðið. Síðar í fæðingunni, einkum eptir að himnurnar eru rifnaðar, er optast miklu hægara að komast eptir þessu, því bæði má þá miklu glöggvara finna til sitjandans, og því síður er hætt við, að yfirsetukonan villist á honum og taki hann fyrir andlitið. Með þeim hætti lýsir það sjer, að sitjandann beri fyrst að, að yfirsetukonan finnur til bakskorunnar og þarfagangsins í henni, eða til typpisins og hryggjarliðanna á spjaldinu; eins finnur yfirsetukonan til læranna að ofanverðu, og stundum verður hún vör við sköpin, ef barnið er sveinbarn, og eins við nokkurn part af mjaðmarbeininu. Allt slíkt vottar það, að sitjandann beri fyrst að, og þess ber að geta, að yfirsetukonan má því nær ganga úr skugga um, að svo sje, þá er hún verður vör við grænleitan saur úr endagörninni, er kemur í ljós eptir að himnurnar eru rifnaðar, og er hann opt svo sem kvoðukenndur.

Af einkennum þessum, er nú voru talin, má yfirsetukonan ráða með nokkurri vissu, ef þau annars vegar lýsa sjer glögglega, að sitjandann á burðinum muni bera fyrst að í fæðingunni, og þegar má hún og komast eptir, hvernig hann liggur, og sýna það lærin og typpið, því með öllu má henni ljóst vera, að bæði lærin og neðri endinn á typpinu liggi í hinni sömu stefnu og kviður burðarins. Í marga staði er áríðandi að komast með vissu eptir, hvernig sitjandinn á burðinum liggur, þá er hann ber fyrst að, því fæðingin er að miklu leyti komin undir legu hans. Til skilnings viljum vjer á þessum stað taka fram tvö tilfelli, og verður þá eptir því lega burðarins optast, þá er sitjandann ber fyrst að, þannig:

a) *bakið á burðinum snýr fram í kviðnum á konunni*, og er þessi lega burðarins algengust og allhagkvæm í marga staði, og

b) *bakið á burðinum snýr aptur að hryggnum á konunni*.

En hins vegar snýr þó í hvorugt skiptið hryggurinn eða bakið á burðinum beint aptur eða beint fram í grindarholinu, heldur liggur hann allajafna nokkuð á ská í sömu stefnu og önnur hvor viddin á ská í efra opi grindarinnar.

167. grein.

Náttúran ein getur gjört enda á fæðingunni eins og ef hvirfilinn í fyrstu hefði borið eðlilega að og lega burðarins verið með öllu eins og algengast er hún, þá er allt fer skipulega, en hins vegar er þó með öllu nauðsynlegt, að ekkert að öðru leyti tálmi fæðingunni, en á því sýnir sig einkum mismunurinn á fæðingunni, þá er hvirfilinn og sitjandann ber að, að í hinu síðara tilfelli má opt verða, að burðurinn deyji ef annars vegar nokkuð tálmar henni, en eigi mundi slíkt haft hafa nokkur skaðvæn áhrif á burðinn ef hvirfilinn hefði borið að, og allajafna er hætt við, að burðurinn deyji sökum þess, að of lengi þrengir að naflastrengnum í fæðingunni, þá er sitjandann ber fyrst að. Hættast er við, að svo fari seint í fæðingunni, þá er mestur hluti af bolnum er kominn í ljós, en höfðinu miðar lítið niður eptir grindarholinu, annað hvort sökum þess, að magnið dregur úr hríðunum, eða handleggirnir liggja skakkir og höfuðið eins, eða og önnur orsök tálmar fæðingunni, þá henni er hjer komið, því reynslan hefur sýnt, að viðstaða á þessum kafla fæðingarinnar, sem nemur

5 eða 6 mínútum, má opt valda því, að burðurinn deyji skömmu síðar.

Lega sitjandans má verða með ýmsum hætti, eins og áður er sagt, en þá tekst allajafna heppilega til, er bakið á burðinum snýr að nokkru leyti fram í móðurkvið, og þá svo stendur á, kemur náttúran ein því til leiðar, að allur burðurinn snýst svo við á leiðinni um grindarholið, að bakið að síðustu snýr að mestu eða öllu leyti fram í kvið konunnar. Á líkan hátt snýst og burðurinn við, enda þótt bakið á burðinum snúi að mestu leyti aptur í kvið konunnar í fyrstunni, og er mjög svo áríðandi að svo takist til, því að öðrum kosti er mjög svo hætt við, að naflastrengurinn lendi á milli bolsins á burðinum og blöðrubeinsins, og þrengir þá opt að honum um of, og hins vegar má og opt vera, að handleggirnir tálmi eigi all-lítið fæðingunni, og í þriðja lagi stendur hakan á burðinum opt föst á einhverjum stað á fremri barmi grindarinnar, þá er bakið á burðinum snýr aptur í grindarholinu, og stundum færist hann í legu þessari niður eptir grindarholinu, en optast verður sá endir á fæðingunni, að burðurinn deyr þá er hún verður með þessum hætti.

Af því, er nú hefur verið sagt, má auðsætt verða, að opt fer svo, að náttúran hjálpar sjer með öllu, þá er sitjandann ber fyrst að, en hins vegar þarf og mjög opt að leita annara ráða svo fæðingin megi vel takast, einkum þá er líður undir lok hennar og að því er komið, að handleggirnir og höfuðið komi í ljós, því að öðrum kosti er burðinum opt lífshætta búin. Varla þykir nauðsyn til að geta þess hjer, að síður tekst náttúrunni einni að gjöra enda á fæðingunni þá er konan á barn í fyrsta sinn, en þá er hún hefur einu sinni eða

optar áður alið barn, og sitjandann þá hafi borið fyrst að í fæðingunni.

168. grein.

Misjafnt er það, hve langvinn fæðingin verður, þá er sitjandann ber fyrst að, og fer slíkt að mestu leyti eptir því, hvort bakið á burðinum snýr meira fram eða aptur í grindarholinu.

Standi svo á, *að bakið á burðinum snýr reyndar fram* í grindarholinu, en það liggur þó nm leið nokkuð á ská, eins og áður er sagt, sökum þess, að sitjandann hefur í fyrstu borið að í hið efra op grindarinnar í þeirri stefnu, sem önnur hvor vídd þess á ská liggur, verður yfirsetukonan þess vísari, þá er hún kannar konuna, að annar mjaðmarspaðinn liggur fram á við gagnvart öðru hvoru nárabeininu, en hinn mjaðmarspaðinn liggur fremur aptur á við í þá stefnu, sem hið íbjúga vik grindarinnar liggur; enn fremur lýsir þessi lega burðarins sjer með þeim hætti, að sá mjaðmarspaðinn, er snýr fram, liggur dýpra eða lengra niður í grindarholinu, en hinn, og helzt þessi lega þeirra um alla fæðinguna. Eins er um sitjandann, að hann liggur á líkan hátt á ská á leiðinni um grindarholið, en þó verður slíkt með þeim hætti, að því lengra sem sú mjöðmin, er veit fram að nárabeininu, færist niður eptir grindarholinu, þess meira nálægist sú mjöðmin, er snýr aptur, smátt og smátt bugðuna á spjaldinu. Sje nú komið að því, að sitjandinn kemur í ljós um hið neðra op grindarinnar, þá kemur fyrst í ljós sú mjöðmin, er veit fram í grindarholinu, og ber hana upp í bogann undir blöðrubeininu, en um leið og þetta verð-

ur, kemur allur sitjandinn smátt og smátt í ljós millum blygðunarbarmanna, og að lokum skýtur þeirri mjöðminni, er aptur veit, fyrir fremri barminn á holdbrúnni; það er því auðsætt, að fæðingin verður með líkum hætti, að minnsta kosti hvað legu burðarins viðvíkur, á leiðinni um grindarholið, hvort heldur sem sitjandann eða höfuðið ber fyrst að í fæðingunni, því sitjandann ber að í hið efra op grindarinnar eins og höfuðið, í þeirri stefnu, sem önnur hvor skáviddin liggur í, en á leiðinni um grindarholið verður lega sitjandans eptir víddinni á þykktina, og þessari legu heldur hann þá er honum skýtur út um hið neðra op grindarinnar.

Þegar er sitjandinn er kominn í ljós, kemur hin næsta hríð því til leiðar, að hann snýst með þeim hætti við, að kviðurinn á barninu snýr skáhallt niður að öðru hvoru lærinu á konunni að innanverðu; þessi lega burðarins helzt meðan bolnum á því skýtur út, en hendurnar liggja fram með brjóstinu og fast upp að því, en allur bolurinn liggur og með líkum hætti á ská á leiðinni um grindarholið og herðarnar liggja beinlínis eptir annari hvorri vídd grindarinnar á ská. Síðar fylgir höfuðið og ber það að í hið efra op grindarinnar eptir annari hvorri víddinni á ská, en hakan styðst við brjóstið að ofanverðu. Síðan snýst höfuðið að nokkru leyti við í grindarholinu, og liggur það þá eptir víddinni á þykktina, og opt ber við, að því skýtur snögglega út um hið neðra op grindarinnar með þeim hætti, að hnakkann ber fyrst að í bogann undir blöðrubeininu, en síðar skreppur hakan, andlitið og hvirfillinn fyrir fremri röndina á holdbrúnni.

12. mynd.



*12. mynd sýnir burðinn, er sitjandanum skýtur út milli blygðunarbarmanna.*

En sje svo, *að bakið á burðinum snýr fremur aptur í grindarholinu*, mun þó mega fullyrða, að fæðíngin verði með líkum hætti, og sagt er næst á undan, og hins vegar er og lega burðarins á leiðinni um grindarholið að mestu leyti samkynja legu hans í fyrra skiptið. En þegar er sitjandinn er kominn í ljós um hina ytri fæðingarparta, og snýr þá bakið skáhallt niður á við, valda því hinar næstu hríðir, að allur bolurinn á burðinum snýst við með þeim hætti, að bakið snýr skáhallt upp en kviðurinn niður á við, og er slíkt í alla staði mikils áríðandi; því þá er þannig tekst til, verður fæðingin úr því með öllu jafn eðlileg, og ef bakið á burðinum hefði frá fyrstu snúið fram á við í grindarholinu.

Vera má að burðurinn snúist þannig við nokkru fyr í fæðingunni, áður en sitjandinn er kominn niður í hið neðra op grindarinnar, en stundum verður slíkt fyrst eptir að sitjandinn og nokkur hluti af bolnum er kominn í ljós; en allajafna er mikils áríðandi, að svo takist til, hvort heldur sem slíkt verður fyr eða síðar í fæðingunni, eins og áður er sagt.

169. grein.

Nú viljum vjer skýra frá, hvernig *hjálpinni í fæðingunni* verður komið við þá er þannig er ástatt. Hjer á undan höfum vjer kynnt oss, með hverjum hætti náttúran ein má gjöra enda á fæðingunni; og allajafna er vonandi, að svo takist til, þá er hríðirnar eru með öllu eðlilegar og ekkert annars vegar tálmar fæðingunni. Það er því með öllu auðsætt, að hjálpin í þess konar fæðingu er að mestu leyti hin sama, og væri hún með öllu eðlileg, en þó viljum vjer taka fram fáeinar reglur, er yfirsetukonan skal gæta þegar þannig er ástatt, og er það:

a) Opt verður fæðingin venju fremur langvinn þá þannig tekst til, og einkum seinkar henni fyrst framan af, en hins vegar er mikils áríðandi, að konan eigi þegar í fyrstu eyði kröptunum með áreynslu, er reyndar öll er til ónýtis, en þess gjörist fyrst þörf síðast í fæðingunni, og þá fyrst flýtir slíkt henni; fyrir þá sök skal yfirsetukonan ráða konunni frá, að svo miklu leyti í hennar valdi stendur, að flýta fæðingunni fyrst framan af henni, en herða heldur því öflugara á eptir, þá er komið er að því, að höfuðið kemur í ljós um hið neðra op grindarinnar.

b) Þá er sitjandinn er kominn niður að hinu neðra

opi grindarinnar, skal yfirsetukonan styðja með varúð utan á holdbrúna sökum þess, að henni er allajafna meiri hætta búin þá er sitjandann ber fyrst að, en þá er hvirfillinn kemur fyrst í ljós, og er sú orsök til þess, að sitjandinn er miklu fyrirferðarmeiri, en höfuðið.

c) Sje sitjandinn kominn í ljós og hríðarnar eru að öllu leyti eðlilegar, skal yfirsetukonan varast að toga í barnið eða reyna til að snúa því við, því að öðrum kosti er hætt við, að slíkt einungis tálmi fæðingunni, og einkum má slíkt valda því, að höfuðið og handleggirnir koma síður í ljós. En þar á móti skal yfirsetukonan gæta þess eins vandlega að halda undir sitjandann, þá er hann er kominn í ljós og hylja hann þegar með volgum dúk.

d) Sje allur bolurinn á barninu upp að brjóstinu kominn í ljós, skal yfirsetukonan hvetja konuna til að herða á eptir fæðingunni meðan á hríðunum stendur til að flýta því, að handleggirnir og höfuðið komi í ljós. En standi lengi á slíku og fæðingin verður úr því mjög langvinn, er nauðsynlegt að yfirsetukonan losi handleggina og nái höfðinu með ráðum, er við eiga, sje barnið annars vegar eigi dautt; sje naflinn með naflastrengnum kominn í ljós, má yfirsetukonan ráða úr því, hversu lengi henni er óhætt að bíða við, áður en hún tekur til þeirra ráða, er nú var getið, því meðan æðaslátturinn í naflastrengnum er öflugur, er barninu engin hætta búin; en verði æðaslátturinn í naflastrengnum linur og mjög seinn, er lífi barnsins hætt, og er þá brýn nauðsyn á að ná barninu sem fyrst.

e) Með því að þau börn, sem fæðast sitjanda-fæðing, opt fæðast með litlu eða engu lífsmarki, er það

einkum, þegar svo er ástatt, brýn skylda yfirsetukonunnar að hafa allt það á reiðum höndum, er lífgað getur barnið, og teljum vjer einkum til þess heitt laugavatn.

170. grein.

Að öðru leyti en því, er nú hefur sagt verið, verður hjálpinni í fæðingunni, þá er þannig stendur á, eigi komið við, og hins vegar gjörist þess heldur eigi þörf þegar náttúran ein má gjöra enda á fæðingunni. En þegar svo er ástatt, að magnið dregur úr hríðunum, annað hvort fyrst í fæðingunni eða þegar á hana líður, en grindin er öll fremur þröng og burðurinn fyrirferðarmikill og fæðingunni annars vegar tálmar með ýmsum hætti, svo hjer um bil er útsjeð um, að náttúran ein eigi má gjöra enda á henni, má opt vera, að eigi sje annars kostur, en að ná burðinum í ljós annað hvort að mestu eða öllu leyti. Eins ber og brýn nauðsyn til, að svo sje með farið, þá er svo er ástatt, að annað hvort er líf konunnar eða barnsins í veði, ef eigi er með ráðum fyr gjörður endir á fæðingunni, en hríðaaflið eitt má koma því til leiðar.

Það er með öllu auðsætt, að eigi verður burðiuum náð allajafna með hinum sömu ráðum, heldur verður slíkt að fara eptir því, hve langt sitjandinn er kominn niður í grindarholið.

Standi svo á, að sitjandinn er annað hvort fyrir ofan, eða hann er að eins kominn niður í hið efra op grindarinnar, og hægt er að þoka honum til og frá, en hins vegar beri nauðsyn til, að burðinum sje þegar náð af áður sögðum orsökum, skal yfirsetukonan, líkt og farið er að, þá er burðinum er snúið við, fara með aðra höndina upp um leggöngin og legopið allt að sitj-

anda burðarins; þaðan fer hún með fingrunum upp með lærunum og upp að hnjánum á honum, en að því búnu skal hún reyna til að ná öðrum fætinum, og má slíkt verða með þeim hætti, að hún tekur með einum fingrinum í hnjesbótina, en hinum fingrinum heldur hún utan um hnjen og beygir annan fótinn inn í hönd sjer, fer svo með fótinn niður eptir leggöngunum að hinum ytri fæðingarpörtum. Það er í mörgu tilliti ákjósanlegra að fara að eins með annan fótinn en eigi báða í senn niður eptir leggöngunum, en megi búast við mikilli mótspyrnu eða beri nauðsyn til að ná burðinum sem fyrst, skal helzt ná báðum fótunum saman niður eptir leggöngunum. Síðar (í 177. gr.) viljum vjer skýra nákvæmara frá, með hverjum hætti að svo búnu skal ná burðinum í ljós með því að toga annað hvort í annan eða báða fæturna.

En sje svo, að sitjandinn á burðinum sje kominn langt niður í grindarholið, en hins vegar beri þó nauðsyn til, að burðinum sje þegar náð í ljós, má slíkt verða með þeim hætti, að ná skal með vísifingrunum sinn í hvorn nárann, og toga svo þannig burðinn út um hina ytri fæðingarparta.

Stundum tekst svo til, að mestur hlutinn af bolnum á burðinum og fæturnir koma í ljós án þess hjálpar þurfi við, en handleggirnir fylgja eigi með brjóstinu, en þeir liggja upp með hálsinum og fram með höfðinu, en þá gjörist einungis þess þörf að ná handleggjunum með ráðum.

Enn má því við bæta, að stundum tekst svo til, að einungis verður viðstaða á, að höfuð burðarins komi í ljós, og er þá hjálpin þá svo stendur á í því einu fólgin að ná því með ráðum.

171. grein.

Af því, er nú hefur sagt verið, má með öllu ljóst verða, að öll aðferðin til að ná burðinum, þá er sitjandann ber fyrst að, er að miklu leyti frábrugðin hver annari eptir því sem á stendur, og er slíkt einna mest komið undir því, hve langt hríðirnar eru búnar að koma fæðingunni. En því síður sem hjálpar þarf við, þess betur tekst til, og fyrir þá sök viljum vjer á þessum stað taka það fram við yfirsetukonuna að láta hríðirnar einar ráða, þá er annars vegar hvorki konunni nje burðinum er hætta búin, og bíða þess að sitjandinn komist svo langt niður eptir grindarholinu sem verða má. En á þessum stað viljum vjer einungis vitna til 176. gr. til 181. gr., og er þar skýrt frá, hvernig með skal fara, þá er ná verður burðinum í ljós að mestu eða öllu leyti, en hjer viljum vjer enn því við bæta, að yfirsetukonan skal allajafna gjöra sjer ljóst, með hverjum hætti verða megi meinbugir á fæðingunni, þá er hún verður með þessum hætti, eins og þá er hún annars vegar verður óeðlileg, og verði hún þess vísari, að konunni eða burðinum er nokkur hætta búin, er það allajafna hyggilegast að gjöra þegar lækni njósn um slíkt, ef annars vegar þess er kostur.

### 5. *Þá er fæturna ber fyrst að.*

172. grein.

Stundum fer svo, að fæturna ber fyrst að í fæðingunni, annað hvort annan þeirra eða þá báða, en annar fóturinn liggur í hinu fyrra tilfellinu upp með kviðnum á burðinum, eins og sagt er, þá er sitjandann ber fyrst að; þá er báða fæturna ber fyrst að í fæðingunni má segja, að slíkt sje fótafæðing *að öllu leyti,* en

þá er annan þeirra ber að, segja menn, að hún *sje að hálfu leyti.* Hjer á eptir gjörum vjer að mestu leyti svo ráð fyrir, að báða fæturna beri fyrst að í fæðingunni, en þó viljum vjer ítreka það, að fæðingin verður að öllu leyti með hinum sama hætti, enda þótt einungis annan fótinn beri fyrst að.

173. grein.

Þá er fæturna ber fyrst að, þenst legopið mjög svo seint út, og himnurnar eða belgirnir eru eigi með hinum sama hætti út þandar, eins og þá fæðingin er með öllu eðlileg, og eru þær nokkuð aflangar og mjókka nokkuð, þá er dregur niður að legopinu, en innan undir þeim má finna til nokkurra smáparta af burðinum, en þó má vera, að eigi sje hægt að kanna þá til hlítar, fyr en himnurnar rifna.

13. mynd.



*Mynd þessi sýnir, þá er fæturna fyrst ber að; ímyndi menn sjer nú að fæturnir væru dregnir upp á við, má hugsa sjer, hvernig lega og staða burðarins er, þegar sitjandann fyrst ber að.*

En hins vegar fer vanalega svo, að himnurnar rifna, fyr en venja er til, þá er fæðingin er með öllu eðlileg, og rennur því nær allt legvatnið út, og veitir úr því hægara að komast með vissu eptir, hvernig burðurinn liggur, og síður er þá hætt við, að yfirsetukonan taki höndina fyrir fótinn eða fótinn fyrir höndina. Sumpart má þekkja fótinn á tánum, en þær eru styttri en fingurnir, og hins vegar liggur stóra táin fast við næstu tána, en nokkurt bil er á milli þumalfingursins og hinna fingranna; sumpart má og þekkja fótinn á hælnum, öklanum og jarkanum. Opt ber við, að fótblaðið fyrir neðan ökla beygist upp að mjóaleggnum, og þá svo stendur á, hættir yfirsetukonunni við að taka slíkt fyrir olbogann, en þá er hún fer nákvæmara höndum um fótinn, má hún þó að mestu eða öllu leyti ganga úr skugga um, að eigi sje svo.

En þá er fæturna ber fyrst að í fæðingunni, er það engu síður áríðandi að komast með vissu eptir, hvernig bolurinn á burðinum liggur, en þá er sitjandann ber fyrst að, sem áður er sagt. En lega burðarins lýsir sjer á því, hvernig tærnar og hælarnir snúa, því tærnar snúa, eins og öllum er ljóst í þá stefnu, sem kviðurinn liggur, en hælarnir á bak aptur. En þó verður ekkert með vissu ákveðið um slíkt, fyr en fæðingin er komin svo langt, að fæturnir eru komnir út um hina ytri fæðingarparta og sitjandinn niður í grindarholið, því fyr á fæðingunni má opt vera, að fæturnir eigi liggi með öllu eðlilega í leggöngunum, eða með

öðrum orðum, þeir liggi sumpart skakkir, sumpart á víxl, og hins vegar má heldur eigi með vissu sjá fyrir, hvernig bolurinn á burðinum muni liggja, fyr en hann er vel kominn niður í grindarholið. Á þessum stað viljum vjer því, eins og áður gjörðum vjer, þá er skýrt var frá sitjandafæðingunni, gjöra mun á legu burðarins, þá er fæturna ber fyrst að, en slíkt fer eptir því, hvort:

a) *bakið á burðinum snýr að nokkru leyti fram í grindarholinu,* og er þessi lega hans almennust og hagkvæmust í alla staði, eða

b) *bakið á burðinum snýr að nokkru leyti aptur í grindarholinu.*

Þannig má verða auðsætt, að lega burðarins er með líkum hætti, hvort heldur sem sitjandann eða fæturna ber fyrst að, og eins er og um það, að öll fæðingin verður að miklu leyti með hinum sama hætti í báðum tilfellunum, að því undanteknu, að bolurinn á burðinum færist fljótara niður eptir grindarholinu, þá er fæturna ber fyrst að, sökum þess að lærin, sem liggja upp með kviðnum á burðinum, þá er sitjandann ber fyrst að, gjöra nokkra mótspyrnu á leiðinni um grindarholið.

174. grein.

Áður er skýrt frá, hver endir almennast verður á fæðingunni, þá er sitjandann ber fyrst að, en eins er og að mestu leyti um fæðinguna, þá er fæturnir koma fyrst í ljós, og verður hún því nær með hinum sama hætti. Þá er annars vegar ekkert tálmar fæðingunni, má opt vera, að náttúran ein gjöri enda á henni, án þess konan eða barnið bíði tjón af. En af hinum sömu

rökum, sem áður er sagt, er þó fæðingin, þá er fæturna ber að eins og sitjandafæðingin, eigi jafn eðlileg og hún er, þegar hvirfilinn ber fyrst að. Hins vegar er og fótafæðingin almennast eigi jafn hagkvæm og sitjandafæðingin fyrir burðinn, sökum þess, að þá sitjandann ber fyrst að, víkkar og þenst betur út allur hinn mjúki fæðingarvegur, en af slíku leiðir aptur, að höfuðið kemst hægara út um hann síðar, heldur en þá er fæturna ber fyrst að; eins er og um það, að lærin á burðinum liggja upp með kviðnum á honum, þá er sitjandann ber fyrst að, og þrengir með þessum hætti síður að naflastrengnum á leiðinni um grindarholið, en annars vegar er mjög hætt við, að blóðrásin um hann stöðvist, og hlízt opt tjón af slíku. Af þessum rökum má og auðsætt verða, og hins vegar staðfestir og reynslan slíkt, að sú fæðing verður með öllu eðlilegri, þá er einungis annan fótinn ber að, en þá er þeir koma báðir saman í ljós, en fæðingin er þó reyndar með mjög svo líkum hætti í báðum tilfellunum.

## 175. grein.

Áður höfum vjer skýrt frá, hvernig *með skal fara,* þá er fæðingin verður með þeim hætti, að sitjandann ber fyrst að, en hinu sama máli er og að gegna, þá fæturna ber fyrst að, því almennast tekst svo til, að náttúran ein má gjöra enda á fæðingunni, og bezt fer að eiga eigi hlut að, ef annars vegar ekkert tálmar fæðingunni og hríðirnar eru að öllu leyti eðlilegar og yfirsetukonan sjer gjörla, að hvorki er konunni nje barninu nokkur hætta búin. En þó ber þess að geta, að yfirsetukonan skal gæta vandlega að naflastrengnum, og skal hún í því skyni, þegar burðurinn er kominn í

ljós upp að sitjanda, reyna til að komast eptir, hvort hann liggur milli læranna (*hvort burðurinn liggur klofvega á naflastrengnum*), og verði hún þess vísari, skal hún með varúð toga í þann partinn af naflastrengnum, sem liggur með bakinu á burðinum, og má vera, að hún með þessum hætti geti gjört lykkjuna svo stóra, að smeygja megi öðru hnjenu á burðinum út úr henni. Þá er sitjandinn er kominn í ljós og naflastrengurinn annars vegar liggur upp með kviðnum á burðinum, skal yfirsetukonan taka um hann hægt og hægt með tveim fingrum, og toga hann nokkuð eitt út, en með þessum hætti er svo sjeð um, að síður er hætt við, að hann slitni eða togni meðan á fæðingunni stendur.

Annara ráða þarf eigi að leita, þá er fæturna ber fyrst að, nema svo standi á, sem sagt er um sitjandafæðinguna, en þá má vera, að aðferðin sje að nokkru leyti hver annari frábrugðin, eptir því sem á stendur, og fer slíkt eptir því, hvort ná verður öllum burðinum með ráðum, en sjaldnar ber við, að þess gjörist þörf, eða og fyrst ber nauðsyn til, að svo sje með farið, þá er líður á fæðinguna, og þarf þá einungis að ná handleggjunum og höfðinu í ljós, og opt ber brýn nauðsyn til þess, því að öðrum kosti er líf burðarins í veði. Auðsætt er að lífi burðarins er hættara, þá er fæturna ber að í fæðingunni, en þá er sitjandinn kemur fyrst í ljós, og eins þarf optar hjálpar við, þá svo stendur á, en áður höfum vjer skýrt frá, með hverjum hætti fótafæðingin eigi er jafn eðlileg og sitjandafæðingin.

Þá er *hnjen fyrst ber að* í fæðingunni, hafa menn skoðað það skylt fótafæðingunni. Þegar svo er ástatt, finnst til annars eða beggja hnjánna með hnjeskelinni, sem er lítil og eins og kringlótt. Það er

reyndar mjög svo sjaldan að hnjen beri fyrst að í fæðingunni, og með því fæðingin að öllu leyti er mjög lítið frábrugðin fótafæðingunni, skulum vjer hjer eigi fara um hana fleirum orðum.

---

Hjer segir, hvernig ná skal burðinum í ljós, þá er fæturna eða sitjandann ber fyrst að í fæðingunni.

176. grein.

Áður er skýrt frá, með hverjum hætti það verður, að nauðsyn ber til að ná burðinum í ljós með ráðum, þá er fæturna eða sitjandann ber fyrst að í fæðingunni. En á þessum stað viljum vjer skýra frá, hvernig ná skal burðinum í ljós þegar þannig er ástatt, og þess annars vegar gjörist þörf, og fyrst viljum vjer þá geta þess, hvernig ná skal burðinum, þá er fæturna ber fyrst að, en þar á eptir skýrum vjer frá aðferðinni til að ná burðinum, þá er sitjandinn kemur fyrst í ljós.

*Hjer segir, hvernig ná skal burðinum í ljós, þá er fæturna ber fyrst að í fæðingunni.*

177. grein.

Til þess því ljósara megi verða sagt frá aðferðinni til að ná burðinum í ljós, viljum vjer skipta henni í þrjá kafla, og viljum vjer fyrst skýra frá, hvernig ná skal burðinum í ljós upp að herðunum, í öðru lagi, hvernig ná skal handleggjunum, og í þriðja lagi, hvernig ná skal höfðinu í ljós.

a) *hvernig ná skal burðinum í ljós upp að herðunum.* Fara skal með aðra höndina inn í leggöngin,

og taka með henni utan um báða fæturna með þeim hætti, að hælarnir liggi innan í lófanum, en löngutöngina skal leggja millum mjóuleggjanna fyrir ofan öklana, og halda með hinum fingrunum utan um öklana; þá er búið er að ná þessu haldi á fótum burðarins, skal hægt og hægt toga þá út um hina ytri fæðingarparta. Þegar er náð verður til hnjánna, skal taka með hinni hendinni utan um þau með líkum hætti, og gjört var um öklana, með þeim hætti, að hnjen liggi í lófanum, og að því búnu skal ná burðinum út upp að sitjanda, ef annars vegar það eigi tálmar, að naflastrengurinn er flæktur millum fótanna á burðinum, því þá svo stendur á, verður fyrst að greiða úr honum með áður sögðum hætti. Þá er sitjandinn er kominn niður að hinu neðra opi grindarinnar, skal taka sitt með hvorri hendi utan um mjaðmirnar, með þeim hætti að taka skal með vísifingrinum í nárann, en halda þumalfingrinum aptur á hryggnum, en að því búnu skal hægt og hægt toga burðinn niður eptir upp að herðunum, en þess eins ber að gæta, þá hjer er komið, að gefa vandlega gætur að naflastrengnum, þá náð verður upp að honum, og vita, hvort eigi eru snurður á honum eða hann liggi óeðlilega og togni, því þá skal þegar lagfæra hann. Standi svo á, að lega burðarins sje með þeim hætti, að bakið snýr meira aptur í grindarholinu, og tekst þá síður til, skal enn fremur gæta þess, þegar er sitjandinn er kominn í ljós, að snúa burðinum við, svo bakið snúi fram á við, ef náttúran ein eigi áður er búin að koma slíku til leiðar, en þannig skal með fara: taka skal með báðum höndunum utan um mjaðmirnar og snúa svo burðinum hægt og hægt við, þangað til bakið snýr að mestu leyti fram, en kviðar-

inn aptur, og þess ber að gæta að snúa burðinum við til þeirrar hliðar, sem snúningurinn verður styttri. Þegar búið er að snúa burðinum að öllu leyti við, skal halda hinu fram, og ná burðinum í ljós upp að herðunum.

Þess ber að gæta að hylja burðinn jafnóðum og hann kemur í ljós með heitum og voðfeldum dúk.

178. grein.

b) Þegar handleggirnir á burðinum liggja upp með hliðunum á höfðinu, skal almennast *ná þeim í ljós* með þeim hætti, að yfirsetukonan nær hægri handleggnum með hægri hendinni, en vinstri handleggnum með hinni vinstri hendi, og algengast er að ná fyrst í ljós þeim handleggnum, er næst liggur eða veit niður að holdbrúnni. En þannig skal með fara, þegar ná verður handleggjunum annars vegar í ljós: með annari hendinni skal lypta líkama burðarins nokkuð eitt upp til hliðar, en um leið skal fara með vísifingur og löngutöng upp með bakinu á burðinum fram fyrir herðarnar allt að upphandleggnum og svo fram að olboganum; þar nemur yfirsetukonan staðar með fingurna, en þumalfingrinum heldur hún í olbogabótinni. Þá er hún með þessum hætti er búin að ná traustu haldi utan um olbogann, skal hún síðar draga handlegginn á burðinum að sjer, en láta hann þó með öllu halda legu sinni, fram hjá andlitinu og brjóstinu og svo út um hina ytri fæðingarparta, og leggja hann síðan til þeirrar hliðar á burðinum, sem hann á að liggja við. Síðar skiptir yfirsetukonan höndum, og nær hinum handleggnum í ljós með hinum sama hætti, sem nú var sagt. En þá er burðurinn annað hvort eigi er orðinn fulltíða eða rotn-

un er komin í hann, mun bezt fara að ná einungis öðrum handleggnum í ljós, en láta hinn fæðast með höfðinu, og er þá síður hætt við, að höfuðið detti af burðinum þá er legopið kiprast saman um hálsinn á honum, og hefur slíkt borið stundum við þá er rotnun er komin í hann, en handleggurinn kemur því til leiðar, að eigi tekst þannig til.

Liggi annar hvor handleggurinn á bakvið blöðrubeinið upp með hnakkanum á burðinum, og örðugt er að ná honum í ljós sökum þessa, skal taka yfir um bakið og brjóstið á burðinum, en þó með mestu varúð, og svo sem lypta öllum líkamanum nokkuð upp á við í grindarholinu, en um leið skal snúa honum öllum nokkuð til annarar hvorrar hliðar, en með þessum hætti tekst svo til, að handleggurinn dettur til hliðar út frá blöðrubeininu, og er þá úr því hægt að ná honum með venjulegum hætti.

Á þessum stað viljum vjer geta þess, að yfirsetukonan skal allajafna gæta þess, þá er ná verður handleggjunum í fæðingunni, að toga eigi í upphandlegginn í staðinn fyrir í olbogabótina, því þá svo tekst til, er hætt við, að burðurinn handleggsbrotni, og eigi eru svo fá dæmi þess, að þannig fer, þá er ógætilega er að farið.

179. grein.

c) *skýrir frá, hvernig ná skal höfðinu í ljós.* Áður höfum vjer sagt, að mjög svo er áríðandi, að höfuð burðarins fylgi þegar á eptir, er bolurinn allur er kominn í ljós, því að öðrum kosti er líf burðarins í veði; og þá fer allt að óskum, er hríðirnar eru magnmiklar og eðlilegar á þessum kafla fæðingarinnar, og fyrir þá

sök er ráðandi til að auka þær, með þeim hætti að núa utan kviðinn á konunni. Opt má vera, að það eitt dugi til að ná höfðinu á burðinum í ljós, að ýta því svo fast sem verða má, niður að brjóstinu og snúa andlitinu nokkuð aptur á við í grindarholinu. En til þess að koma slíku til leiðar, skal yfirsetukonan annað hvort fara með alla höndina eða einungis með þrjá miðfingurna annarar handar inn í grindarholið, og fer slíkt eptir því, hve langt eða skammt höfuð burðarins er uppi í grindarholinu, en með þá höndina skal fara inn í grindarholið, er á við þá hlið burðarins, er snýr fram á við, og skal hún fylgja með brjóstinu og hálsinum allt upp að andlitinu, og með þessum hætti skal yfirsetukonan taka utan um nefið á burðinum, þó svo, að löngutöngina skal hún láta liggja fyrir neðan það, en með þessum hætti kippir hún öllu andlitinu niður að brjóstinu, en um leið skal þoka því aptur á við í þá áttina, sem annað hvort hinna íbjúgu vika grindarinnar liggja eða niður í lægðina á spjaldinu. Einungis þá er miklir örðugleikar verða á slíku, og til þess að koma sjer því betur fyrir, skal yfirsetukonan voga sjer að toga með einum fingrinum í munninn á burðinum, en þó má slíkt allajafna verða með hinni mestu varúð, og eigi skal hún toga fast í neðr ikjálkana, því að öðrum kosti er hætt við, að þeir brotni eða gangi úr lið. Þá er búið er með þessum hætti að koma höfðinu fyrir svo haganlega, sem verða má, svo að hæðin á höfðinu nokkurn veginn samsvarar vídd grindarinnar á þykktina, er fyrst komið í það horf, að ná má höfðinu í ljós, og ber þá nauðsyn til, að yfirsetukonan neyti beggja handanna til þessa, en áður hefur hin höndin einungis lypt burðinum nokkuð eitt upp á við; þessa höndina skal

yfirsetukonan nú leggja flata á bakið á burðinum með þeim hætti, að þumalfingurinn og litli fingurinn liggja sinn undir hvorri hendinni, vísifingurinn og græðifingurinn sinn upp með hvoru herðablaði, og langatöng upp með hálsinum að aptanverðu upp að hnakkagrófinni. Þá er yfirsetukonan er búin að koma báðum höndunum fyrir með þessum hætti, skal hún þegar toga höfuð burðarins að sjer eptir þeirri stefnu, sem miðlína grindarinnar liggur, það er með öðrum orðum, fyrst nokkuð niður á við, síðan fram á við, og síðan nokkuð upp á við, en slíkt fer eptir því, hvert höfuðið er í hinu efra opi grindarinnar, eða í sjálfu holinu eða í hinu neðra opi hennar. Þá er höfuð burðarins nálgast neðra op grindarinnar skal vandlega gæta þess að beita eigi miklu afli, því þá er hætt við að rifni upp í holdbrúna, sje höfðinu kippt of hratt út um hina ytri fæðingarparta.

Einka örðugt má verða að koma höfðinu í ljós, þegar svo er ástatt að andlitið snýr fram á við í grindarholinu, en slíkt má verða sökum þess að eigi hefur verið hirt um að snúa bolnum eða honum eigi hefur verið snúið alveg. Standi nú svo á, sem nú var sagt, má annað hvort reyna að ná utan um hnakkann með annari hendinni eða koma fáeinum fingrum á hlið andlitsins og snúa höfðinu við svo, að andlitið snúi að annari hvorri hlið grindarinnar, og mætti þá á venjulegan hátt beygja það niður að brjóstinu, áður en því er náð út. Sje nú eigi hægt að koma þessu við, skal með báðum höndum taka utan um brjóstið svo nálægt hálsinum, sem verða má, snúa síðan bolnum með mestu varúð til annar hvorrar hliðar í því skyni að höfuðið snúist einnig, eins og optast verður; en um leið og snúið er

bolnum, skal eins og þoka höfðinu lítið eitt upp á við í grindarholinu.

Takist yfirsetukonunni eigi með þessum hætti að ná höfðinu á burðinum út um hina ytri fæðingarparta án þess að beita miklu afli til þessa, mun ráðlegast þegar að hætta allri tilraun um slíkt, og sækja heldur þegar lækni, því hann má þó allajafna gjöra enda á fæðingunni með tönginni. En á þessum stað viljum vjer enn brýna fyrir yfirsetukonunni, að eigi dugir að beita afli til að ná höfðinu á burðinum, þá er þannig stendur á, og höfum vjer áður getið þess á ýmsum stöðum, en hins vegar má með öllu fullyrða, að slíkt má leiða til þess, að bæði konan og burðurinn deyr, ef eigi er öll varúð við höfð í þessari grein.

*Hvernig ná skal burðinum, þá er annan fótinn ber fyrst að í fæðingunni.*

180. grein.

Þá er einungis annan fótinn ber fyrst að, og nauðsyn ber til að ná burðinum í ljós, skal yfirsetukonan toga fótinn að sjer með þeim hætti, að hún skal taka með tveim fingrum utan um öklana, og síðar þá er nokkur hluti af fætinum er kominn í ljós, skal hún taka með allri hendinni utan um mjóalegginn og síðast utan um hnjeð eða lærið. Eins skal toga varlega í burðinn þegar þannig er ástatt, svo eigi skaddist hann um liðamótin, og allajafna skal toga hann með þessum hætti niður á við, en eigi til hliða, og eins ber að gæta þess, að líkami burðarins megi snúast við á leiðinni svo hann síðast liggi eðlilega. Með þessum hætti togar yfirsetukonan burðinn að sjer þangað til ná má upp í annan hvorn nárann eða upp í þá báða sinn með

hvorum vísifingri, en þegar slíku verður komið við, skal hún á þessum stað ná haldi á líkama burðarins og toga síðan bolinn að sjer þangað til sá fóturinn, er fyrst ber að, er með öllu kominn í ljós; en úr því fæðíngunni er hjer komið, verður hún síðan öldungis með hinum sama hætti, og þá er báða fæturna ber fyrst að.

Þegar bakið á burðinum snýr aptur í grindarholinu og hann eigi snýst við af sjálfum sjer um leið og yfirsetukonan nær fætinum og lærinu í ljós með áður sögðum hætti, skal allajafna snúa burðinum við, þá er svo er komið að ná má með vísifingrunum í nárana, en þumalfingrunum skal halda á sitjandanum, og skal snúa burðinum við svo, að bakið snúi að nokkru leyti fram á við, en að því búnu skal ná bolnum í ljós með venjulegum hætti.

### *Hvernig ná skal burðinum í ljós, þá er sitjandann ber fyrst að í fæðingunni.*

181. grein.

Takist svo heppilega til, að bakið á burðinum snúi þegar í fyrstunni fram í grindarholinu, svo eigi gjörist þess þörf að snúa honum við, skal ná honum í ljós með þeim hætti, að ná skal með vísifingrunum sínum í hvorn nárann, en þumalfingurna skal leggja að aptanverðu á spjaldinu og hina fingurna um mjaðmirnar, og þegar búið er að ná þessu haldi á sitjandanum, skal toga burðinn með þessum hætti niður að holdbrúnni, en á leiðinni skal smátt og smátt víkja honum til hliðanna. En svo holdbrúin eigi skaddist, skal nú lypta sitjandanum nokkuð upp á við um leið og honum skýtur fyrir hana, en úr því skal toga bolinn hægt og hægt

út, þangað til fæturnir annað hvort koma í ljós af sjálfum sjer, eða að öðrum kosti skal beygja þá nokkuð saman um hnjáliðina, og ná þeim síðan fyrir barminn á holdbrúnni. Þá er fæðingunni er hjer komið, skal ná hinum parti líkama burðarins og handleggjunum með hinum sama hætti, og sagt hefur verið hjer að framan.

En snúi bakið á burðinum í fyrstunni aptur á við, og þessi lega burðarins hefur eigi af sjálfu sjer lagfærst, áður en sitjandanum varð náð í ljós, skal snúa honum við þegar búið er að ná sitjandanum út fyrir hina ytri fæðingarparta með þeim hætti, að bakið snúi að nokkru leyti fram, og þess ber að gæta, að þannig sje með farið, áður en farið er að ná hinum parti burðarins og handleggjunum í ljós.

Veiti yfirsetukonunni torvelt að ná sitjandanum í ljós, annað hvort sökum þess, að hann liggur svo langt uppi í grindarholinu, að varla verður náð með vísifingrunum upp í nárana, eða hann situr fastur í því með einhverjum hætti, viljum vjer ráða henni til að láta þegar sækja lækni eins og þá hvern annan vanda ber að höndum í fæðingunni.

---

## II. Lega burðarins um þvert og á ská.

### 182. grein.

Það er enginn verulegur munur á legu burðarins *um þvert* og *á ská* í móðurleginu. Í báðum tilfellunum liggur sitjandi burðarins öðru hvoru megin í leginu en höfuðið hinu megin gagnvart sitjandanum. Mjög er það sjaldgæft, að burðurinn liggi með öllu um þvert í

móðurleginu í fæðingunni fyrir þá sök, að þegar legið fer að kiprast saman, sígur annað hvort sitjandinn eða vanalegast höfuðið lengra níður í grindarholinu, og verður þá lega burðarins á ská, en sagt er svo, að hann liggi um þvert, þegar skáhallinn eigi er mikill.

Það er því eigi ástæða til að skýra frá hvoru tilfellinu fyrir sig, og það því síður sem meðferðin í báðum er með öllu hin sama; en fyrir þá sök nefnum vjer bæði þver- og skálegu burðarins, svo yfirsetukonan megi skilja þessi orðatiltæki, er þau koma fyrir.

Sje burðurinn mjög ófullburða og liggi á ská eða um þvert, má vera að sjerhver partur af bolnum beri að í fæðingunni með því ýmist ber að brjóstið eða bakið, ýmist síðan eða kviðurinn. Sje burðurinn aptur á móti fullburða, ber næstum ávallt að í fæðingunni efri hluta bolsins, þannig að fyrir ofan efra op grindarinnar má finna til axlarinnar og þess hluta brjóstsins og baksins, sem næst henni er. Þessi lega burðarins, nefnist *axlarstaðan*, og er hún hin algengasta þá er burðurinn liggur um þvert eða á ská.

183. grein.

Vera má að svo takist til að burðurinn leggist um þvert eða á ská um meðgöngutímann en stundum eigi fyr en í fæðingunni. Það er mjög svo sjaldan að þetta komi fyrir hjá konum, sem eiga barn í fyrsta skipti, en einkum er það, þá er móðurlegið er óvenjulega rúmt, svo sem þegar legvatnið er mikið, eða móðurlegið er mjög lint og teygjanlegt eins og á sjer stað hjá konum, sem optar hafi alið barn.

184. grein.

Opt má vera, að líklegt megi þykja þegar um lok meðgöngutímans og í byrjun fæðingarinnar, að burðurinn liggi öfugt í móðurleginu, jafnvel áður en yfirsetukonan tekur sjer fyrir hendur að kanna konuna og hún með þeim hætti má með vissu komast eptir, hvern partinn af líkama burðarins ber fyrst að í fæðingunni. Líkur fyrir því, áður en fæðingin byrjar, að burðurinn liggi um þvert eða á ská eru þessar: að kviðurinn er eigi allur jafnt út þaninn og svo sem bunga út úr honum miðjum, heldur er fremur flatneskja á honum að framanverðu en venju fremur er hann út þaninn á þverveginn einkum til hliðanna þar sem höfuð og sitjandi burðarins liggja, og má jafnvel opt glögglega finna til þeirra, þegar kviðurinn er kannaður að utan; að hreifingar burðarins hafa verið sterkari en venja er til og sterkastar til beggja hliða í kviðnum; að leghálsinn liggur langt uppi í kviðnum, og eigi verður fundið til líkama burðarins innan undir honum eða og einungis til smáparta hans.

Sje nú aptur á móti *fæðingin byrjuð*, verður yfirsetukonan þess vör, að hríðirnar eru magnlitlar og þeim verður lítið ágengt, að legopið þenst seint og lítið út; himnurnar eru sjaldan út þandar, eins og venja er til, en eru linar viðkomu innan undir legopinu; þær rifna opt snemma í fæðingunni, og nokkur hluti af legvatninu rennur reyndar út, en hitt verður eptir og rennur smámsaman út; enda þótt himnurnar sjeu rifnaðar, má opt vera, að eigi veiti hægt að komast með vissu eptir, hvernig burðurinn liggur; þá er konan er rannsökuð, því opt tekst svo til, að sá partur burðarins, sem fyrst

ber að, liggur annað hvort fyrir ofan eða við efra op grindarinnar.

Þegar sá partur burðarins, sem að ber, er kominn svo langt niður í fæðingunni að náð verður til hans, er optast eigi torvelt að fá fulla vissu um það, hver sje lega og staða burðarins. Beri þannig kviðinn niður, má fá vissu sína um að svo sje, ef finnst til viðbeinsins, brjóstbeinsins og rifbeinanna, eða sje það kviðurinn sjálfur, þekkist hann á naflastrengnum. Beri aptur á móti bakið að, má þekkja það á því að finna má til hryggjarliðanna, en þeir liggja eptir miðju bakinu, og til beggja hliða út frá þeim ganga rifbeinin, og einnig finnst til lendanna.

Vjer skulum hjer skýra greinilegar frá því, hvernig þekkja megi það, að öxlina ber að. Beri öxlina að, má venjulega þegar í byrjun fæðingarinnar finna til hennar eða nokkurs hluta upphandleggsins fyrir innan legopið; stundum tekst svo til að einasta verður náð til olbogans þegar í byrjun fæðingarinnar, en fyrst síðar meir þrýstist öxlin og upphandleggurinn niður að legopinu; eigi ber það sjaldan við að bolurinn liggi svo ofarlega að eigi verði náð til hans með fingrinum, en að eins finnst til axlarinnar eða handleggsins fyrir innan legopið.

Öxlin er til að finna sem hnöttóttur harður partur, talsvert minni en höfuðið, en stærri en hnjeð og má þekkja hana á herðarblaðinu, er liggur í grenndinni, á viðbeininu, handarkrikanum og efra hluta upphandleggsins; efri hluta síðunnar má þekkja á rifbeinunum og hinum linu millibilum, sem eru á milli þeirra. Standi svo á, að öxlin eða handleggurinn liggi nálægt legopinu, þá er hætt við, þegar legopið víkkar út, að

nokkur hluti handleggsins ásamt olboganum eða jafnvel allur handleggurinn sígi niður í leggöngin og út á milli hinna ytri fæðingarparta; takist þannig til, er það að vísu auðveldara að fá vissu sína fyrir því, hvernig burðurinn liggur í móðurlegi, en eigi er þess að dyljast, að meiri vandkvæðum er það bundið að veita konunni hjálp en ella. Yfirsetukonan skal því hafa það hugfast vel og vandlega að gæta þess, er hún rannsakar konuna, að toga eigi of mikið í handlegginn, ef svo er að hann ber að, og eigi skal hún heldur hreifa of mikið við honum, því að öðrum kosti er hætt við, að hann sígi niður í leggöngin og þannig veiti örðugra að ná burðinum.

## 185. grein.

Það má álíta sem almenna reglu, að ná verður burðinum með ráðum, þá er hann liggur um þvert eða á ská, því náttúran ein er eigi fær um að gjöra enda á fæðingunni, meðan þessi lega burðarins helzt og hún eigi er lagfærð. Fyrst verður því að breyta þver- eða skálegu burðarins með þeim hætti, að hann komi til að liggja á lengri veginn, og fyr er engin von um að náttúran megi gjöra enda á fæðingunni; en enda þótt búið sje að koma slíku til leiðar, fer optast svo, að magnið dregur svo úr hríðunum, að ná verður burðinum í ljós. Sje þess konar fæðing látin eiga sig sjálfa og náttúran ein látin ráða, mun bæði burðinum og konunni dauðinn vís, og fyrir þá sök viljum vjer ráða til að skjóta því eigi lengi á frest að lagfæra legu burðarins og ná honum í ljós, því sje þetta eigi gjört, eru hríðirnar til einkis látnar hrinda burðinum niður, og fer að lokum svo, að legið annað hvort rifnar eða ákafur hiti

og bólga bleypur í það, og í báðum tilfellunum deyr konan með burðinum; öll líkindi eru og til að burðurinn þegar áður sje liðinn sökum hins langvinna þrýstings i grindarholinu. Þannig, er nú var skýrt frá, tekst almennast til, en hjer er undan tekið, þá er konan leysir höfn, þ. e. þá er fæðingin verður fyr en um 28. vikuna af meðgöngutímanum. Fyrir þann tíma er sumsje burðarlíkaminn enn svo lítill, linur og honum má þrýsta saman, svo að, enda þótt hann liggi um þvert eða á ská, mega hríðirnar einar þrýsta honum í gegn um grindarholið; þegar því svo er ástatt, er óhætt að láta náttúruna ráða, og mun það optast bezt svo fara.

186. grein.

Hafi yfirsetukonan þegar á meðgöngutímanum rannsakað konuna og hana hafi grunað, að burðurinn annað hvort lægi um þvert eða á ská, skal hún leggja ríkt á við konuna að hennar sje vitjað þegar í stað, er fæðingarverkir koma að henni. Svo getur að vísu tekizt til, enda þótt burðurinn hafi legið um þvert eða á ská, að hann hafi lagzt á lengri veginn áður en fæðingin byrjaði, en fari eigi svo, þá ber brýn nauðsyn til, að konunni sje veitt hjálpin svo tímanlega sem auðið er.

*Hjálpin* í þess konar fæðing er að mestu leyti í því fólgin að snúa burðinum við, eða með öðrum orðum: fara skal með aðra höndina inn í legið og ná um fætur burðarins, og toga þær svo niður á við, en með þessum hætti breytist lega burðarins þannig, að hann að því búnu liggur á lengri veginn, og ber nú fæturna fyrst að í fæðingunni í stað þess, að hann í fyrstu lá um þvert eða á ská. Sje yfirsetukonan búin að koma burðinum fyrir með þessum hætti, verður hún almenn-

ast að ná honum í ljós með þeim hætti, sem sagt var, þá er fæturna ber fyrst að, en það ber til þess, að svo skal með fara, að magnið dregur úr hríðunum, því væri eigi svo, mundi náttúran ein mega gjöra enda á fæðingunni það sem eptir er af henni.

Eigi er þess að dyljast, að mjög óhægt má veita að snúa burðinum við þegar þannig er ástatt, og allajafna er hætt við, að konan og burðurinn bíði tjón nokkurt, og er fyrir þá sök ráðlegast að sækja þegar lækni til að snúa honum við. En þegar langt er til hans og brýn nauðsyn ber til þess annars vegar, að gjörður sje endir á fæðingunni, verður yfirsetukonan að snúa burðinum við, því annars kostar er hætt við, að hjálpin komi of seint; en þó viljum vjer minna yfirsetukonuna á að hætta heldur tilrauninni í miðju kafi, ef margar torfærur verða fyrir henni á slíku, og skal hún láta sitja við svo búið, þangað til læknirinn kemur, því annars vegar er mjög svo hætt við, að konan og burðurinn skaddist, því eins og það er skylda yfirsetukonunnar að veita hjálp þar er hún má, eins er það og heig skylda hennar að skaða eigi þar er hún eigi má hjálp veita.

Þegar því yfirsetukonan hefur ástæðu til að halda, að burðurinn liggi um þvert eða á ská, skal hún, ef kostur er á, þegar láta vitja læknis, því að miklu eða mestu leyti er það, hvernig fer að snúa burðinum við, undir því komið, að þetta sje gjört í tækan tíma, og tekst bezt til, þá er burðinum er snúið við áður eðar skömmu eptir að himnurnar rifna. Þangað til læknirinn kemur, skal yfirsetukonan sjá svo um, að konan liggi kyr í rúminu, hún skal banna henni að leitast við að flýta fæðingunni, og hún skal með mestu varúð rannsaka

konuna, svo hún eigi valdi því, að himnurnar rifni of snemma eða einhver partur burðarins, sem skakkt ber að, sígi lengra niður.

Sjeu himnurnar heilar eða legvatnið sje nýlega runnið út, en hríðirnar að eins magnlitlar, má verða gagn að því, að láta konuna leggjast á þá hliðina sem yfirsetukonan álítur að höfuð eða sitjandi burðarins liggi næst við legopið, og jafnframt þessu getur hún stutt með litlum þjettum kodda eða samanlögðum dúk á þann stað á kviðnum, er hún finnur til höfuðsins eða sitjandans; en auðvitað er að yfirsetukonan skal fyrst nákvæmlega hafa kannað konuna. Það tekst stundum með þessu móti að þoka höfðinu eða sitjandanum niður hjá efra opi grindarinnar og þannig koma því til leiðar, að burðurinn leggst á lengri veginn, þótt hann áður hafi legið um þvert eða á ská.

Það er vitaskuld, að yfirsetukonan sjer um það, að allt það, sem þurfa kynni, bæði meðan á fæðingunni stendur og að henni afliðinni, sje á reiðum höndum.

### *Hjer segir, hvernig snúa skal burðinum við (vending).*

187. grein.

*Vending* nefnist sú athöfn, þá er farið er með aðra höndina inn í legið og með henni tekið utan um annað hvort annan eða báða fæturna og þeir togaðir niður á við, og legu burðarins þannig breytt, að fæturna ber fyrst að í fæðingunni og burðurinn liggur á lengri veginn.

Í tveim tilfellum ber nauðsyn til að burðinum sje snúið við:

*a,* þá er burðurinn liggur svo öfugur og skakkur

í leginu, að náttúran ein eigi má gjöra enda á fæðingunni;

*b,* enda þótt burðurinn liggi með öllu eðlilega, má opt vera, að nauðsyn beri til, að honum sje snúið við, þegar fljótan enda þarf að gjöra á fæðingunni sökum þess, að burðinum eða konunni er að öðrum kosti lífshætta búin, t. a. m. þá er konan fær blóðlát eða taugateygjur, eða naflastrengurinn dettur út um hina ytri fæðingarparta, o. fl. þess konar, en sökum þess ber brýn nauðsyn til, að burðinum sje snúið við í þessu tilfelli, að höfuðið liggur svo langt uppi í grindarholinu, að eigi verður náð til þess með tönginni, en gjöra þarf bráðan enda á fæðingunni.

Í fyrra tilfellinu verður optast sá endir á, að ná verður burðinum út um hina ytri fæðingarparta með hinum sama hætti, sem sagt er, þá er skýrt var frá fótafæðingunni, og í síðara tilfellinu ber allajafna nauðsyn til, að þannig sje með farið.

Þess ber að geta, að *aldrei skal snúa burðinum við,* þegar annað hvort allt höfuðið eða einhver annar fyrirferðarmikill hluti burðarins er kominn svo langt niður í grindarholið, að hendinni eigi verður komið fram hjá honum upp í legið án þess að skaða konuna og má af því leiða lífsháski fyrir hana. Eins er og það, að aldrei skal yfirsetukonan snúa burðinum við, þá er legopið er of lítið eða of lítil teygja er í því til þess að hættulaust sje að fara með höndina inn um það upp í legið, eða þá er grindin er of þröng, svo allar líkur eru til þess að mjög örðugt muni veita að koma höfðinu og bolnum í ljós, enda þótt burðinum sje snúið við.

### 188. grein.

Aldrei má sjá fyrir með vissu, *hvernig takast muni að snúa burðinum við*, en hins vegar styður þó margt að því, að stundum veitir slíkt hægara en stundum mjög örðugt. Þannig má hægara koma sjer fyrir með að snúa burðinum við, þá er grindin er að öllu leyti rúmgóð, og legopið og hinn mjúki fæðingarvegur er með öllu víkkaður út, en legvatnið er enn eigi runnið út, og þá er burðurinn eigi er fyrirferðarmikill og fæturnir eigi liggja mjög langt frá legopinu. Þetta, er nú hefur sagt verið, kemur því allajafna til leiðar, að hægara veitir að snúa öðrum burðinum við, þá er konan á tvíbura, og þess annars vegar gjörist þörf. En örðugleikar verða allajafna á að snúa burðinum við, þá er grindin er þröng, og hríðirnar eru eigi búnar að koma því til leiðar, að legopið og hinn mjúki fæðingarvegur er með öllu víkkaður út, en burðurinn er fyrirferðarmikill og fæturnir liggja því nær upp undir legbotninum, og mest vandkvæði verða á slíku, þegar legvatnið er löngu áður runnið út, því þá kiprast legið venjulega utan um burðinn.

### 189. grein.

Á þessum stað þykir við eiga að skýra frá, með *hverjum hætti burðinum er almennast snúið við*, og til þess slíkt megi verða því ljósara, ímyndum vjer oss allri aðferðinni skipt í kafla, og skýrum vjer: 1. frá undirbúningnum, 2. hvernig fara skal með höndina inn í legið upp að fótunum á burðinum, og 3, hvernig snúa skal burðinum við, svo fæturna beri fyrst að í fæðingunni og ná þeim síðan niður um leggöngin.

1. *Undirbúningurinn.* Einka áríðandi er að kanna konuna um leggöngin og fara höndum um kviðinn að utanverðu, áður en burðinum er snúið við, til þess að komast svo glögglega sem verða má, eptir allri legu burðarins í leginu, og hvar fæturnir liggja og höfuðið, og eins til hverrar hliðar snýr í grindarholinu andlitshliðin eða hnakkahliðin á burðinum.

Þá er yfirsetukonan er búin að láta konuna hægja sjer til baks og kviðar, skal hún flytja hana í hagkvæmt rúm til að fæða í, en hins vegar má og búa um hana á borði, er stendur stöðugt, eins og sagt er hjer að framan, eða og má um hana búa yfir um þvert rúmið, en einna helzt á borði, með því rúmið vanalegast er of lágt. Auk þeirra hluta, er yfirsetukonan þarf á að halda við hverja fæðing, skal hún enn gæta þess að hafa sjer bönd til að snúa burðinum við með, og bezt er, að hún sje búin að hnýta lykkju eða kappmellu á þau.

Mikils er áríðandi að snúa burðinum við einmitt þá er *tækur tími er til þess.* Fyrir þá sök skal yfirsetukonan eigi hrapa að slíku um skör fram, ef annars vegar eigi þarf þegar hjálpar við og líf konunnar er í veði, og bezt fer, að legopið sje að minnsta kosti orðið svo víkkað út, að fara megi með höndina um það án tálmunar inn í legið; sje þess eigi gætt, er mjög svo hætt við, að það skaddist; en þó er hins vegar eigi þess að dyljast, að vandkvæði verða og á að snúa burðinum við, þá er þess er gætt of seint, því eptir að himnurnar eru rifnaðar og legvatnið er runnið út, kiprast legið fast utan um burðinn, og er þá auðsætt, að óhægt veitir að snúa honum við. En takist svo til, að himnurnar rifni venju fremur fyr í fæðingunni, og líf konunnar er

annars vegar í veði, t. a. m. þá er hún fær blóðlát, þá ber brýn nauðsyn til, að burðinum sje þegar náð í ljós, og hlýtur því yfirsetukonan að snúa burðinum við, þegar er legopið er farið að þenjast nokkuð út og það þolir nokkra teygju, svo hægt er að víkka það út með fingrunum og hendinni; en þó skal hún allajafna við hafa hina mestu varúð, því hætt er við, að sprungur eða rifur komi í barma þess.

Enn má því við bæta, að mikils er áríðandi, að yfirsetukonan snúi burðinum við með *þeirri hendinni, er eðlilegast á við* eptir legu burðarins. Þannig skal hún snúa burðinum við með vinstri hendinni, þegar fæturnir á honum snúa út að hægri hliðinni á konunni, en þá er þeir snúa út að vinstri hliðinni, skal við hafa til þess hægri höndina. Beri höfuðið fyrst að í fæðingunni, skal ávallt viðhafa þá höndina, á hverri lófinn samsvarar andlitshliðinni á burðinum. En geti yfirsetukonan eigi komizt með vissu eptir, til hvorrar hliðar kviður burðarins snýr, skal hún viðhafa þá höndina, sem hægast er að komast með upp að sitjanda burðarins. Þegar því yfirsetukonan við hina ytri rannsókn kemst að því, að sitjandinn liggur hægra megin í móðurleginu, skal hún viðhafa vinstri höndina, og liggi sitjandinn vinstra megin í leginu, fer bezt að við hafa hægri höndina þegar snúa skal burðinum.

### 190. grein.

2. *Hvernig fara skal með höndina inn um legopið upp að fótunum á burðinum.* Þá er yfirsetukonan er búin að bera olíu eða feiti á alla fingurna og höndina að utanverðu og handlegginn upp að olboga, skal hún fyrst kipra fingurna saman, svo gómarnir liggi

sem næst hver öðrum, og síðan fer hún með höndina inn í leggöngin, og hagar hún svo til, að með vísifingrinum fer hún fyrst á milli blygðunarbarmanna og snýr hún honum svo upp á við í þá stefnuna, sem boginn undir blöðrubeininu liggur í, og heldur þessu fram þangað til hún er komin með alla höndina inn í leggöngin. Að svo búnu snýr yfirsetukonan hendinni við, á þann hátt, að handarbakið veit niður að holdbrúnni, og síðan færir hún hana smátt og smátt lengra upp eptir leggöngunum upp að legopinu, og fylgir hún með lægðinni á spjaldinu.

14. mynd.




*Mynd þessi sýnir, hvernig farið er með höndina inn um hina ytri fæðingarparta:*
*a, leggöngin, — b, hið útvíkkaða legop, — c, leghálsinn, — d, endagörnin, sem að nokkru leyti er skorin sundur, — e, holdbrúin, — f, blöðrubeinið, — g, spjaldið, sem sagað er í sundur.*

Þá er legopið er með öllu orðið út þanið, skal

yfirsetukonan þegar snúa hendinni nokkuð eitt við og fara með hana upp um það, en þess ber þó að gæta, eins og við hverja aðra hreifing handarinnar, að konan eigi hafi hríðirnar meðan slík hreifing stendur yfir, og eins skal hún varast að sprengja himnurnar. ef þær eru eigi áður rifnaðar; því alla jafna fer bezt að hlífast við að sprengja þær, þangað til búið er að koma allri hendinni inn í legið, og jafnvel láta slíkt bíða, ef því annars vegar verður komið við, þangað til yfirsetukonan er komin með höndina í grennd við fætur burðarins, og má hún að nokkru leyti finna það um himnurnar, enda þótt þær eigi sjeu rifnaðar. Takist þannig til, og yfirsetukonan komist hjá því að sprengja himnurnar, vinnur hún tvennt við það, það annað, að handleggurinn kemur því til leiðar, að legvatnið nær eigi að renna út, og veitir fyrir þá sök hægara að snúa burðinum við, og hins vegar getur henni varla mistekizt að ná í fæturna á burðinum í því hún sprengir þær, þegar þannig er með farið.

En þegar svo tekst til, að legvatnið er runnið út, áður en tilraunin er gjörð um að snúa burðinum við, skal þó engu síður fara með hinum sama hætti með höndina inn í legið og halda á fram með hana fram hjá þeim parti burðarins, er næst liggur legopinu allt upp þangað, er fæturnir liggja, og höndin skal fylgja með andlitsbliðinni á burðinum. Einna hægast veitir að komast upp að fótunum með þeim hætti, að ná fyrst þeirri mjöðminni, er ofar liggur, án þess þó að þrengja að kviðnum eða naflastrengnum, en frá mjöðminni skal halda með lærinu upp að hnjenu, og skal yfirsetukonan þá stinga einum fingrinum undir hnjesbótina, og reyna með þessum hætti til að beygja hnjeð saman og

ná haldi utan um það. Sje yfirsetukonan eigi komin með hönd sína upp að mjöðm burðarins, en fótur verði fyrir henni áður, skal yfirsetukonan ná haldi utan um fótinn og snúa burðinum við. Hinn fóturinn liggur optast í grenndinni, en þó skal yfirsetukonan viðhafa alla varúð, svo hún eigi taki höndina eða handlegginn í staðinn fyrir fótinn.

Sjaldan fer svo, að nauðsyn beri til að snúa burðinum við, áður en legopið er orðið nokkurn veginn út þanið, en þó lint og teygjanlegt, en þá verður fyrst að víkka það út með fingrunum, og skal þannig með fara: fara skal með tvo, þrjá eða fleiri fingurgóma, eptir því sem það er út þanið inn í legopið, og skal smátt og smátt víkka það út með þeim, og tekst slíkt bezt með því að taka fingurna í sundur til skiptis og svo saman aptur, og mun þá hægt veita að síðustu að komast með alla fingurna og síðan með höndina inn um það. En vjer tökum fram við yfirsetukonuna að viðhafa alla varúð, því mjög svo er hætt við, að barmar legopsins skaddist, og hins vegar verður eigi sjeð fyrir, hver áhrif tilraun þessi um að víkka legopið út, hefur, og er fyrir þá sök með öllu auðsætt, að eigi skal grípa til þessara ráða, fyr en í nauðirnar rekur, en bíða heldur þess, að legopið víkki út af sjálfu sjer.

Einkum skal yfirsetukonan varast að þrengja að eða koma óþyrmilega við legið, þá er hún fer með höndina inn um það til að snúa burðinum við, því að öðrum kosti er hætt við, að legið rifni, eða hleypur þá síðar hiti og bólga í það, og er þá sem optast líf konunnar í veði. Sökum þessa viljum vjer taka yfirsetukonunni vara fyrir að ýta óþyrmilega til hliðar nokkrum parti burðarins, er verður fyrir henni, en hún skal

heldur reyna til að liðka höndina hægt og hægt fram hjá honum; sökum þessa skal láta höndina liggja kyrra meðan hriðirnar standa yfir, og skal leggja hana flata utan á burðinn, þangað til hríðinni ljettir; eins skal og allajafna halda fingrunum saman og höndinni upp að líkama burðarins á leiðinni upp að fótunum, svo hún komi sem minnst við legið að innanverðu sem verða má.

191. grein.

*3. Hvernig snúa skal burðinum við eða koma því til leiðar, að fæturna beri fyrst að í fæðingunni.* Þegar yfirsetukonan er komin með höndina upp að fótunum á burðinum, fer bezt, að hún taki utan um þá báða í senn, með þeim hætti, að löngutöng liggur milli öklanna, en hinum fingrunum heldur hún utan um mjóuleggina; togar hún þá síðan fæturna að sjer fram hjá þeirri hliðinni á burðinum, er snýr fram í grindarholinu ofan í legopið og svo þaðan niður eptir leggöngunum, og heldur hún þannig áfram, þangað til sitjandann ber að í hið efra op grindarinnar, og sýnir slíkt, að þá hefur tekizt að snúa burðinum við.

Sjeu engir örðugleikar á því, að snúa burðinum við og ekkert það beri að, sem valdi því, að konunni sje hætta búin ef burðinum eigi sje sem fyrst snúið við, þá skal helzt kjósa að ná í annan fótinn og toga í hann og þannig snúa burðinum; en aptur á móti þegar búast má við, að miklir örðugleikar verði á því að snúa burðinum við, eða þegar um er að gjöra að ná burðinum í ljós sem fyrst, skal helzt kjósa að ná haldi á báðum fótunum, og er vanalega hægt að finna hinn fótinn, því optast nær liggur hann nálægt þeim fætinum, sem fyrst var náð. Þegar búið er að ná haldi

á báðum fótunum, skal þannig taka utan um þá, að löngutöng sje á milli þeirra að innanverðu við mjóaleggina fyrir ofan öklana, en hinir fingurnir að utanverðu, og skal hún toga báða fæturna niður, og er þá burðinum þannig snúið við á sama hátt og getið er um þegar honum er snúið og að eins er togað í annan fótinn. Veiti yfirsetukonunni óhægt að ná nema utan um annan fótinn, verður hún að láta sjer slíkt lynda, og skal hún engu síður reyna til að snúa burðinum við með því að toga hann einan að sjer, og optast má slíkt takast. En heppnist það eigi og fóturinn situr fastur fyrir, og burðurinn heldur með öllu hinni fyrri legu sinni, en opt er hætt við að þannig fari þá er annars veitir örðugt að snúa burðinum við, þá skal yfirsetukonan eptir reglum, sem hægt er að sýna en örðugt veitir að skýra frá, smeygja kappmellu um þann fótinn, er hún er búin að ná haldi á, og að því búnu skal hún fara með höndina inn í legið innanlærs með þessum fæti, og reyna til að ná hinum fætinum og toga hann að sjer. Að svo búnu skal hún toga til skiptis í fæturna, þangað til hún er búin að ná þeim báðum út um hina ytri fæðingarparta; skal þá taka kappmellluna af fætinum, og er þá búið að snúa burðinum við.

Ráðandi er til að styðja með þeirri hendinni, er laus er, utan á kvið konunnar meðan verið er að snúa burðinum við og fótunum er komið niður í leggöngin, því þá þannig er með farið, veitir miklu hægara bæði að ná fótunum og toga þá niður. En þurfi yfirsetukonan á báðum höndunum að halda, skal hún láta aðstoðarmann sinn takast þetta starf á hendur, en alla varúð skal viðhafa.

192. grein.

Þegar tekizt hefur með þessum hætti að snúa burðinum við, og hann liggur nú á lengri veginn og fæturnir eru komnir út úr leggöngunum, er reyndar ekkert, sem tálmar því, að náttúran ein megi gjöra enda á fæðingunni, eins og þá hún verður með eðlilegum hætti. En bæði eru hríðirnar opt magnlitlar þá fæðingunni er hjer komið, og opt má vera, að brýn nauðsyn beri til, að þegar sje gjörður endir á fæðingunni, því að öðrum kosti er konunni opt hætta búin, og fyrir þá sök verður yfirsetukonan opt að ná burðinum í ljós þegar búið er að snúa honum við, en slíkt verður með þeim hætti, sem sagt er, þá er vjer skýrðum frá fótafæðingunni.

193. grein.

Á þessum stað þykir við eiga að skýra frá *reglum nokkrum, er fara skal eptir, þá mjög örðugt veitir að snúa burðinum við.* Yfirsetukonan getur með æfing numið allar þær reglur, er við þurfa, í hvert skipti sem snúa verður burðinum við, en slíkt fer eptir legu hans, og verður hún með ýmsum hætti; fyrir þá sök þykir oss eigi hlíða að fara fleirum orðum um slíkt á þessum stað, en hins vegar þykir við eiga að skýra frá einstöku reglum, er fara skal eptir, þá er mjög örðugt veitir að snúa burðinum við.

Eigi ber sjaldan við, að *handleggurinn kemst um legopið* niður í leggöngin og jafnvel stundum út fyrir hina ytri fæðingarparta, þegar herðarnar eða öxlina ber fyrst að í fæðingunni. Þá er fæðingin og lega burðarins verður með þessum hætti, er hún að því leyti örðugri en hver önnur fæðing, að optast sprengir

handleggurinn himnurnar, fyr en venja er til að þær rifni, þá er þannig tekst til, og rennur þá legvatnið út, en legið kiprast fast utan um burðinn. Af slíku leiðir á hinn bóginn, að hætt er við, að herðarnar verði fastar í grindarholinu ef hjálpinni eigi verður komið við í tækan tíma, og hins vegar má búast við, að legopið kiprist saman um handlegginn, og bólgnar hann þá eigi all-lítið, en af slíku leiðir, að mjög óhægt veitir að snúa burðinum síðar við. Þess ber að geta, að eigi kemur að neinu haldi að reyna til að ýta handleggnum upp í legið, þá er fæðingin verður með þessum hætti, og á hinn bóginn má það hljótast af slíku, að legið skaddist eða rifni. Fyrir þá sök er allajafna ráðlegast í tíma að snúa burðinum við þegar legopið er lint og þolir teygjuna, og hægt er að víkka það út með hendinni. Snúa skal burðinum við, þegar þannig er ástatt, með hinum sama hætti, sem sagt er hjer að framan, og fara skal upp með lófahliðinni á handlegg burðarins með höndina upp í legið. Opt má vera, að bezt fari að smeygja kappmellu um þá höndina á burðinum, er komin er niður í leggöngin, því síðar veitir með þessum hætti hægara að ná bolnum og handleggjunum á burðinum í ljós. En á hinn bóginn tökum vjer það upp aptur, að optast ber nauðsyn til, að læknir sje sóttur þá er fæðingin verður með þessum hætti, líkt og þá er hvern annan vanda ber að höndum.

15. mynd.



194. grein.

Þá er þarf að snúa burðinum við *og höfuðið eða herðarnar hafa borið fyrst að í fæðingunni*, má opt vera, að svo takist til, að eigi verði höfðinu eða herðunum náð úr stað, enda þótt búið sje að ná fótunum niður í leggöngin, og mistekst þannig með öllu að snúa burðinum við. En þá er þannig fer, mun bezt fara að smeygja kappmellu um báða fæturna og toga með þessum hætti til skiptis í þá, og tekst optast svo heppilega til, að burðinum verður snúið við. En sje þess eigi kostur, skal yfirsetukonan taka með annari hendinni í endana á báðum kappmellunum, og um leið og hún togar hægt og hægt fæturna að sjer með þessum hætti, skal hún með tveim eða þrem fingrum hinnar handar-

innar reyna til að lypta höfðinu eða herðunum nokkuð eitt frá grindarbarminum, og veitir með þessum hætti opt miklu hægara að snúa burðinum við.

195. grein.

Yfirsetukonan verður stundum þess vör meðan hún er að snúa burðinum við, *að fæturnir á honum liggja fast upp við þá hliðina á leginu, sem veit fram í grindarholinu*, en sökum þessa veitir henni örðugt að ná utan um þá, einkum þegar legbotninn slútir fram á við; en vera má, að ráða megi stundum mikla bót á þessu með því að láta konuna halla sjer á aðra hvora hliðina, því þá svo er farið að, verður yfirsetukonan að aptanverðu við sitjanda konunnar og á þannig hægra með að koma hendinni upp á við og fram á við í móðurleginu og ná í fæturna, einkum ef stutt er með hinni hendinni utan á kvið konunnar.

196. grein.

Að lokum má geta þess, að vera má, að yfirsetukonan komi of seint til konunnar, svo *burðinum eigi verður snúið við í tækan tíma,* en allt legvatnið er runnið út, og legið kiprað fast saman utan um burðinn, en hann er kominn niður í hið efra op grindarinnar og situr þar fastur að mestu eða öllu leyti, og legopið er opt fast kiprað saman. Þegar þannig er ástatt, skal aldrei reyna til að snúa burðinum við fyr en kipringurinn líður úr leginu og legopinu. Meðöl þau, sem hjer eiga við, er læknirinn einn fær um að ráðleggja, og er því skynsamlegast að vitja hans; en verði eigi náð til hans, gæti yfirsetukonan farið svo að, er nú skal segja: hún gæti við og við spröitað volgu vatni inn í

leggöngin, borið belladonna salve á legopið, lagt volgan vatnsbakstur á kviðinn og borið á hann kamfóruolíu með ópíum í, eða núið allan kviðinn utan með volgri olíu; setja mætti konunni pípu og hafa í henni seyði af kamillutegrasi eða hafa í henni svo sem $^1/_2$ bolla af grjónaseyði og láta í það 10—15 einfalda ópíumsdropa. En takist eigi með þessu móti að eyða kipringnum úr legopinu, viljum vjer ráða yfirsetukonunni til að láta standa við svo búið þangað til læknirinn kemur, en reyna alls eigi til að snúa burðinum við, því opt má vera, að konunni sje af slíku lífshætta búin.

---

## Þriðji kapítuli

*skýrir frá, þá er burðatalan er óeðlileg*

eða

*frá tvíbura- og þríbura-fæðing.*

197. grein.

Áður höfum vjer sagt, að mjög svo sjaldan verður með vissu komizt eptir, hvort konan muni ganga með tvíbura, fyr en í fæðingunni sjálfri, og er sagt frá slíku um leið og vjer skýrðum frá einkennum þeim, er vera má að lýsi því, að konan gangi með tvíbura.

Þá er konan gengur með tvíbura, ber fæðinguna nokkuð fyr að, en venja er til,, en þá má fyrst ganga úr skugga um, að svo sje, þegar annað barnið er komið í ljós. Optast er þá barnið heldur fyrirferðarlítið og veikbyggt í samanburði við kviðarþykkt konunnar og eptir því, hve fæðingin verður annars vegar langvinn; sje þá kviðurinn kannaður, verður yfirsetukonan þess vör, að legið er fyrirferðarmikið og að nokkru leyti út

þanið, og er það að nokkru leyti hart viðkomu og bungur hjer og hvar út úr því, og opt má finna til nokkurra parta af burðinum; um leggöngin má og kanna konuna, og verður yfirsetukonan áskynja um, að himnur að nýju bera ofan í legopið, og nokkurn part af burðinum ber þá og niður í hið efra op grindarinnar.

198. grein.

Lega burðarins verður með ýmsum hætti, þegar konan gengur með tvíbura. Optast ber höfuðið fyrst að í fæðingunni á þeim burðinum, er fyr kemur í ljós, en á hinum ber fyrst optast að sitjandann eða fæturna, eins og sýnt er á mynd þeirri, er hjer stendur. En

16. mynd.



opt ber við, að fæturna ber fyrst að á þeim burðinum, er kemur fyr í ljós, en höfuðið á hinum burðinum, og stundum ber höfuðið fyrst að í fæðingunni á þeim báðum. Sjaldan ber við, að annar burðurinn liggi á ská eða um þvert, og sjaldnast tekst svo til, að þeir liggi báðir öfugir með einhverjum hætti.

199. grein.

Sá hinn *fyrri* burður, er ber að í fæðingunni, kemur í ljós með hinum sama hætti, sem þá er burðurinn er einungis einn, en þó má vera, að nokkuð lengur standi á fæðingunni, en venjulegt er, sökum þess, að legið er mjög svo út þanið, en samdrættirnir í því verða þess vegna linari og hríðirnar eigi jafn ákafar, og þær eiga að sjer.

*Hinn* burðurinn kemur allajafna nokkru seinna í ljós, og stundum verður $^1/_4$ partur úr stundu, en stundum fleiri stundir á milli fæðinganna; en sökum þess, að fæðingarvegurinn er allur orðinn víkkaður út af fyrra burðinum, kemur og hinn síðari í ljós nokkru fyr, en almennast verður, ef hann annars vegar eigi liggur öfugur í leginu.

Að lokum koma og í ljós fylgjurnar, og loða þær saman, en á milli þeirra skilur himna nokkur, sem glöggt má sjá, en himnurnar eru tvennar, og fylgir hvorum um sig legkaka og naflastrengur. Hvor burðurinn liggur í sínu eggi, og almennast er, að æðahimnurnar og vatnshimnurnar sjeu tvennar, en sjaldnar verða legkökurnar aðgreindar með öllu, því optast eru þær áfastar hvor við aðra út í börmunum, og stundum svo nákvæmlega, að út lítur sem legkakan sje ein en tveir naflastrengir gangi út

úr henni. Enda þótt að legkökurnar loði fast saman hvor við aðra, ber þó sjaldan við, að æðar liggi á milli þeirra eða gangi úr annari í hina, og er fyrir þá sök enginn blóðssamgangur millum þeirra. En reynslan hefur þó á hinn bóginn sýnt, að stöku sinnum liggja æðar úr annari legkökunni yfir í hina. Aldrei verður reyndar í fæðingunni sjálfri komizt eptir slíku, en fyrir þá sök að vera má, að blóðssamgangur sje milli legkakanna, er það skylda yfirsetukonunnar að binda þegar fyrir þann endann á naflastreng hins fyrra burðar, er kemur í ljós, það er að skilja á þeim endanum, er áfastur er við legkökuna, og er þá með þessum hætti sjeð svo fyrir, að eigi blæði hinum síðara burði til ólífis um þennan naflastrenginn, sem annars vegar má verða, þá er blóðið hefur rás millum legkakanna.

## 200. grein.

Að öðru leyti er *hjálpin* í fæðingunni, þá er konan á tvíbura eigi í neinu sjer í lagi frábrugðin hjálpinni við hverja fæðing, þá er allt fer eðlilega.

En yfirsetukonan skal þó einkum gæta þess, er hjer segir, þá er fæðingin verður með þessum hætti, og þegar er hið fyrra barn er komið í ljós, skal hún með gætni láta konuna skilja á sjer, að enn sje eitt barn eptir, því að öðrum kosti má vera, að konan síðar verði hrædd og skelkuð, og hins vegar skal yfirsetukonan ráða konunni frá að reyna til að flýta fæðingu hins barnsins, en bíða heldur þess, að legið af sjálfu sjer megi kiprast eðlilega saman, fyrir þá sök, að því meira sem legið hefur víkkað út, þess meira er og áríðandi, að burðinum eigi skjóti snögglega út úr því, fyr enn hinir eðlilegu samdrættir eru komnir í það, að

nýju, því að öðrum kosti er hætt við, að konan fái blóðlát og að fylgjan komi fyrst síðar og með illan leik í ljós.

Liggi hinn síðari burður á lengri veginn í leginu, hvort heldur sem svo ber fyrst að höfuðið eða hinn neðri hluta líkamans, sitjandann, hnjen eða fæturna, mun bezt fara að eiga eigi hlut að, en láta fæðinguna ráða sjer sjálfa, enda þótt nokkuð langt sje þess að bíða, að hríðirnar sýni áhrif sín á hana. Fái hríðirnar að verka og himnurnar þenjist út og gangi niður í leggöngin, má vel fara, að yfirsetukonan sprengi gat á þær, því nú er lítið gagn að þeim, en þær tefja fyrir burðinum að hann megi ganga niðr; þegar búið er að sprengja gat á himnurnar, verða hríðirnar ákafari, og magnmeiri og innan skamms er fæðingunni lokið. Einungis þá er hríðirnar alls ekki sýna sig eptir nokkurra stunda bið, en óþol kemur á hinn bóginn að konunni, eða ljós merki þess lýsa sjer, að hún sje sjúk með einhverjum hætti, og hún einkum t. a. m. missir mikið blóð, skal eigi lengur skjóta því á frest að ná burðinum í ljós og snúa honum þegar við, eða ná honum með þeim hætti, sem sagt er, þá er fæturna ber fyrst að.

Enda þótt að yfirsetukonan verði áskynja um, að hinn síðari burður liggi með einhverju móti skakkur eða öfugur, svo auðsætt er, að hún hljóti að snúa honum við, skal eigi ráðast í slíkt, fyr en hríðirnar koma að nýju að konunni, ef hins vegar eigi ber brýn nauðsyn til, að til þeirra ráða sje tekið, t. a. m. þegar konan missir mikið blóð.

Hina mestu varkárni skal viðhafa þá er að því líður, að fylgjan kemur í ljós, því að öðrum kosti má opt vera, að hið mesta tjón hljótist af framhleypni og

óaðgætni. Fyrir þá sök viljum vjer ráða yfirsetukonunni til, þá er annars vegar engin merki þess lýsa sjer, að konan missi mikið blóð, að eiga alls ekki hlut að, en láta náttúruna eina ráða, þangað til fylgjan er komin ofan í leggöngin. En þá svo er komíð, skal yfirsetukonan með venjulegum hætti taka með höndunum, sinni í hvorn naflastrenginn, og með því að toga til skiptis í þá, mun henni takast að ná legkökunum og himnunum niður um leggöngin og út um hina ytri fæðingarparta. En standi svo á, enda þótt konunni líði að öllu leyti vel, að engin merki þess lýsi sjer eptir þrjár eða fjórar stundir, að fylgjan muni þá og þegar koma í ljós, skal yfirsetukonan með öllu fara að, eins og sagt mun verða í næsta kapítula hjer á eptir, og er þar skýrt frá, hvernig með skal fara, þá er örðugt veitir að ná fylgjunni í ljós.

Þegar yfirsetukonan kemst að því, að enn er hinn þriðji burður eptir í leginu, þá er hún kannar konuna um leggöngin og fer höndum um kvið hennar að utanverðu eptir að annað barnið er komið í ljós, skal hún fara að öllu með hinum sama hætti, eins og sagt er um fæðing tvíburans. En þess ber að geta, að sjaldan ber við, að konan eigi þríbura.

---

## Þriðji kafli.

*Þá er fæðingin verður óeðlileg sökum þess, að missmíði nokkur eru á pörtum eggsins.*

201. grein.

Vera má að nokkrir partar af egginu hafi skaðvæn áhrif á fæðinguna eins fyrst sem síðast, og tálmi henni

að miklu leyti, ef annars vegar nokkrir gallar og missmíði eru á þeim, en partar þessir eru: *himnurnar, legvatnið, naflastrengurinn* og *legkakan.*

---

# Fyrsti kapituli

*um missmíði og galla á himnum eggsins.*

202. grein.

Vera má að himnurnar sjeu annað hvort of þunnar og stökkar í sjer, eða of þykkvar og seigar.

Ef himnurnar eru *of þunnar,* er mjög hætt við, að þær rifni of fljótt, annað hvort þegar í byrjun fæðingarinnar, eða stundum áður en hún er byrjuð, og víkkar, þá svo fer, legopið mjög seint út, og öll fæðingin verður úr því miklu langvinnari og þjáningarmeiri, en venjulegt er, þá er himnurnar rifna á tækum tíma. Þá er þannig tekst til, má yfirsetukonan gjöra það eitt að, að hvetja konuna til að liggja í rúminu eptir að himnurnar eru rifnaðar, og skal hún eigi reyna til að herða á eptir fæðingunni meðan á hríðunum stendur, heldur skal hún bíða þess, að legopið víkki út af sjálfu sjer og höfuðið komist niður í grindarholið.

203. grein.

En ef himnurnar eru *of þykkar* og *of seigar,* rifna þær eigi í tækan tíma í fæðingunni, þegar legopið er með öllu víkkað út, og opt ber við, að þær komast órifnaðar niður í leggöngin og stundum út um hina ytri fæðingarparta, og tálmar slíkt eða seinkar fæðingunni. Sjaldan ber við, að höfðinu á burðinum skjóti út og himnurnar liggi utan um það órifnaðar, en þá svo tekst

til segja menn að barnið sje fætt í sigurkufli, og höfðu menn fyr á tímum þá trú á slíku, að barnið mundi verða óskabarn lukkunnar. Mjög sjaldan fer svo, að legkakan losni við legið þá er fæðingin verður með þessum hætti, en takist svo til, fær konan hættulegt blóðlát.

*Hjálpin*, er yfirsetukonan má veita konunni, er í því einu fólgin að fara með vísifingurinn upp að himnunum meðan ein hríðin stendur yfir og sprengja eða reka gat á þær með honum. En meira er áríðandi, að yfirsetukonan eigi sprengi himnurnar þá er þær eigi valda því, að fæðingin verður mjög svo langvinn, og ber stundum allt annað til þess, að svo fer. Fyrir þá sök viljum vjer ráða yfirsetukonunni frá að sprengja himnurnar, fyr en legopið er með öllu orðið víkkað út, og himnurnar eru komnar langt niður í leggöngin; þess ber og að geta, að áður skal hún og með vissu komast eptir, hvort burðurinn liggur eðlilega, því verði hún þess vísari, að hann liggi skakkt eða öfugt, má opt vera að tjón hljótist af, ef hún sprengir himnurnar, og allajafna veitir þá síðar örðugara að snúa burðinum við, ef þess gjörist þörf.

Sjeu himnurnar svo seigar í sjer, að yfirsetukonan eigi getur rekið gat á þær með fingrunum, skal hún reyna til að rífa gat á þær með nöglinni eða klípa þær eða snúa í sundur með vísifingrinum og þumalfingrinum, og halda því fram þángað til gat kemur á þær.

---

## Annar kapítulí
*um galla á legvatninu.*

204. grein.

Að því leyti má *legvatnið* tálma fæðingunni, ef það annað hvort er of lítið, eða of mikið.

Sje legvatnið *of mikið*, er allur kviður konunnar síðast á meðgöngutímanum venju fremur út þaninn, en þó jafnt á alla vegu eptir tiltölu, og er henni fyrir þá sök mjög þúngt allri á þessum kafla meðgöngutímans. Í fæðingunni nemur höfuðið lengi staðar langt uppi í leginu og kemst ekki niður í grindarholið, og veitir sökum þess stundum örðugt að komast með vissu eptir, hvernig burðurinn liggur, og það því heldur sem legvatnið er of mikið innan í himnunum, er þenur þær venju fremur út. Hríðirnar eru magnlitlar sökum þess, að legið er venju fremur út þanið, og koma þá síður samdrættirnir í það, og þannig verður allur hinn fyrri kafli fæðingarinnar mjög svo langvinnur. Á hinn bóginn er og hætt við, að nokkrir smápartar af burðinum, t. a. m. handleggurinn, komist fram fyrir höfuð burðarins þá er legvatnið rennur snögglega allt út, meðan konan stendur á fótum, og hins vegar má og máttleysi í leginu, er leiðir af slíku, valda því, að fylgjan komi fyrst seint og síðar í ljós, og vera má, að konunni sje nokkur hætta búin.

Að öðru leyti þarf eigi hjálpar við, þá er fæðingin verður með þessum hætti, fremur en við hverja fæðing, en þó skal yfirsetukonan allajafna gæta þess að láta konuna liggja í rúminu þangað til himnurnar eru rifnaðar, svo slíkt eigi beri að meðan hún stendur á fótum, því vera má, að tjón hljótist af slíku. Sjeu himn-

urnar venju fremur seigar í sjer og þær rifni seinna sökum þess, mun bezt fara, að yfirsetukonan eigi láti líða á löngu, áður enn hún sprengir þær. En áður en yfirsetukonan gjörir það, skal hún vera viss um að burðurinn liggi á lengri veginn í móðurleginu. Sje legvatnið svo mikið, að yfirsetukonan eigi má fá vissu sína um að svo sje, þá er ráðlegast að búa allt undir, ef svo skyldi fara að burðurinn lægi skakkt, þegar búið væri að sprengja himnurnar og nauðsynlegt yrði að snúa burðinum við.

205. grein.

Síður hefur það nokkur talsverð áhrif á fæðinguna, þó legvatnið sje *of lítið* fyrir framan höfuð burðarins innan í himnunum, og þær liggi því nær fast upp að höfðinu þegar hlje verður á hríðunum, eða þenjist lítið eitt út fram undan því meðan hríðirnar standa yfir. Þó má vera, að slíkt hafi þau áhrif á fæðinguna, að legopið víkkar seinna út og með þessum hætti verður hinn fyrri kafli fæðingarinnar nokkru langvinnari en venjulegt er; en engin hætta er konunni búin af slíku, og hins vegar verður heldur ekkert við því gjört.

## Þriðji kapítuli

*um missmíði á naflastrengnum.*

206. grein.

Annað hvort er naflastrengurinn of langur eða of stuttur, og hins vegar má og vera, að hann slitni eða detti út meðan á fæðingunni stendur, en allajafna hefur hann skaðvæn áhrif á fæðinguna og tálmar henni, þá þannig er ástatt.

1. Vera má að naflastrengurinn sje *allt of stuttur* frá fyrstu, en sjaldan ber við, að svo mikið kveði að því, að af því hljótist vandi eða hætta í fæðingunni. Optar verður hann of stuttur með þeim hætti, að hann flækist utan um einhverja parta burðarins, og með þessum hætti ber það jafnvel stundum við, að naflastrengurinn verður of stuttur sökum flækjanna, enda þótt hann í fyrstu sje langur. Naflastrengurinn flækist þannig utan um ýmsa parta burðarins, en optast utan um hálsinn, og verður flækjan stundum þreföld eða fjórföld um hann.

2. Sje naflastrengurinn *allt of langur*, er hætt við, að hann detti út meðan fæðingin stendur yfir, og einungis að því leyti getur það haft ill áhrif á fæðinguna.

### 207. grein.

Fyr á tímum þótti konunni allajafna mikil hætta búin í fæðingunni þá er *naflastrengurinn er of stuttur*, og reyndar er þess eigi að dyljast, að hætt er við, að fæðingin standi við í stað þá hann er mjög stuttur, eða og hins vegar að hann slitni í sundur og legkakan rifni frá leginu, og stundum má vera, að slíkt leiði til þess, að konan fái legsig, En þó ber þess að geta, að einka sjaldan ber slíkt við, og höfum vjer reynsluna fyrir oss um það, og eins er allajafna nokkur bót, að naflastrengurinn þolir nokkra teygju. Mjög sjaldan er og burðinum nokkur hætta búin, þó naflastrengurinn liggi í flækjum um hálsinn á honum; en hins vegar má þó vera, að tjón hljótist af slíku, þá er flækjan liggur fast um hálsinn, einkum vegna þess, að hætt er við, að naflastrengurinn þrýstist milli hálsins og

grindarinaar, og blóðið fyrir þá sök eigi nái að halda hinni eðlilegu rás sinni um hann.

Eigi er hægt með vissu að komast eptir í fæðingunni, hvort naflastrengurinn er of stuttur, og öll einkenni þess, er til hafa verið týnd, eru óáreiðanleg og efasöm, en þau eru þessi: konan finnur til sárs stingjar uppi í legbotninum meðan hríðirnar standa yfir, og stundum missir hún nokkurt blóð undir lok hverrar hríðar, og höfuðið dregst upp eptir aptur þá er hríðinni hættir. Almennast má fyrst komast eptir, að naflastrengurinn sje of stuttur, þá er höfuðið er komið í ljós, en hann liggur í flækju um hálsinn á burðinum, og hins vegar eru og líkur til að svo sje, þá er yfirsetukonan verðr þess vör, að eins er sem eitthvað tálmi því, að öllum bolnum á burðinum skjóti út eptir að nokkur hluti hans er kominn í ljós.

Áður er skýrt frá (í 91. greininni), hvernig yfirsetukonan skal með fara, þá er naflastrengurinn er flæktur um hálsinn á burðinum. En verði hún þess vísari, að naflastrengurinn tálmi því, að bolnum á burðinum eigi skýtur út, skal hún þegar klippa hann í sundur og binda um hann þegar hún er búin að ná bolnum út um hina ytri fæðingarparta.

## 208. grein.

Á þessum stað þykir við eiga að skýra frá, hver áhrif vera má að naflastrengurinn hafi á fæðinguna, þá er hann er of stuttur, og teljum vjer þá, að vera má, að hann *slitni í sundur*, og stundum tekst þannig til, enda þótt naflastrengurinn eigi sje mjög stuttur, þá er fæðinguna ber snögglega að meðan konan stendur á fótum.

Hversu stuttur sem naflastrengurinn er, mun hann þó varla slitna í sundur, fyr en höfuðið er komið í ljós, eða um leið og bolnum skýtur út, og er það til marks um, að svo fer, að þá tekur að blæða úr honum. Þegar er yfirsetukonan verður vör við slíkt, skal hún ná bolnum á burðinum í ljós, og blóðrásina skal stöðva með því að taka með fingrunum fyrir endann og halda svo fyrir, þangað til búið er að binda um naflastrenginn. Þá er svo tekst til, að naflastrengurinn hefur slitnað svo nærri kvið burðarins, að eigi er hægt að binda um hann, er mjög svo hætt við, að barninu blæði til ólífis, og skal því leita til læknis svo fljótt sem verða má. Í 112. greininni (e) er sagt, með hverjum hætti yfirsetukonan skal reyna til að stöðva blóðrásina þangað til læknirinn kemur.

209. grein.

Þess var hjer að framan getið, að burðinum má að eins að því leyti verða hætta búin af því að naflastrengurinn sje allt of langur, að vera má að svo takist til, að hann í fæðingunni *detti fram* í legopið eða niður í leggöngin samhliða þeim parti burðarins, sem að ber í fæðingunni, en slíkt má og verða enda þótt naflastrengurinn sje eðlilega langur. Burðinum er allajafna lífshætta búin þá er svo tekst til, en slíkt tálmar þó eigi með nokkrum hætti sjálfri fæðingunni. En líf burðarins er í veði sökum þess, að opt ber við, að naflastrengurinn kreystist saman, og þá stöðvast blóðrásin um hann, og deyr burðurinn opt þegar samstundis.

Vera má, að naflastrenginn beri að og að hann detti fram samhliða hverjum helzt parti burðarins, sem ber að í fæðingunni eða með öðrum orðum, hvort heldur

sem burðurinn liggur á lengri veginn, eða um þvert og á ská. En þá er lega burðarins verður með þessum hætti, skal allajafna snúa honum við, en á þessum stað viljum vjer einungis ímynda oss, að burðurinn liggi á lengri veginn og að naflastrenginn beri fyrst að í fæðingunni með höfðinu eða sitjandanum og fótunum, en undir slíku er öll meðferðin komin.

210. grein.

Líkur eru til, að naflastrengurinn komist ofan í leggöngin eða út um hina ytri fæðingarparta, þá er hann er of langur, eða ef legvatnið er of mikið, og einkum ef himnurnar þá rifna snögglega meðan konan er standandi; líkt fer og, þá er leghálsinn eigi kiprast nógu fast utan um höfuðið á burðinum þegar það ber fyrst að í fæðingunni, eða og þá er höfuðið ber skakkt eða öfugt að í hið efra op grindarinnar sökum missmíða á grindinni eða skekkju á leginu, og þá er burðurinn liggur skakkur eða öfugur, kemst naflastrengurinn opt af þessum orsökum einum niður í leggöngin eða út um hina ytri fæðingarparta.

211. grein.

Hægt er að *komast eptir* ólaginu á naflastrengnum þegar legvatnið er runnið út, og verður þá fyrir yfirsetukonunni naflastrengsflækjan í leggöngunum, er komizt hefur niður um legopið. En áður en himnurnar rifna, og meðan naflastrengurinn flýtur í legvatninu, veitir opt örðugt að komast eptir legu hans, því vera má, að yfirsetukonan villist á honum og öðrum smápörtum af burðinum, t. a. m. fingrunum, en hann hleypur undan þegar hún þrýstir utan á himnurnar;

sökum þess er yfirsetukonunni áríðandi að reyna til að komast eptir, hvort hún eigi finnur til blóðstraumsins um naflastrengsæðarnar, og er slíkt glöggt einkenni þess, að hún finni til naflastrengsins. Enda þótt himnurnar sjeu rifnaðar, veitir engu að síður stöku sinnum örðugt, og stundum er þess alls enginn kostur, að finna þó lítil flækja af naflastrengnum liggi einhverstaðar fyrir aptan höfuð burðarins, og eigi verður gengið úr skugga um, að svo sje, fyr en hún er komin með höfðinu lengra niður í grindarholið.

212. grein.

Hvað því viðvíkur, hver *lok* opt verða á fæðingunni, höfum vjer hjer á undan sagt, að allajafna er burðinum hætta búin, þá er fæðingin verður með þessum hætti, og reynslan hefur sýnt, að mörg börn hafa dáið með þessum hætti, enda þótt allra bragða hafi verið leitað. Þó er hættan eigi alltjend jafn mikil, og stundum eru allar líkur til, að lífi burðarins verði bjargað. Þannig er síður hætt við, að um of þrengi að naflastrengnum, áður en legvatnið er runnið út, og fyrir þá sök er það mjög svo áríðandi að sjá svo um með öllum hætti, að himnurnar rifni svo seint sem verða má. Síður er og hætt við, að naflastrengurinn kreystist saman eða merjist, þá er hann dettur aptur í grindarholið í þá áttina, sem annað hvort hinna íbjúgu vika grindarinnar liggja, en fremur er hætt við, að svo takist til, þá er hann dettur út til hliða eða fram í grindarholið. En bitt er víst, að allt er undir því komið, að fljótur endir verði á fæðingunni eptir að legvatnið er runnið út. Rifni himnurnar fyrst seint á fæðingunni, þegar legopið er orðið með öllu út víkkað og eins hinn mjúki

fæðingarvegur, en slíkt verður allajafna á konum, sem áður hafa átt barn, og hríðirnar eru ákafar, þá mun náttúran ein á skammri stund gjöra enda á fæðingunni án þess barnið bíði nokkurt tjón. En rifni himnurnar snemma á fæðingunni, eða fæðingin verður langvinn af einhverjum öðrum orsökum, er allt undir því komið að ná burðinum í ljós í tækan tíma, annað hvort með tönginni, eða eins og sagt er, þá er sitjandann eða fæturna ber fyrst að, en mjög sjaldan skal snúa burðinum þá þannig er ástatt.

213. grein.

Af því, er þegar hefur sagt verið, má reyndar öllum ljóst verða, ***hvernig með skal fara,*** þá er fæðingin verður með þessum hætti, en þó viljum vjer skýra nokkru nákvæmara frá slíku á þessum stað.

a. Ráðandi er til, að yfirsetukonan láti þegar sækja lækni, ef hann annars vegar eigi er of langt burtu, þá er hún kemst að því, að naflastrenginn muni bera að í fæðingunni, því aldrei má hún vita fyrir, á hverri stund hans aðstoðar muni við þurfa.

b. Þangað til læknirinn kemur, skal yfirsetukonan það eitt að gera að reyna til með þessum hætti að tálma því, að himnurnar rifni, og í því skyni skal hún láta konuna liggja í rúminu án þess að hreifa sig um skör fram, og skal hún helzt láta konuna liggja á þá hliðina, sem naflastrengurinn er dottinn fram, með því hann þá stundum dregst sjálfkrafa upp aptur eða að minnsta kosti er síður hætt við, að mikill þrýstingur komi að honum, og hins vegar skal hún ráða henni frá að reyna á sig meðan hríðirnar standa yfir, og með mestu varúð skal hún rannsaka konuna um leggöngin.

c. Þá er *himnurnar eru rifnaðar,* er barninu mikil hætta búin, og verður yfirsetukonan, þegar svo tekst til, að veita konunni alla þá hjálp, er hún má, því eigi er ávallt svo ástatt, að hægt sje þegar að ná í lækni; en það skal hún hafa hugfast, að óhætt er að bíða komu hans, meðan æðaslátturinn í naflastrengnum er öflugur og tíður, einkum sje svo ástatt að hann liggi í legopinu eða rjett fyrir innan það; yfirsetukonan skal þá eigi annað gjöra en láta konuna liggja kyrra á þá hliðina, sem naflastrengurinn er siginn niður. Minnki aptur á móti æðaslátturinn í naflastrengnum og verði yfirsetukonan vör við það, er hún rannsakar konuna, þá er verður á milli hríðanna, þá er aðferð sú, sem hún skal við hafa, undir því komin, hvort höfuð eða bol burðarins ber að.

Beri *höfuðið* að, skal yfirsetukonan reyna til með gætni að ýta naflastrengnum lengra upp eptir grindarholinu aptur fyrir höfuð burðarins; hún skal fara með hönd sína inn í leggöngin með sama hætti og getið var um að farið var þegar snúa skyldi burðinum við. Þegar þetta er gjört með stillingu og þoli, og þegar konan, meðan á því stendur, þrýstir eigi niður á við, fer optast svo, að það tekst að koma naflastrengnum aptur fyrir höfuðið og að svo búnu skal yfirsetukonan sjá svo um að hann eigi sígi aptur niður, og tekst henni það bezt með þeim hætti, að hún sje kyr með höndina í móðurleginu, þangað til að hún verður þess vör, að það kiprast fast um hendina, og skal hún þá fyrst hægt og hægt þoka höndinni út úr fæðingarpörtunum. En takist eigi svo heppilega til, en naflastrengurinn færist óðum lengra niður eptir fram undan höfðinu, verður yfirsetukonan að láta sjer það eitt lynda

að halda flækjunni inn í leggöngunum, og í því skyni skal hún láta njarðarvött, er hún hefur vætt upp úr volgri olíu, liggja fyrir innan blygðunarbarmana, og bíða svo læknis, ef hins vegar hríðirnar eigi koma höfðinu fyr í ljós.

En þá er *sitjandann* eða *fæturna* ber fyrst að í fæðingunni, og þannig er ástatt, að legopið er orðið með öllu víkkað út, mun bezt fara, að yfirsetukonan þegar nái burðinum í ljós með þeim hætti, sem sagt er, þá er skýrt var frá sitjandafæðing og fótafæðing.

d. Allt það, er hjer hefur sagt verið, miðar einungis til þess að bjarga lífi burðarins, en hins vegar er sjálfsagt, að engu skiptir þó naflastrenginn beri fyrst að, ef burðurinn er dauður, og má slíkt ráða af því, að naflastrengurinn er kaldur viðkomu, og eigi finnst til blóðstraumsins um æðarnar, en þá svo stendur á, skal fara með fæðinguna að öllu leyti, sem naflastrengurinn alls eigi hefði sígið niður.

---

## Fjórði kapítuli

*um missmíði á legkökunni.*

214. grein.

Vera má að legkakan tálmi með ýmsum hætti fæðingunni eða hafi skaðvæn áhrif á hana, sumpart að því leyti, að hún liggur með einhverjum hætti óeðlilega í leginu, sumpart að því leyti, að stundum losnar of fljótt um hana í fæðingunni, og stundum veitir örðugt að ná henni lausri eða út um hina ytri fæðingarparta um lok fæðingarinnar.

*1. Hjer segir, með hverjum hætti legkakan liggur óeðlilega í leginu.*

215. grein.

*Legkakan liggur óeðlilega í leginu,* þá er hún er áföst við hinn neðri hluta legsins, í stað þess að hún á að liggja ofarlega í leginu þá er allt fer eðlilega, og stundum liggur hún um sjálft legopið og leghálsinn. Stundum ber við, að legkakan liggur með öllu fyrir legopinu og lokar því, en stundum lokar hún einungis nokkrum parti af legopinu, en hinn hluti hennar liggur upp um leghálsinn.

216. grein.

*Merki þau,* er lýsa því, að legkakan liggi fyrir legopinu, eru þessi: konan fær ávallt blóðlát, stundum þegar á hinum síðustu mánuðum meðgöngutímans og allajafna í fæðingunni. Verður slíkt með þeim hætti, að á hinum tveim eða þrem síðustu mánuðum meðgöngutímans tekur leghálsinn að víkka út, en af því leiðir aptur, að legkakan losnar við hann á sumum stöðum, og missir þá konan allajafna blóð. En stundum tekst svo heppilega til, að konan eigi missir blóð síðast á meðgöngutímanum, enda þótt legkakan liggi með þessum hætti, en í fæðingunni, þá er legopið tekur til að víkka út, og losnar um legkökuna, má allajafna ganga að því vísu, að konan missi mikið blóð, og eykst blóðrennslið þeim mun meira, sem hríðirnar víkka legopið út. Af þessu má auðsætt verða, að mest er blóðlátið meðan hríðirnar standa yfir, en síðar verður nokkurt hlje á því, þá er þeim hættir. En hins vegar eru hríðirnar almennast mjög svo magnlitlar, og

leiðir slíkt beinlínis af því, að konan er máttfarin af blóðmissinum.

Það eru því allajafna nokkrar líkur til, að legkakan liggi um leghálsinn, þá er konan á vanda fyrir að missa blóð síðast á meðgöngutímanum, án þess menn viti nokkra orsök til þess; stundum hættir blóðrennslið af sjálfu sjer, en kemur aptur að nokkrum dögum liðnum. Þá er og allajafna *líklegt,* að legkakan liggi um leghálsinn, ef yfirsetukonan verður þess vör, þá er hún rannsakar konuna um leggöngin, að hann er þrútinn viðkomu og mjúkur, og óglöggt má finna til nokkurra parta burðarins innan undir honum. Fyrst má *ganga úr skugga um*, að legkakan liggi niður á leghálsinum, þá er í fæðingunni má finna til hennar innan undir legopinu, og er hún eins og njarðarvöttur við komu. Liggi legkakan fyrir legopinu sjálfu, er með öllu auðsætt, að eigi verður fundið eða náð til himnanna; en loki hún einungis nokkrum parti af legopinu, finnur yfirsetukonan öðru megin til himnanna, en hinu megin til legkökunnar.

## 217. grein.

*Hvernig fæðingunni lýkur.* Þá er legkakan liggur með þessum hætti, hefur hún allajafna mjög skaðvæn áhrif á fæðinguna, einkum vegna þess, að konan missir blóð í sífellu, og sje eigi með ráðum betur sjeð fyrir, er optast líf konunnar og burðarins í veði. En hins vegar er þó eigi konunni eða burðinum alltjend jafn mikil hætta búin, heldur fer slíkt að nokkru leyti eptir því, hve máttfarin konan verður, og eins eptir því, að hve miklu leyti legkakan lokar legopinu. Liggi legkakan að öllu leyti fyrir legopinu, og eigi verður í tækan tíma

betur sjeð fyrir, mun konunni optast blæða til ólífis annað hvort áður en burðurinn er kominn í ljós, eða skömmu eptir fæðinguna. En standi svo á, að einungis nokkur hluti af börmunum á legkökunni liggi öðru megin fyrir legopinu, má opt svo takast til, ef konan eigi hefur misst mikið blóð, áður en hún lagðist á gólf, og burðurinn liggur á lengri veginn þannig að sitjandann eða höfuðið ber fyrst að í fæðingunni, og hríðirnar eru með öllu eðlilegar, að náttúran ein megi gjöra enda á fæðingunni, og verður slíkt með þeim hætti, að hríðirnar þrengja þeim parti burðarins, er fyrst ber að, þegar er himnurnar eru rifnaðar, niður í leghálsinn, þar er legkakan er losnuð við hann, og stöðvar þá þessi partur burðarins að nokkru eða öllu leyti blóðrennslið úr þessum hluta leghálsins. Þó tekst sjaldan svo heppilega til, og fyrir þá sök skal yfirsetukonan aldrei skjóta því á frest að láta sækja lækni.

218. grein.

En hvað allri *meðferð* viðvíkur, þegar fæðingin verður með þessum hætti, þá er með öllu auðsætt, að það er skylda yfirsetukonunnar að láta þegar sækja lækni, er hún verður áskynja um, að legkakan liggur fyrir legopinu, því að öðrum kosti er líf burðarins og konunnar í veði. En sökum þess að opt má vera, að annað hvort komi yfirsetukonan of seint til konunnar, eða blóðlátið er svo mikið, að hjálpar þarf við í snöggu bragði til að bjarga lífi konunnar, en langt er til læknis, þá verður yfirsetukonan að kynna sjer til hlítar, hvernig með skal fara þá þannig er ástatt, svo hún ein megi hjálpa konunni, þegar þenna vanda ber að böndum. En þó er þetta eigi svo að skilja, að hún skuli þar fyrir

skjóta á frest að láta sækja lækni, því opt ber eigi síður nauðsyn til, að hann sje til staðar, þó konan sje búin að eiga barnið.

Þegar konan fær blóðlát á hinum *síðustu mánuðum af meðgöngutímanum*, og engin merki þess lýsa sjer annars vegar, að komið sje að fæðingunni, skal þegar reyna til að stöðva blóðrásina, að svo miklu leyti verða má, og sjá svo um, að hún eigi síður komi að konunni, en slíkt má verða með þeim hætti, að láta konuna halda kyrru fyrir í rúminu og hafa heldur svalt í herberginu, sem hún er í, gefa henni súran og kælandi þorstadrykk (sítrónusafa, eða edik blandað með vatni), og vara hana við að njóta megns matar eða áfengra drykkja, svo sem er sterk kjötsúpa, vín eða kaffe, og vera má, að læknirinn geti og gjört nokkuð að með ýmsum meðölum. Með þessum hætti mun opt takast til, að konan eigi missi blóð svo nokkru nemi það sem eptir er af meðgöngutímanum, og er mikið unnið við slíkt bæði fyrir konuna og burðinn. Af þessum rökum skal og yfirsetukonan varast að við hafa nokkur meðöl, hvorki útvortis nje innvortis, er mega auka samdrættina í leginu, því annars er hætt við, að fæðinguna beri að í ótíma.

219. grein.

Sje *fæðingin* aptur á móti þegar *byrjuð* og blóðlátin aukast sökum þess að legopið tekur til að opnast og víkka út og lífi konunnar þannig er meiri hætta búin, þá skal yfirsetukonan, þar til læknir kemur, troða upp í leggöngin og er tvennt unnið við það, það annað, að blóðlátin stöðvast, og hitt, að legopið víkkar meira út.

Almennast er *að troða upp í leggöngin* með þessum hætti: fyrst skal leggja næst legopinu mjúkan njarðarvött eða saman vafið línskaf, en væta það áður upp úr ediki og eins njarðarvöttinn, og skal með tveim fingrum þoka hönum hægt upp eptir leggöngunum upp að legopinu; því næst skal vel og vandlega troða upp í öll leggöngin línskafi eða líni allt út að hinum ytri fæðingarpörtum, og binda síðan um með línpjötlu og ljereptstrimli, er nær upp að kviðarbeltinu um konuna að framan, og þaðan á bak aptur upp í beltið á lendunum. Konan skal halda fast saman lærunum, og við svo búið skal standa, og sjá hver áhrif slíkt hefur. En meðan blóðrásin stöðvast með þessum hætti og eigi dregur mjög máttinn af konunni, skal engan hlut að eiga; en verði yfirsetukonan þess vör, að blóð drepur í gegn um umbúðirnar út úr leggöngunum, eða og hins vegar máttinn dregur af konunni og hún fölnar og kvartar um sáran sviða í leggöngunum, án þess þó að vart verði við blóðrennsli, skal þegar taka allar umbúðirnar út úr leggöngunum, því eigi tjáir að bíða komu læknis, og skal yfirsetukonan því næst leitast við að komast að, hversu fæðingunni líður.

Yfirsetukonan skal stöðuglega hafa gætur á því, hvort máttinn dregur af konunni, og verður nú meðferðin nokkuð ýmisleg eptir því hvort legkakan liggur í öllu legopinu eða einungis fyrir nokkrum hluta af því.

220. grein.

1. Sje svo ástatt, að *legkakan liggi fyrir öllu legopinu,* þá er sá einn vegurinn til að bjarga lífi konunnar að *snúa burðinum við* og toga hann síðan út. Þegar því legopið er svo mikið víkkað út, að eigi veitir

örðugt að komast með hendina inn um það, þá skal tafarlaust snúa burðinum við, og toga hann síðan út eptir reglum þeim, sem getið er um í 222. grein. Sje legopið aptur á móti eigi enn svo stórt, er mikið undir því komið að ákveða, hvenær tími er til að snúa burðinum við, og skal skýrt frá þessu í næstu grein.

221. grein.

Hvað því viðvíkur, á *hverjum tíma* burðinum verður bezt snúið við, þá er þess hjer eigi að dyljast, að bezt fer að láta slíkt bíða þess, að legopið sje víkkað svo mikið út, að hægt sje að fara með höndina upp um það án tálmunar. En opt ber við, að lífi konunnar er hætta búin, og fyrir þá sök verður allajafna eigi komið við að skjóta því á frest að snúa burðinum við, því hætt er við, að konan deyji stundum úr blóðlátinu, áðr en legopið er víkkað nógu mikið út. Af því er nú hefur verið sagt, má auðsætt verða, að fara skal eptir því, hvernig konunni líður og eptir blóðlátinu, en síður eptir því, að hve miklu leyti legopið er víkkað út, þá er ákveða skal, hvenær tími er til þess kominn, að snúa burðinum við, en þess ber að geta, að ávallt skal draga slíkt meðan eigi dregur máttinn af konunni, en sje svo, að tjái eigi að draga það lengur, skal þegar snúa burðinum við, enda þótt legopið sje lítið eitt orðið víkkað út, og eigi sje hægt að koma inn um það nema fáeinum fingrum.

Meðan eigi ber bráða nauðsyn til að snúa burðinum við, skal yfirsetukonan það eitt gjöra að reyna til að stöðva blóðrásina, og að öðru leyti bíða þess tíma, að legopið víkki betur út. Yfirsetukonan skal troða upp í leggöngin að nýju með þeim hætti er hjer að

framan var skýrt frá, og mætti þá jafnframt láta konuna taka 40 kanelsdropa í matspæni af kælandi mixtúru og gjöra það á hverri klukkustund.

Þegar yfirsetukonan aptur á móti sjer, að líf konunnar er í veði, er það skylda hennar þegar í stað að snúa burðinum við, og skal hún fyrst smátt og smátt víkka út legopið með þeim hætti, sem getið er um í 222. grein.

Það er af því, er nú hefur sagt verið, auðsætt, að mest er undir því komið að snúa burðinum við einmitt þá tími er til þess, en hins vegar veitir mjög svo örðugt að ætlast á hinn rjetta tíma, en þó má geta þess, að slíkt verður að mestu leyti að fara eptir því hvernig konunni líður, eptir útliti hennar, hvernig hörundshitinn er og slagæðin og hversu mikið blóð hún hefur misst, en á hinn bóginn hlýtur og slíkt að nokkru leyti að fara eptir því sem stendur á í hvert skipti, en auðsætt er, að slík nærgætni er yfirsetukonunni ofvaxin.

## 222. grein.

*Snúa skal burðinum* við þegar svo er ástatt, sem nú var sagt, að mestu eða öllu leyti með hinum sama hætti, sem skýrt er frá hjer að framan, eða með öðrum orðum, líkt og almennt er farið að því. Einungis ber þess að geta, að opt má vera, að snúa þurfi burðinum við, þá er fæðingin verður með þessum hætti, enda þótt legopið sje lítið eitt víkkað út, en síður er hætt við, að í þessu tilfelli hljótist tjón af slíku, því legopið þolir betur teygjuna, enn í hitt skiptið. Aðferðin er þessi: gjöra skal höndina frammjóa og fara með hana með venjulegum hætti um leggöngin upp að legopinu, og skal yfirsetukonan víkka það hægt og hægt út með

fingurgómunum þangað til öll höndin kemst upp um það. Síðan skal yfirsetukonan komast eptir á hverri hliðinni í legopinu legkakan er mest losnuð við það, og að svo búnu rjettir hún úr fingrunum og þokar þeim hægt upp eptir millum þessa barms legopsins og legkökunnar, og heldur hún með þessum hætti áfram þangað til hún finnur með allri hendinni til himnanna fyrir ofan barminn á legkökunni. Um himnurnar má hún síðar glöggt finna og aðgreina hina einstöku parta burðarins, og skal hún síðan sprengja þær og ná traustu haldi utan um fæturna, og toga þá svo niður í leggöngin. Hríðirnar flýta mjög lítið fæðingunni þegar hún verður með þessum hætti, og fyrir þá sök verður yfirsetukonan allajafna þegar að ná burðinum í ljós, og er aðferðin hin sama, og þá er fæturna ber fyrst. Um leið og burðurinn fer um leggöngin, losnar optast með öllu um legkökuna, og kemur hún því þegar á eptir í ljós; en takist eigi svo til, er allajafna hægt að ná henni með tveim fingrum, því hún loðir einungis lauslega við legopið. Optast hættir blóðrásin þegar eptir fæðinguna, og hvort heldur sem konan fær blóðlát með þessum hætti eða af öðrum orsökum, er meðferðin öll hin sama.

223. grein.

2. Liggi legkakan einungis fyrir nokkrum hluta af legopinu, þannig að til einhverrar hliðarinnar í legopinu má finna barminn á legkökunni, en himnurnar og legvatnið ber að í það með venjulegum hætti, þá er konunni allajafna minni hætta búin, og opt má vera að náttúran ein megi gjöra enda á fæðingunni, þá er konan eigi hefur þegar misst mikið blóð, og hún er nokk-

urnveginn hress og burðurinn liggur eðlilega og hríðirnar eru magnmiklar.

Þegar þannig er ástatt, skal yfirsetukonan það eitt aðgjöra að troða upp í leggöngin og bíða þangað til legopið er einn eða tveir þumlungar á vídd. Þegar legopið er orðið svo víkkað út, má vera að blóðrásin alveg stöðvist þegar himnurnar springa; en það skal yfirsetukonan hafa hugfast, að sprengja eigi himnurnar nema því að eins að burðurinn liggi á lengri veginn. Sje hún eigi viss um að svo sje, fer bezt að hún bíði komu læknis eða þar til að hún sjálf er viss um, að burðurinn liggi á lengri veginn, og skal hún á meðan að nýju troða upp í leggöngin. En fari svo, að magnið dragi úr hríðunum, þá er á fæðinguna líður, eða konan fái blóðlát að nýju, má þó allajafna ná burðinum í ljós með tönginni. Áður höfum vjer skýrt frá, hvernig með skal fara, þá er legkakan liggur fyrir öllu legopinu, og er þar sagt, að meðferðin er að öllu leyti komin undir því, hvernig konunni líður, og hve ákaft blóðlátið er, en hinu sama máli er og að gegna í þessu tilfelli, þá er legkakan einungis að nokkru leyti liggur fyrir legopinu. Fyrir þá sök skal þegar snúa burðinum við þá er yfirsetukonan verður þess vör fyr á fæðingunni, að allan mátt dregur af konunni sökum blóðláts, og einungis með þessum hætti verður lífi konunnar bjargað, líkt og þá er legkakan liggur fyrir öllu legopinu.

2. *Hjer segir, með hverjum hætti legkakan losnar frá leginu á hinum fyrstu köflum fæðingarinnar, en af slíku leiðir, að konan fær blóðlát.*

224. grein.

Fremur sjaldan ber við, *að konan fái blóðlát á*

*þremur hinum fyrstu köflum af fæðingunni,* eða með öðrum orðum, áður en burðurinn er kominn í ljós, nema þá er legkakan liggur fyrir legopinu að nokkru eða öllu leyti, en orsökin til þess, að þannig fer, er algengast sú, að um legkökuna losnar of fljótt í fæðingunni.

225. grein.

Opt losnar um legkökuna of snemma á fæðingunni sökum þess, að konunni sinnast í snöggu bragði, eða óþol kemur að henni og hún biltir sjer hastarlega, eða hart er komið við kviðinn á henni, eða hún fær uppköst og hósta, o. fl. þk. Eins má og hins vegar slíku valda: að hríðirnar eru harðar og óeðlilegar, eða himnurnar eru seigar og rifna eigi, og stundum má og vera, að því sje um að kenna, að naflastrengurinn sje of stuttur, en þó mun varla losna um legkökuna sökum þessa, fyr en höfuðið er að mestu eða öllu leyti komið í ljós.

226. grein.

Auðsætt er, að stundum verður blóðlátið meira, en stundum minna eptir því sem á stendur. Mest er blóðlátið allajafna þegar samdrættirnir líða úr leginu um leið og hverri hríð hættir, en þar á móti stöðvast það að nokkru eða öllu leyti meðan samdrættirnir eru í leginu og hríðirnar standa yfir, en þá er legkakan liggur fyrir legopinu, eykst blóðlátið allajafna meðan hríðirnar standa yfir, og er áður skýrt frá slíku.

Almennast er konunni eigi jafn mikil hætta búin þá er hún fær blóðlát með þessum hætti, eins og af blóðláti, þá er legkakan liggur fyrir legopinu, eða ef það

kemur að henni eptir fæðinguna, og er sú orsökin til þess, að sumpart fær hún varla blóðlátið þá þannig er ástatt, fyr en fæðingin byrjar, og heldur er eigi slíkt blóðlát jafn ákaft og í hinum tilfellunum; sumpart veitir og miklu hægar að auka samdrættina í leginu í þessu tilfelli og á þessum köflum fæðingarinnar, og má slíkt verða með ýmsum hætti, en blóðrásin stöðvast með þessu móti, eins og áður er sagt. Takist svo til, að konan fái blóðlát þegar í byrjun fæðingarinnar, þá eru allar líkur til, að það hætti af sjálfu sjer eptir að himnurnar eru rifnaðar. En sje blóðlátið mikið og það helzt um nokkra stund, dregur það opt magnið úr hriðunum, og konan verður að lokum mjög máttfarin.

227. grein.

Hvað *hjálpinni* viðvíkur, þegar fæðingin verður með þessum hætti, þá er allajafna ráðlegast að láta þegar sækja lækni, eins og þá hvern annan vanda ber að höndum. En þangað til hann kemur, skal yfirsetukonan gæta þess eins, að reyna til að stöðva blóðrásina með þeim hætti, sem áður er sagt, og bezt eiga við meðöl þau, er venjulega auka samdrættina í leginu, til að mynda strjúka um kviðinn með hendinni þar sem legbotninn er undir, kanelsdropar (gefa skal konunni inn 30—40 dropa af þeim í senn), og takist svo til, að blóðlátið verði mikið á hinum fyrstu köflum fæðingarinnar, skal þegar sprengja himnurnar, en þó viljum vjer taka yfirsetukonunni vara fyrir að gjöra slíkt, ef blóðlátið eigi er mikið, og allajafna ber þess að gæta, að hún sje búin að komast með vissu eptir, hvort burðurinn liggur skakkt eða öfugt. Aukist blóðlátið eptir að legvatnið er runnið út, og máttinn dregur af konunni,

mundi bezt fara að ná burðinum þegar í ljós, annað hvort með tönginni, eða með þeim hætti að snúa honum við, ef legopið annars vegar er orðið svo víkkað út, að því verði komið við. En sje svo, að legopið tálmi slíku, er engin vænlegri kostur fyrir höndum, en að reyna til að troða upp í leggöngin og stöðva með þeim hætti blóðlátið þangað til læknir kemur.

Allajafna er konunni meiri hætta búin, þá er hún fær fyrst blóðlátið eptir að burðurinn er kominn í ljós, en á undan eða eptir því að fylgjan kemur í ljós. En bezt þykir við eiga að skýra frá, með hverjum hætti slíkt má verða, um leið og sagt verður frá, með hverjum hætti örðugleikar verða á því, að fylgjan komi í ljós.

*3. Hjer segir, með hverjum hætti örðugleikar verða á því, að um legkökuna losni og henni skjóti út.*

Vjer skulum hjer skýra frá því þá er *legkakan eptir fæðinguna eigi losnar*, *frá blóðlátum eptir fæðinguna* og *þá móðurlegið snýst við eptir fæðinguna.*

228. grein.

Vera má, að margt tálmi því, að fylgjan komi í ljós í tækan tíma, og má til þess telja: 1) *að máttleysi er í leginu*, en samdrættirnir eru fyrir þá sök mjög linir; 2) *að legið kiprast með öllu óeðlilega saman* og *taugateygjur koma í það*; 3) að *legkakan eigi losnar frá leginu* á tækum tíma, sökum þess að hún loðir fast við það.

229. grein.

1. Þá er *máttleysi hleypur í legið*, er venjulegast sú orsökin til þess, að annað tveggja hefur fæðingin

orðið venju fremur langvinn og örðug, eða burðurinn hefur komið of snögglega í ljós. Vera má og að slíku valdi, að legið hefur víkkað út um of, sökum þess að legvatnið er of mikið, eða þá er konan á tvíbura, eða burðurinn er venju fremur fyrirferðarmikill. Máttleysi í leginu sýnir sig almennast með þeim hætti, að hríðirnar annað hvort hætta með öllu, eða þær eru mjög svo linar eptir að burðurinn er kominn í ljós, og hins vegar kiprast legbotninn eigi saman fyrir ofan lífbeinið eins og venja er til, en hann liggur langt upp í kviðnum.

230. grein.

2. Stundum ber við, að *óeðlilegir samdrættir koma í legið* eptir að burðurinn er kominn í ljós, og tálmar slíkt fylgjufæðingunni, en hinir óeðlilegu samdrættir lýsa sjer optast með þeim hætti, að þeir byrja eigi, eins og venja er til, í legbotninum og ganga þaðan niður á við, heldur koma hjer og hvar í legið, og þá þeir hætta á einum stað, koma þeir þegar annarstaðar í það, en að öðru leyti er máttleysi í leginu nema á þessum stöðum. En þá er samdrættirnir eru eðlilegir, koma þeir allajafna fyrst í legbotninn, og leiðir þá þaðan jafnt niður eptir öllu leginu. Þar sem hinir óeðlilegu samdrættir koma í legið, kiprast það með öllu saman, en legkakan liggur lengra upp í leginu og kemst eigi niður eptir því, hvort heldur sem hún er losnuð við það að mestu eða öllu leyti. Með þessum hætti *lokast legkakan inni í leginu*, annað hvort að hálfu eða öllu leyti, eptir því, hvort hálf legkakan, eða hún öll, liggur fyrir ofan, þar er hinir óeðlilegu samdrættir koma í legið. Áður er skýrt frá, að legið kiprast þannig sam-

an á ýmsum stöðum, stundum ofarlega og stundum neðarlega um legbolinn, stundum meira á annari hliðinni, en hinni, og opt ber við, að legið kiprast saman með þessum hætti þar sem legbolurinn og leghálsinn mætast, við innra legopið.

Með ýmsu móti getur að borið, að óeðlilegir samdrættir hlaupi í legið, svo legkakan verði með öllu lokuð inni í því, og t. a. m. veldur opt slíku, að fæðingunа ber snögglega að, eða konan kemur mjög hart niður þegar í byrjun hennar, eða óhönduglega er togað í naflastrenginn til að ná legkökunni í ljós, eða og loðir legkakan of fast við legið, einkum á fremri hlið legsins; en optar veitir mjög svo örðugt að komast með vissu eptir, hvort orsökin til hinna óeðlilegu samdrátta er þessi eða hin.

Þegar legkakan lokast inni í leginu með þessum hætti, eru hinar síðari hríðir venjulega mjög þjáningarmiklar; þá er yfirsetukonan fer höndum um kvið konunnar að utanverðu, má hún glöggt komast eptir, að legið er bæði fyrirferðarmikið og liggur langt uppi í kviðnum, og er lögun þess opt mjög óeðlileg, og stundum er það svo sem undið út á aðra hliðina, og hjer um bil á miðju leginu má finna, að það kiprast saman og með þessum hætti verður lögun þess áþekk stundaglasi. Opt er legið viðkvæmt þar sem hinir óeðlilegu samdrættir eru í því. Enn glöggara má komast eptir slíku með því að kanna konuna um leggöngin, og skal yfirsetukonan í því skyni fara með einn fingurinn upp með naflastrengnum upp í legið, og finnur hún þá um leið hvar legið er kiprað saman, og er þar eins og lítið op, en naflastrengurinn gengur upp um það upp að legkökunni, en hún kemst eigi niður um op þetta. Þess

ber að geta, að sjaldan mun yfirsetukonan geta náð svo langt upp í legið með einum fingri, heldur mun hún til þess þurfa að fara með alla höndina inn í legið.

231. grein.

3. Enn fremur má geta þess, að opt kemur legkakan eigi í ljós sökum þess, *að hún situr með öllu föst við legið*, og má eigi losna, en sjaldan ber þó við, að öll legkakan loði við legið með þessum hætti, heldur er það einungis nokkur partur af henni. Líkur eru fyrir því, að þannig sje ástatt, þá er legið kiprast saman í hnött og konan missir blóð nokkurt, en legkakan losnar eigi, enda þótt hinar síðari hríðir sjeu með öllu eðlilegar, og annað hvort er með öllu ónáandi til legkökunnar, þá er konan er könnuð um leggöngin, eða einungis má finna til nokkurs parts af barmi hennar í sjálfu legopinu, og sje togað í naflastrenginn, kippist hann þegar inn aptur, og linað er á, og finnur konan til sárra hviða á einum stað í leginu.

Opt má vera, að það beri til þess, að legkakan eigi má losna við legið í tækan tíma, að veikindi hafa komið í hana eða legið um meðgöngutímann, og stundum er sú orsökin til þess, að legkakan er föst við hina fremri hlið legsins, en af slíku leiðir aptur, að óeðlilegir samdrættir koma í það, og lokast þá legkakan inni í því að nokkru eða öllu leyti.

Af þessum þremur orsökum til þess að legkakan eigi losnar úr leginu er hin fyrsttalda, semsje máttleysi í leginu, hin venjulegasta. En þess ber þó að gæta, að svo má vera, að fleira en eitt dragi til þess, að legkakan eigi vill losna nje henni skjóta út úr leginu.

## 232. grein.

Allajafna er mjög svo hætt við, að konan fái hættulegt *blóðlát* þá er fylgjan eigi kemur í ljós sökum vandkvæða þeirra, er nú var skýrt frá, en sú er orsökin til blóðlátsins, að nokkur hluti af legkökunni losnar við legíð, en úr því blæðir sökum þess, að það eigi dregst saman eða kiprast um leið og hún losnar frá því; og þannig má auðsætt verða, að allajafna tekst miður til, þá er fylgjan eigi kemur í ljós í tækan tíma og langt verður þess að bíða. En fái konan eigi blóðlát, og engin merki þess sýna sig á ásigkomulagi konunnar, að úr leginu blæði án þess blóðið renni út um hina ytri fæðingarparta, þá er konunni að öllum líkindum engin hætta búin, enda þótt nokkrar stundir líði, þangað til fylgjan kemur í ljós; en verði lengri bið á slíku, er allajafna hætt við, að miður takist til, og sumpart er hætt við, að rotnun komi í fylgjuna, og úr því svo er komið, hleypur opt bólga og hiti í legið, og konan tekur hættulega sængurköldu.

## 233. grein.

Þegar svo er ástatt, sem nú var sagt, fer *hjálpin*, sem hægt er að veita konunni, að mestu leyti eptir því, hvort konan fær blóðlát meðan á því stendur, að fylgjan eigi kemur í ljós. Því sýni sig ljós merki þess, að konan sje búin að fá blóðlát, hvort heldur sem blóðið rennur út um hina ytri fæðingarparta, eða það staðnæmist í leginu, þá er eigi annars kostur, en að ná með hendinni fylgjunni í ljós, en áður en gripið er til þess, skal þó fyrst reyna til að stöðva blóðlátið með ýmsum ráðum. En sýni sig engin einkenni þess, að konan hafi blóðlát, þá gefst færi á að reyna til að ná

fylgjunni í ljós með öðrum hætti, og skal við hafa til þessa ýms meðöl, er flýta því, að fylgjan losni og komi í ljós.

Ef vjer þá ímyndum oss, að sá tími sje liðinn, sem fylgjan kemur venjulega í ljós á, þá er allt fer eðlilega, en hins vegar sýna sig engin merki þess, að konan fái blóðlát, og henni líður vel að öðru leyti, þá skal reyna til að ná fylgjunni í ljós með ráðum þeim, er hjer segir, og munu þau ein opt duga.

234. grein.

Til þess að auka samdrættina í leginu, skal yfirsetukonan hvað eptir annað nudda með lófanum kvið konunnar að utan, þar sem legbotninn liggur fyrir og halda því áfram þangað til hún verður vör við, að legið kiprast saman og eins og gangi upp í kviðnum; bera mætti á kviðinn brennivín eða kamfóruolíu; láta hana taka inn 30—40 dropa á hverri hálfri klukkustundu af kanelsdropum eða gefa henni inn 30 móðurkornsdropa með stundar millibili í ein fjögur skipti. Sje hún látin taka kanelsdropana, skal hún taka þá smátt og smátt inn aptur, þá er merki þess lýsa sjer, að úr leginu blæði. Að öðru leyti skal láta konuna halda með öllu kyrru fyrir í rúminu, og banna henni að reyna á sig með nokkrum hætti, og hins vegar skal yfirsetukonan varast að toga í naflastrenginn, því hið mesta tjón má allajafna leiða af slíku, til að mynda blóðlát og umsnúningur legsins; þegar þannig er með farið, mun opt svo takast til, að samdrættirnir aukist í leginu, en af slíku leiðir aptur, að um fylgjuna losnar. En verði slíkt eigi svo sem að tveim stundum liðnum, er allajafna ráðlegast að láta þegar sækja lækni, ef eigi er fjarska langt til hans, því

hann má með ýmsum ráðum auka samdrættina í leginu, eða, ef þess gjörist þörf, má hann og ná fylgjunni í ljós með hendinni. Eigi er hægt að ákveða með vissu, hve lengi skal skjóta því á frest að ná fylgjunni í ljós með hendinni, þá er annars vegar engin merki þess lýsa sjer, að konan hafi blóðlát, en hitt er þó víst, að varla er ráðandi til að skjóta því lengur á frest, en mest 2—3 stundir eptir að burðurinn er kominn í ljós, því hinar síðari hríðir skjóta fylgjunni sjaldan einar í ljós þegar svo langur tími er liðinn. Verði þess vegna eigi náð til læknis á þessum tíma, verður yfirsetukonan að ráðast í að ná fylgjunni í ljós, og hið sama er að segja um hvern annan vanda, sem ber að höndum á þessum kafla fæðingarinnar.

235. grein.

Sjeu samdrættirnir í leginu óeðlilegir, og nokkrar líkur eru hins vegar fyrir því, að legið sje með þeim hætti kiprað saman á einum stað, að fylgjan eigi má koma í ljós sökum þess, þá má opt vera, að takast megi að ráða bót á slíku, ef konan annars vegar eigi hefur blóðlát, með því að hjúkra vel að henni og núa kviðinn utan með kamfóruolíu og gefa konunni að drekka heitt seyði af kamillutegrasi. Þá er miklum svita hellir út um allan líkama konunnar með þessum hætti, verða hríðirnar opt úr því að mestu leyti eðlilegar, og samdrættirnir aukast í leginu, og fylgjan kemur þá opt hvað af hverju í ljós.

Í þeirri von, að þannig takist til, getur yfirsetukonan skotið því nokkra stund á frest að láta sækja lækni, þá þannig er ástatt, en þegar hann kemur, mun hann reyna til að auka samdrættina í leginu með ýms-

um hætti, eða og gjöra enda á fæðingunni með því að ná fylgjunni í ljós með hendinni. En sje langt til læknis, mun heldur eigi ráðandi til að skjóta því lengur á frest í þessu tilfelli að ná fylgjunni í ljós, en mest 4 stundir, en sjálfsagt er, að þegar skal yfirsetukonan ná henni í ljós, þá er konan hefur blóðlát.

236. grein.

En *loði legkakan svo fast við legið, að hún eigi má losna við það,* og hún eigi kemur í ljós sökum þessa, þá eru þó nokkrar líkur til, að hún losni að lokum af sjálfri sjer, ef samdrættirnir í leginu annars vegar eru með öllu eðlilegir og ákafir. Sökum þessa er allajafna ráðandi til, þá þannig er ástatt, að reyna til að auka samdrættina í leginu með því að núa kvið konunnar að utanverðu, eins og vjer höfum sagt að duga mundi í því tilfelli, er skýrt er frá hjer að framan, og að minnsta kosti ber þess allajafna að gæta, að láta nokkra stund líða án þess að eiga nokkurn hlut að, en varast að toga í naflastrenginn, því vera má, að þá losni legkakan síður. En fari svo, að hún eigi losni svo sem eptir tvær stundir, mun bezt fara að láta þegar sækja lækni, en hann einn má ákveða, hvenær ná skal legkökunni í ljós með ráðum, en þess ber þó að geta, að sjaldan mun ráðandi til að draga slíkt lengur en tvær stundir eptir að burðurinn er kominn í ljós. En verði eigi náð til læknis sökum vegalengdar, verður yfirsetukonan ein að ná fylgjunni í ljós með höndunum.

237. grein.

Samkvæmt áður sögðu viljum vjer taka fram nokkr-

ar *almennar reglur*, er yfirsetukonan skal fara eptir, þá er fylgjan eigi kemur í ljós með eðlilegum hætti.

a, aldrei skal yfirsetukonan, hvernig sem á stendur, láta fylgjuna liggja svo lengi inni í leginu án þess að ná henni í ljós, að hætt sje við, að rotnun komi í hana.

b, þá er fylgjan eigi kemur í ljós eptir tvær stundir frá því barnið er fætt, skal þegar sækja lækni, ef annars vegar engin merki þess lýsa sjer að konan hafi blóðlát, og eigi er mjög langt til hans.

c, þá er yfirsetukonan kemst að því, að konan hefur blóðlát og líf hennar er í veði með þessum hætti, skal hún þegar, ef eigi verður náð til læknis, sjálf ná fylgjunni lausri og út um hina ytri fæðingarparta, og er slíkt sá hinn eini vegur til að stöðva blóðrásina og bjarga lífi konunnar.

238. grein.

Það er því með öllu auðsætt, að mikils er áríðandi, að yfirsetukonan kunni að því *að ná fylgjunni í ljós*, þá langt er til læknis, en þannig skal með fara: með vinstri hendinni skal toga lítið eitt í naflastrenginn, en á hægri höndina skal yfirsetukonan bera flot eða ósaltað smjör, og gjöra hana síðan frammjóa, og fara með hana upp með naflastrengnum um leggöngin og legopið upp í legið, þangað er legkakan er föst við það, en fingrunum skal hún allajafna halda fast saman, svo himnurnar lendi eigi á milli þeirra og tefji eða villi fyrir henni. Þá er yfirsetukonan er komin upp að legkökunni, skal hún fara með fingurna milli legkökunnar og legsins, þar er hún er losnuð við það, með þeim hætti, að handarbakið skal snúa út að leginu, en síðan skal hún hægt og hægt reyna til að losa legkökuna frá

17. mynd.



*Á mynd þessari verður að hugsa sjer, að vinstri helmingur grindarinnar sje tekinn burt, þannig að sjá má, hvernig farið er að losa legkökuna.* d *merkir þvagblöðruna,* f *endagörnina.*

leginu, en varast skal hún að koma við legið sjálft að því leyti hjá verður komizt. Opt má vera, að styðja þurfi með vinstri hendinni utan á kvið konunnar, þar er legbotninn er fyrir og reyna til að halda honum í nokkrum skorðum meðan verið er að ná legkökunni lausri. En þá er yfirsetukonan er búin að ná legkökunni lausri, tekur hún utan um hana alla með hendinni, og nær henni hægt og hægt niður um leggöngin og út um hina ytri fæðingarparta, og þegar skal skoða hana vandlega, og vita hvort nokkur partur hennar hefur orðið eptir í leginu, og skal þá þegar fara með höndina inn í það, og ná honum út með hinum sama hætti.

Verði yfirsetukonan þess vör meðan hún er að ná legkökunni lausri, að nokkur partur af henni er svo fast gróinn við legið, að eigi er hægt að ná honum lausum með áður sögðum hætti, þá viljum vjer taka henni vara fyrir að beita afli til þessa, því af slíku er konunni allajafna mikil hætta búin, heldur skal yfirsetukonan reyna til að klípa með fingrunum legkökuna í sundur svo nærri þessum fasta parti hennar sem verða

má, en láta hann sitja eptir, og mun hann þá síðar koma í ljós. Fari svo, að sakir þessa verði mjög vond lykt að hreinsuninni, skal yfirsetukonan fyrstu dagana eptir fæðinguna spröita inn í legið hafursúpu eða seyði af kamillutegrasi eða hreinu volgu vatni.

Standi svo á, að legkakan sje lokuð inni í leginu með áður sögðum hætti, og hún eigi kemur í ljós sökum þessa, en hins vegar beri nauðsyn til, að henni sje náð þegar í ljós, sökum þess, að konan fær blóðlát, skal yfirsetukonan fara með höndina upp með naflastrengnum með áður sögðum hætti inn í legið, en með hinni hendinni skal hún, eins og áður er sagt, styðja utan á kvið konunnar, þar er legið liggur fyrir, en þessu samfara reynir hún til með fingrunum með mestu varúð að víkka legið hægt og hægt út, þar sem það er kiprað saman, og heldur hún slíku fram, þangað til hún kemst með alla höndina upp að legkökunni, og skal hún úr því ná henni í ljós með áður sögðum hætti. Takist þetta, kiprast legið optast þegar eðlilega saman, og blóðrásin stöðvast.

18. mynd



Þegar yfirsetukonan þannig verður að ná fylgjunni í ljós, er auðsætt að konan verður allajafna að hafa hátt undir sitjandanum.

239. grein.

Á þessum stað þykir við eiga að skýra enn frá *blóðlátinu*[1], þá er konan fær það á þessum kafla fæðingarinnar, og má vera, að það komi að henni bæði *á undan* og *eptir*, að fylgjan er komin í ljós, en eigi er það alltjend jafn hættulegt, en þó er konunni allajafna nokkur hætta búin af slíku.

Stundum rennur allt blóðið út um hina ytri fæðingarparta (konunni blæðir út), en stundum tekst eigi þannig til, annað hvort sökum þess, að nokkur hluti af legkökunni eða himnurnar eða storkið blóð liggur fyrir legopinu, eða og sökum þess, að legopið sjálft er svo fast kiprað saman, að blóðið eigi nær að renna út um það, og safnast það þá allt fyrir inni í leginu (konunni blæðir inn).

240. grein.

Auðsætt er, að hægt er að komast eptir, að konan hafi blóðlát, þá er blóðið rennur út um hina ytri fæðingarparta, en eigi er síður áríðandi að gæta þess vandlega að komast í tækan tíma eptir, hvort allt blóðið safnast fyrir inni í leginu, því að öðrum kosti er líf konunnar í veði sökum þess, að allan mátt dregur af henni af blóðmissinum. Á þessum stað ber og að geta þess, að opt má svo takast til, að blóðið allt staðnæmist inni í leginu af áðurgreindum orsökum, enda þótt það í fyrstunni, þá er blóðlátið hófst, rynni allt út um hina ytri fæðingarparta, og fyrir þá sök getum vjer

1) Enda þótt nokkuð blæði úr leginu, þá má eigi slengja slíku saman við blóðlát það, er hjer segir, en þá segjum vjer, að konan hafi blóðlát, þegar máttinn dregur af henni sökum þess, að blóðrennslið er svo mikið.

þessa, svo yfirsetukonan eigi haldi, að blóðlátið sje með öllu hætt þegar þannig fer.

*Þegar blóðið safnast allt fyrir inni í leginu,* og nær eigi að renna út um hina ytri fæðingarparta, þá *lýsir slíkt sjer með þeim hætti:*

a) allt í einu finnur konan til eins konar hita í kviðnum, en um leið lýsa sjer öll einkenni þess á útliti og öllu ásigkomulagi hennar, að hún hafi fengið blóðlát, en þó rennur blóðið eigi út um hina ytri fæðingarparta. Einkenni þessi eru: andlitið fölnar og varirnar verða nábleikar, máttinn dregur af henni, en óþol og hræðsla kemur yfir hana, henni verðr illt fyrir hjartanu, vindur hleypur fyrir eyrun og henni sortnar fyrir augum, hún á bágt með að draga andann, og eins er sem hún stynji og hún geispar opt, sláttur lífæðarinnar er óður en linur, og útlimirnir stirðna af kulda; síðar líður yfir hana og hún fær taugateygjur, og er hún þá úr því með öllu að fram komin.

b) Þegar kviðurinn er kannaður að utanverðu, má eigi, þá þannig er ástatt, finna til þess, að legið kiprist saman, eins og venja er til, fyrir ofan blöðrubeinið, en það er aptur á móti mjög lint viðkomu og fyrirferðarmikið, og þenst jafnt út eins og allur kviðurinn, en slíkt orsakast beinlínis af því, að blóðið safnast fyrir inni í því.

c) hafi blóðið í fyrstunni runnið út um hina ytri fæðingarparta, en blóðrásin hættir síðar með öllu, eru og nokkrar líkur fyrir því, að blóðið muni safnast fyrir inni í leginu, þá er öll einkenni lýsa sjer, að konan hafi blóðlát, og þau aukast í stað þess að minnka; stundum má og vera, þá þannig tekst til, að yfirsetukonan finni storkið blóð fyrir legopinu, þá er hún kannar konuna um leggöngin.

241. grein.

Sú er almennast *orsökin* til blóðláts á þessum kafla fæðingarinnar, hvort heldur sem svo blóðið rennur út um hina ytri fæðingarparta, eða það safnast fyrir inni í leginu, að máttleysi hefur komið í legið, og er það stundum meira en stundum minna, því þegar legið kiprast saman með eðlilegum hætti, stöðvast og þegar blóðrásin úr æðum þeim, er rifnað hafa um leið og legkakan losnaði að mestu eða öllu leyti.

242. grein.

Af áður sögðu má þá ljóst verða, að *hjálpin*, þá þannig er ástatt, sem hægt er að veita, er að mestu eða öllu leyti í því fólgin að auka samdrættina í leginu, en með þeim hætti stöðvast blóðrásin, og má viðhafa til þess ýms meðöl.

Meðöl þau, er yfirsetukonan skal viðhafa til að auka samdrættina með í leginu, eru þessi:

a) *til inntöku*: *kanelsdropa*, og skal hún af þeim skammta konunni 30 til 50 dropa á hverri stund eða á hverjum fjórðungi stundar, eptir því sem á stendur;

b) með kaldri hendi skal yfirsetukonan ýmist *nudda* allan kviðinn að utan þar sem legbotninn er fyrir, ýmist skal hún *prísta* nokkuð fast að honum með hendinni þangað til hún verður þess vör, að samdrættir fara að koma í legið; enn fremur mætti vefja klaka innan í dúk eða láta hann í blöðru, og leggja síðan fyrir ofan blöðrubeinið og á neðri hluta kviðarins, en ef eigi fæst klaki mætti viðhafa kalda vatnsbakstra; einnig mætti spröita köldu vatni eða köldu vatni blönduðu með ediki inn í móðurlegið, og skal yfirsetukonan koma hinni bognu pípu spröitunnar upp í legið með þeim hætti, að láta

hana fylgja með vísifingri og löngutöng hinnar vinstri handar. Þegar búið er að ná fylgjunni eða hún er komin úr móðurleginu, er hið mesta gagn að því, að spröita með þessum hætti inn í legið, og mætti gjöra það tvisvar eða þrisvar eptir því sem á stendur. Til eru og þess dæmi, að hjálpað hefur að fara með kalda höndina inn í sjálft legið, og skal kreppa fingurna inn í lófann og snerta með handarbakinu allt legið að innan til þess að fá í það samdrætti, en eigi skal þó grípa til þessa fyr en í nauðirnar rekur.

243. grein.

Um leið og yfirsetukonan reynir til að stöðva blóðlátið með ráðum þeim, er nú voru talin, skal hún allajafna hafa það í huganum, að eigi stoðar það, að leitast við að koma öflugum samdráttum í móðurleginu til leiðar, þegar þannig er ástatt, að eitthvað er, sem því er til fyrirstöðu að legið megi dragast saman sem hnöttur fyrir ofan lífbeinið; og ber því nauðsyn til að koma fyrirstöðunni fyrst burt, ef hún annars vegar er nokkur. Það er einkum tvennt, sem má verða því til fyrirstöðu, að móðurlegið megi kiprast eðlilega saman, og er það, þá er mikið þvag hefur safnast í blöðruna, og þá er fylgjan situr kyr í leginu; þessu verður að koma í lag, ef búast á við að blóðlátið stöðvist. Sje þvagblaðran mjög full verður þegar í stað að tæma hana og sje fylgjan enn kyr inni í leginu verður með ráðum að ná henni í ljós, einkum ef konan missir mikið blóð og máttinn tekur að draga af henni. Síðan má gagn verða að því að viðhafa meðöl þau við blóðlátinu, sem áður var getið um, því þá er ekkert lengur því til fyrirstöðu að legið megi kiprast fast saman.

Á þessum stað þykir við eiga að taka yfirsetukonunni vara fyrir að reyna til að stöðva blóðrásina, þá er konan fær blóðlát eptir að burðurinn er kominn í ljós, með því að troða upp í leggöngin, því auðsætt er, að af slíku leiðir íllt eitt, og blóðið safnast allt fyrir inni í leginu, en áður er sagt, að þátekst allajafna miður til, en þá er blóðið rennur út um hina ytri fæðingarparta.

Þá er glögg merki þess sýna sig, að allt blóðið safnist fyrir í leginu, *að konunni blæðir inn*, ber allajafna brýn nauðsyn til að þegar sje farið með höndina inn í legið, hvort heldur sem svo fylgjan er ókomin, eða hún er komin í ljós, til þess að *hreinsa legið innan*, og ná með þessum hætti hinu storkna blóði út og fylgjunni með, ef hún er ókomin í ljós. Bezt fer að halda hendinni, þá þannig er með farið, inni í leginu, og bíða svo þess, að það kiprist saman utan um hana, og þessu samfara skal yfirsetukonan leitast við að auka samdrættina í leginu með áður sögðum hætti, og þannig stöðva blóðlátið.

244. grein.

Þegar blóðlátið hættir, ber nauðsyn til, að konan liggi með öllu kyr í rúminu um nokkra stund, því að öðrum kosti er hætt við, að yfir hana líði eða allan mátt dragi af henni, og stundum að hún fái blóðlát að nýju. Yfirsetukonan skal gæta þess, að eigi sje of hátt undir höfði konunnar, því henni hættir þá fremur við öngvitum, og hleypa nýju lopti inn í herbergið, og hjúpa hendur og fætur konunnar innan í volgum rekkjuvoðum, hita flösku við fæturnar, þvo andlitið með ediki,

og halda «salmíakspirítus» upp að vitunum á henni og næra hana á kjötsoði til að styrkja hana, og láta hana drekka lítið glas af volgu víni. Þá er konan tekur að hressast eptir nokkrar stundir og jafn ilur er kominn um allt hörundið, skal með varúð, eptir því sem á stendur, annað hvort bera hana í uppbúið rúm, eða láta hrein rúmföt undir hana, ef hún liggur í sama rúminu.

245. grein.

Með þeim hætti, er nú hefur verið skýrt frá um stund, skal yfirsetukonan með fara, þá er konan fær blóðlát á þessum kafla fæðingarinnar. En hitt er þó sjálfsagt, að allajafna er ráðlegast að sækja lækni, ef því verður komið við, þegar þannig er ástatt, en yfirsetukonan skal fyrst grípa til sinna ráða þegar í nauðirnar rekur, og sje svo, að náð verði til læknis, skal þegar vitja hans, enda þótt eigi sje von á honum, fyr en yfirsetukonan er búin að stöðva blóðrásina.

246. grein.

Á tímabili því, er fylgjan kemur í ljós, ber það við einstöku sinnum, að *móðurlegið snúist við,* og er þetta mjög hættulegt.

Sagt er að móðurlegið sje *snúið við*, þá er legbotninn sígur niður á við og út um legopið og nokkur hluti legsins eða allt legið snýst þannig við, að innri hlið þess snýr út á við, og hin ytri inn á við. Sje svo, að að eins legbotninn og nokkur hluti legbolsins þannig sje snúinn við og siginn niður í leggöngin er sagt að snúningur þessi sje að eins *að nokkru leyti*; sje aptur á móti allt legið snúið við, þannig að legbotninn sígur

niður á við og út fyrir hina ytri fæðingarparta, er sagt að umsnúningurinn sje *að öllu leyti*.

Því nær ávallt er það þegar eptir fæðinguna, að legið snýst við, og verður þetta einungis þá, er legið er lint og magnlítið, og er því mjög hætt við, að þannig takist til, þegar fæðinguna ber mjög fljótt að, eða móðurlegið áður hefur verið um of útþanið. Það, er veldur því að þannig tekst til, má því vera: Þá er barnið fæðist of fljótt, einkum ef konan stendur á fótum, óvenjulega stuttur naflastrengur, sjerhver verulegri tilraun konunnar að flýta fyrir fæðingu legkökunnar, hnerri, hósti eða uppköst, og enn fremur þá togað er ónærgætnislega í naflastrenginn meðan móðurlegið er magnlítið og svo að kalla engir drættir enn komnir í það og meðan legkakan enn loðir við legið, og er þetta vafalaust vanalegust orsökin.

247. grein.

Þegar legið þannig snýst við, má vanalega *þekkja* það á því, að í leggöngunum eða á milli hinna ytri fæðingarparta finnst til bólgu, sem er hnöttótt, lin og viðkvæm; er hún blóðrauð á lit og optast blæðir úr henni og loðir fylgjan við hana eða eigi. Sje legið umsnúið að eins að nokkru leyti, er bólgan að eins í leggöngunum, og má þá með fingrinum fara upp með henni inn í legopið, sem liggur eins og hringur utan um bólguna; sje aptur á móti allt móðurlegið snúið við, fer bólgan venjulegast út fyrir hína ytri fæðingarparta, og finnst þá hvergi til legopsins. Samfara því að legið þannig snýst við, fer konan að kvarta um drætti og verk í grindarholinu; henni verður illt fyrir bjartanu, hún verður náföl og magnlaus og yfir hana líður.

Takist svo til að fylgjan loði enn við, er hægt að þekkja að legið sje snúið við, en sje hún losnuð og komin í ljós, má svo fara að villast megi á þessu, og ber það einkum við þá er meinsemd hefur verið inni í leginu, sem eptir fæðinguna er gengin út úr því. Vanalega má þó þekkja það, að legið er snúið við, á því, að kviðurinn er þá eins og tómur fyrir ofan lífbeinið, og ekkert finnst þar til legbotnsins, sem, eins og venja er til, er hnöttóttur; hafi aptur á móti verið meinsemd inni í móðurleginu, og hún gengið niður og út um legopið og leggöngin, þá finnst þó venjulega til legsins og legbotnsins fyrir ofan lífbeinið.

Eins og áður var sagt, er það mjög svo hættulegt þegar legið snýst þannig við í fæðingunni, og er lífi konunnar hætt, sje henni eigi hjálpað með rjettum hætti í tækan tíma; konan deyr annað hvort af blóðlátum, sem venjulega eru þessu samfara, eða af hita og bólgu og síðar kolbrandi í leginu. Einstaka sinnum hefur það borið við, að konur hafa lifað lengi þótt móðurlegið hafi verið snúið við og þær gengið með það, en þetta mætti aldrei aptra oss frá því að reyna að koma því í samt lag aptur.

248. grein.

Hvað *hjálpina* snertir, er hún að mestu leyti í því fólgin, að móðurleginu sje snúið við aptur og komið í samt lag, og skal yfirsetukonan vinda bráðan bug að því og eigi bíða komu læknis, ef svo stendur á, að langt er til hans, en hins vegar skal hún allajafna sjá svo um að hans sje leitað. Yfirsetukonan skal því snúa leginu við og fara þannig að, er nú segir: konan skal liggja á bakinu og hafa lágt undir herðunum en hátt

undir sitjandanum; yfirsetukonan skal bera feiti (flot, ósaltað smjör) á hendina, gjöra hana síðan lítið eitt frammjóa, og tvístra um leið nokkuð fingrunum, og þannig taka utan um hið umsnúna leg og með þessum hætti liðkar hún hægt og hægt leginu upp eptir grindarholinu um leggöngin og legopið, og skal hún með hendinni fylgja miðlínu grindarinnar; þegar hún er búin að koma leginu inn um legopið, skal hún leggja fingurgómana saman á legið, og þoka því alveg upp á við þar til hún verður vör við að hún má hreifa hendina til og frá inni í legholinu, og að hún með þessum hætti er búin að koma leginu fyrir eins og það á að liggja. Þá er svo er komið og yfirsetukonunni hefur tekizt vel að koma leginu fyrir, skal hún gæta þess, að draga eigi þegar höndina að sjer, heldur skal hún láta hana liggja kyrra þangað til legið er farið að kiprast saman um hana, því að öðrum kosti er hætt við, að legið komist í sama horf og áður var það. Vera má að auka megi samdrættina í leginu að nýju og stöðva blóðlátið, er fylgir umsnúningi legsins, og skal viðhafa til þess meðöl þau, sem algengast eru þá svo er ástatt, og er einkum mesta gagn að því að sprōta inn í legið köldu vatni. Þegar yfirsetukonan hægt og hægt er búin að draga höndina að sjer út úr leginu og um hina ytri fæðingarparta, skal hún binda kviðarbelti um konuna, og að því búnu skal hún vandlega gæta þess, að láta konuna liggja með öllu hreifingarlausa og banna henni harðlega að hreifa sig, fyrir þá sök að opt má verða, að legið komist að nýju í hið sama horfið og konan fái blóðlát ef þessa eigi er vandlega gætt.

Þá er svo tekst til, að öll legkakan er enn föst við hið umsnúna móðurleg, er bezt, ef kostur er á, að

koma henni aptur inn með leginu í hinar rjettu stellingar og bíða svo þess, að hún losni af sjálfu sjer; en öðru máli er að gegna, þá er mestur hluti hennar er orðinn laus við legið, áður en það snerist við eða eigi tekst með hægu móti að koma legkökunni með leginu í hinar eðlilegu skorður, því þá mun bezt fara að ná henni þegar í stað lausri frá móðurleginu.

Með þessum hætti, er nú hefur sagt verið, má búast við að það takist að koma leginu fyrir í hinar fyrri og eðlilegu skorður þess, þá er yfirsetukonan reynir til þess þegar í stað er legið hefur snúist við. En síðar eptir nokkurn tíma liðinn verða ýmsir örðugleikar á slíku með þeim hætti, að jafnvel eptir fáar stundir liðnar, má vera, að því eigi verði komið við, eða að minnsta kosti að það veiti mjög örðugt. Þá er svo stendur á, er með öllu auðsætt að vitja skal þegar læknis fyrir þá sök, að vera má að hann með ýmsum ráðum megi ráða bót á þessu og koma öllu í samt lag.

## Fjórði kafli.

*Hjer segir, með hverjum hætti fæðingin verður óeðlileg þá er hana ber að í ótíma.*

249. grein.

Segja má, að fæðingin *beri að í ótíma,* þegar það verður fyr en hjer um bil við lok hins tíunda mánaðar af meðgöngutímanum[1]. En sökum þess, að menn

1) Stundum ber við, að fæðinguna ber nokkru síðar að, en venja er til, t. a. m. tvær eða þrjár vikur eptir hina fertugustu vikuna af meðgöngutímanum. En á hinn bóginn verður margt óljóst um

hafa reynsluna fyrir sjer um það, að burðurinn eigi er orðinn svo dafnaður fyrir 28. vikuna (fyrir miðjan sjöunda mánuðinn) af meðgöngutímanum, að lífið geti haldizt í honum, ef hann kemur í ljós á þessum hinum fyrri kafla meðgöngutímans, svo hafa menn komið sjer saman um að aðgreina tvennskonar fæðing, þá er hana ber að í ótíma, og fara skipti þessi eptir því, hvort konan *missir fangs* (leysir höfn) fyrir 28. vikuna (fyrir miðjan sjöunda mánuðinn), eða hún *fæðir* á tímabilinu millum 28. og 40. vikunnar (miðs sjöunda mánaðar og hins tíunda mánaðar). Þá er konan missir fangs, er annað hvort ekkert líf með burðinum, eða hann er svo líflítill, að hann deyr þegar hann kemur í ljós, en stundum helzt þó lífið í honum nokkrar stundir eptir fæðinguna. En þá er konan fæðir á hinum síðari kafla meðgöngutímans tekst opt að halda lífinu í hinu ófullaldra barni, og það því heldur, sem fæðingin verður nær hinum tíunda mánuðinum. Að öðru leyti eru þess konar fæðingar hver annari frábrugðin hvað hjálpina snertir; missi konan fangs, þá er eigi unnt að ná burðinum með ráðum, og þess gjörist heldur eigi þörf; leghálsinn er heldur eigi nógu mikið víkkaður út til þess, að komizt verði þar að með höndum eða verkfærum. Beri aptur á móti fæðinguna að allt of snemma verður hjálpin, sem konunni skal veita hin sama og þá er fæðinguna ber að á rjettum tíma.

---

slíka fæðing, því opt má vera, að fæðinguna reyndar beri að í tækan tíma, enda þótt svo líti út, sem konan hafi gengið of lengi með, og er þá sú orsök til þess, að skakkt er talið til, sem opt má verða. Að öðru leyti er með öllu auðsætt, að þess konar fæðing er með öllu jafn eðlileg og hver önnur fæðing, er ber að í tækan tíma.

# Fyrsti kapítuli

*Þegar konan missir fangs.*

250. grein.

Vera má, að konan *missi fangs* á hverjum tíma sem er á fyrstu sjö mánuðunum af meðgöngutímanum, en optast verður þó slíkt á þrem eða fjórum fyrstu mánuðunum, og einkum á hinum þriðja mánuði meðgöngutímans, og optast leysir konan höfn um þær mundir, sem hún venjulegast hefur tíðir.

251. grein.

Vera má, að margt *komi því til leiðar*, að konan missi fangs, og er konan stundum skuld í því, að þannig tekst til, stundum burðurinn, og stundum nokkrir partar af egginu.

Stundum er *konan* svo gjörð af höndum náttúrunnar, að henni hættir við að missa fangs hvað lítið sem út af ber, og stundum þó alls engin sennileg orsök sje til þess. Þegar konan á með þessum hætti vanda fyrir að missa fangs, ber það optast til þess, að hún er mjög blóðrík, eða og er hins vegar legið annað hvort mjög viðkvæmt og doði í því, stundum er lögun þess og lega óeðlileg, eða það er gróið saman við nokkra parta í grindarholinu, eða veikindi eru í trefjavefnum í því og bólga á því að utanverðu eða innanverðu, en allt slíkt veldur því, að konan missir opt fangs. Opt eiga og þær konur vanda fyrir að láta burðinum, sem hafa áður einu sinni eða optar orðið fyrir því, og hættast er við að það beri að um það leyti meðgöngutímans, er konan áður hefur misst fangs á.

Enda þótt að konan ekki eigi vanda fyrir að missa

fangs, má vera, að margt hins vegar megi *koma slíku til leiðar*, og opt veldur slíku: hastarleg hreifing og áreynsla með ýmsum hætti, t. a. m. þá er konan dettur, eða hastarlega er komið við kvið hennar og hún lyptir eða ber þunga byrði, stekkur eða ríður um ósljettan veg; eins: ákafur hósti, harðlífi og niðurgangur, og holdlegt samræði um of á hinum fyrstu þrem mánuðum af meðgöngutímanum; enn fremur: óstjórnlegar geðshræringar, t. a. m. hræðsla eða reiði, áköf kölduveiki, mikið blóðlát eða magnmikil hreinsandi meðöl eða uppsölumeðöl, o. fl. þk. Eigi konan vanda fyrir að missa fangs, skal hún allajafna vera varkár um hagi sína, fyrir þá sök, að allajafna er þá hætt við, að reki að hinu sama, ef nokkuð út af ber.

*Burðurinn* og *eggið* má að því leyti valda því, að konan missi fangs t. a. m. þá er burðurinn veikist og deyr, eða legkakan losnar með öllu, eða veikindi koma í hana, eða himnurnar skaddast með einhverjum hætti og legvatnið rennur út; að lokum má og geta þess, að opt hættir konunni til að missa fangs, þá er óeðlilegt egg er að auk í leginu.

## 252. grein.

*Um fæðinguna þá þannig er ástatt.* Fæðingin verður með hinum sama hætti, þá er konan missir fangs, að því leyti, að hríðir gjöra enda á henni. Þá er konan missir fangs á hinum fyrstu þrem mánuðum af meðgöngutímanum, áður en legkakan er fullmynduð, skýtur egginu almennast út í heilu lagi, og er það að nokkru leyti svipað kjötklumpi, en þá það er skorið í sundur, má sjá, að það er holt innan, og í holi þessu liggur

burðurinn, og hangir hann svo sem á naflastrengnum og flýtur í legvatninu.

Enda þótt hinn þriðji mánuður sje liðinn, og legkakan sje með öllu mynduð, má vera, að burðinum engu síður skjóti út í heilu lagi; en optast fer þá svo, að himnurnar rifna, og legvatnið rennur út með venjulegum hætti, og kemur þá burðurinn síðar í ljós, á hvern veginn sem hann svo liggur, og að lokum skýtur fylgjunni út. En þó má geta þess, að nokkuð lengur stendur á því, að fylgjan komi í ljós, en þá er fæðingin er með öllu eðlileg, og stundum ber við, að hún situr inni í leginu nokkra daga og stundum vikum saman, en þá missir konan smátt og smátt blóð.

253. grein.

Þá er fæðingin verður með þessum hætti, breytist að nokkru leyti ásigkomulag konunnar og útlit hennar, áður en fæðingin byrjar, og fyrir þá sök má og ráða af einkennum þessum, *að konan muni missa fangs*, áður en slíkt verður, og lýsir slíkt sjer með þeim hætti:

a) *veikindi eru í öllum líkamanum,* og til skiptis hellir svita út um konuna, eða hún finnur til kuldabrolls og máttleysis í öllum útlimunum, og til þyngsla og verkja um lendarnar og í kviðnum.

b) *konan missir blóð,* og stundum eins konar vatn blóðblandað og er illur daun af því, en það rennur úr leggöngunum. Optar er þó blóð þetta hreint, er konan missir, sumpart storkið, sumpart óstorkið. Á hinum fyrstu mánuðum af meðgöngutímanum mundi opt mega taka blóð þetta fyrir tíðablóðið, en þó má aðgreina það á því, að tíðablóðið kemur á venjulegum tíma, og optast er það nokkru minna, en blóðlát það,

er hjer segir. Tíðahlóðið er heldur eigi storkið, og eigi verður konan mjög veik, þó hún hafi tíðir, en þær hætta þegar af sjálfu sjer.

c) konan finnur venjulega til *verkja yfir um lendarnar og í kviðnum*, er að miklu leyti líkjast hríðunum.

Þá er öll einkenni þessi lýsa sjer, má allajafna húast við því, að konan muni missa fangs, en stundum má þó vera, að slíkt hregðist, enda þótt þau sýni sig, og fyrir þá sök er eigi með vissu hægt að ákveða nokkuð um slíkt, fyr en þess konar fæðing er byrjuð og finna má, þá er konan er könnuð um leggöngin, að legopið er orðið víkkað út, og innan undir því má finna til eggsins (sem kjötklumps), ef fæðinguna ber að á hinum fyrstu mánuðum, en missi konan fangs síðar á meðgöngutímanum, má einungis finna til himnanna innan undir legopinu, en þær ber niður í það, eins og þá fæðingin verður með eðlilegum hætti.

254. grein.

Af áður sögðu má með öllu ljóst verða, að opt má takast að ráða hót á vandkvæði þessu, enda þótt öll einkenni þess lýsi sjer, að konan muni missa fangs, meðan legopið eigi er orðið með öllu víkkað út, en þó ber þess að geta, að því síður tekst að tálma slíku, sem blóðlátið er ákafara og hríðirnar harðari.

Allajafna tekst illa til þá er konan missir fangs, sökum þess, að næstum aldrei verður lífi hurðarins hjargað, enda þótt svo takist til, að hann komi lifandi í ljós, og á hinn bóginn er konunni opt mikil hætta búin, og er einkum sú orsök til þess, að hún missir opt mikið blóð með þessum hætti, sökum þess, að fæð-

ingin verður opt langvinn, þá þannig er ástatt, og stundum er blóðlátið í sjálfu sjer mikið. Þá er konan missir mikið blóð með þessum hætti, má opt vera, að um síðir dragi allan mátt af henni, og stundum deyr hún úr því. Í öðru lagi leiðir slík fæðing til þess, að hætt er við, að konan allajafna síðar fæði í blóðlátum, þá er hún verður barnshafandi.

255. grein.

Þá er fæðingin verður með þessum hætti, er tvennt til, annað hvort að reyna til að tálma því, að burðurinn komi í ljós, eða hins vegar, ef þess er eigi kostur, að búa svo um hnútana, að konan bíði sem minnst tjón af fæðingunni að verða má. En til þess að koma slíku til leiðar, skal við hafa meðöl, er læknirinn einn veit með að fara, og er það fyrir þá sök allajafna skylda yfirsetukonunnar að láta sækja hann þegar er ljós merki þess sýna sig, að konan muni missa fangs. En þangað til læknirinn kemur, skal yfirsetukonan aðstoða konuna með ráðum og dáð eins og hjer segir, en hina mestu varúð skal hún þó við hafa.

Þá er ljós merki þess sýna sig, að konan muni missa fangs, og hún t. a. m. fær blóðlát, skal yfirsetukonan allajafna gæta þess að láta konuna þegar leggjast í rúmið, og hvetja hana til að halda með öllu kyrru fyrir; eins skal hún og hughreysta konuna og láta hana eigi skilja á sjer, að henni sje nokkur hætta búin, og með öllum hætti skal sjá svo um, að blóðstraumurinn um líkama konunnar eigi æsist. Í því skyni skal hafa heldur svalt í því herbergi, sem konan liggur í, og eigi skal láta hana hafa mikið ofan á sjer, og borða skal hún ljettan mat og drekka helzt súran þorstadrykk. Þá

er yfirsetukonan kannar konuna, skal hún allajafna viðhafa hina mestu varúð, svo hún eigi komi hastarlega við legið að innanverðu, því vera má, að af slíku aukist samdrættirnir í því, og tekst þá illa til. Með þessum hætti tekst opt að tálma blóðlátinu, einkum ef meðöl eru viðhöfð þessu samfara, er við eiga, og tekst þá opt svo til, að konan eigi missir úr því fangs. En þess ber þó að geta, að allajafna skal konan fara varlega með sig, og fara eptir reglum þeim, sem áður er skýrt frá, um langan tíma, því að öðrum kosti er mjög svo hætt við, að allt reki síðar að hinu sama.

En sje svo, að legopið víkki út með öllu, enda þótt allra bragða sje leitað til að tálma slíku, þá má hjer um bil með vissu búast við, að konan missi fangs, hvernig sem svo er með farið, og ber þá úr því einkum að gæta þess, að stöðva blóðlátið að svo miklu leyti verða má, en egginu og burðinum má skjóta út, hvernig sem hann svo liggur í fæðingunni, og skal yfirsetukonan engan hlut að eiga, heldur láta náttúruna eina ráða. Sje blóðlátið eigi mikið, skal yfirsetukonan með nokkru millibili láta konuna taka inn 20—30 kanelsdropa og baða hina ytri fæðingarparta með köldu vatni, og að öðru leyti skal hún láta konuna haga sjer, eins og sagt er hjer að framan. En aukist blóðlátið, svo konunni er auðsjáanlega hætta búin, skal yfirsetukonan eigi skjóta á frest að troða upp í leggöngin með áður sögðum hætti, en slíkt stöðvar bæði bezt blóðrennslið, og flýtir og um leið fæðingunni. Allajafna flýtir fyrir fæðingunni að troða upp í leggöngin, því með þeim hætti aukast samdrættirnir í leginu, og legopið víkkar út, en sökum þess skal eigi taka til þeirra ráða, fyr en útsjeð er um, að konan muni missa fangs án

þess við því verði gjört, en þó ber þess að geta, að þegar skal troða upp í leggöngin, þá er konan missir svo mikið blóð, að henni er auðsjáanlega dauðinn búinn, ef slíku fer lengur fram.

Enda þótt fylgjan verði eptir inni í leginu nokkuð langan tíma eptir að burðurinn er kominn í ljós, en konan missir eigi mikið blóð, þá höfum vjer reynsluna fyrir oss um það, að miklu síður er hætt við, að rotnun komi í fylgjuna, heldur en þegar fæðinguna ber að á tækum tíma. En verði illur daun af blóðinu, sem kemur úr leginu, skal yfirsetukonan þegar láta renna inn í það um spröituna volgt urtaseyði blandað með dálitlu af ediki. En verði konan veik, og hún t. a. m. fær köldufiog eða ákaft blóðlát, er með öllu nauðsynlegt, að læknis sje þegar vitjað.

Áður er sagt, að allajafna hættir þeirri konu til að missa fangs þá er hún verður barnshafandi að nýju, sem einu sinni hefur fætt í blóðlátum, en læknirinn einn má gjöra við slíku. Þó má geta þess á þessum stað, að opt mun það eitt duga til að tálma slíku, að konan sneyði sig hjá allri áreynslu, og hún láti sjer eigi sinnast um of, einkum þá er líður að þeim kafla meðgöngutímans, þegar konur venjulega missa fangs.

---

## Annar kapituli.

### *Þá er konan fæðir fyrir tímann.*

256. grein.

Menn segja, að konan fæði *fyrir tímann*, þá er hún leggst á gólf eptir 7. mánuð af meðgöngutímanum, eða með öðrum orðum, þá er burðurinn reyndar eigi

er fulltíða þegar hann fæðist, en þó svo dafnaður og á legg kominn að halda má lífinu í honum eptir fæðinginguna, ef rjett er með farið.

Að mestu leyti ber hið sama til þess, að konan fæðir fyrir tímann, sem þá er hún missir fangs fyrst á meðgöngutímanum.

Allur hinn fyrri kafli fæðingarinnar, þá er hún verður með þessum hætti, líkist að miklu leyti hverri eðlilegri fæðing, en þó má geta þess, að opt má vera, að þessi kafli fæðingarinnar verði nokkru langvinnari þá er konan elur barn í fyrsta sinn, sökum þess, að leghálsinn er þykkur og tognar nokkru seinna, en venja er til, þá er konan hefur átt barn einusinni eða optar. Optast fer svo, þegar fæðingin verður með þessum hætti, að fylgjan losnar og kemur í ljós miklu seinna, en venja er til þá er fæðingin er með öllu eðlileg, og opt ber við, að hún situr lengi eptir inni í leginu sökum þess, að leghálsinn kiprast saman þegar er burðurinn er kominn í ljós.

Eins og skýrt var frá hjer að framan um fæðinguna, þá er konan missir fangs, skal og, þá er fæðinguna ber að í ótíma, reyna til að koma því til leiðar, að fæðingunni eigi verði framgengt, og skal gjöra tilraunina um það þegar ljós merki þess lýsa sjer, að konan muni fæða í ótíma; en sje fæðingin byrjuð, þá er sjálfsagt, að slíku eigi verður komið við, og skal þá fara að öllu, sem væri fæðingin með öllu eðlileg.

Þess ber að geta, að allajafna þarf að hjúkra að hinu ófulltíða barni með mestu nærgætni eptir fæðinguna.

## 257. grein.

Almennar reglur hafa verið gefnar fyrir því, *hvernig*

*hjúkra* skal ófulltíða börnum, en auk þeirra skal yfirsetukonan gæta þess, er hjer segir:

svo skal sjá um, að barninu sje allajafna vel heitt, og má slíkt verða með því, að vefja það innan í ullarvoðum, en betur fer þó, að það liggi í faðmi móðurinnar;

næra skal það í hvert skipti og það vaknar með volgri mjólk vatni blandaðri, eða hafrasúpu, og halda slíku fram, þangað til hægt er að leggja það á brjóst;

staka gætni má og hafa á því, að skinnið nuddist hvergi af barninu, því mjög er hætt við að svo fari, og má tálma slíku með því að reifa það vandlega, og baða það daglega í volgu vatni, sem blandað er með mjólk, eða og skal hræra hveiti saman við það.

---

# Fimmti þáttur
## um sængurleguna, og um að hjúkra hinu nýfædda barni.

---

### Fyrsti kapítuli
*um sængurleguna, eins og hún almennast verður, og breytingar þær, er lýsa sjer um leið á öllu ásigkomulagi konunnar.*

258. grein.

Á hinum fyrstu vikum eptir fæðinguna kalla menn konuna *sængurkonu*, og segja, að hún *liggi á sæng*. Einna skiljanlegast verður að ímynda sjer sængurleguna svo, að konan komist með öllu aptur í hið sama horf

á sænginni, sem hún var í áður en hún varð barnshafandi, en auðsætt er, að þeir partar af líkama konunnar eigi muni breytast all-lítið, sem mest hefur reynt á um meðgöngutímann og í fæðingunni. Meðan konan liggur á sæng, er og hins vegar svo til ætlazt, að næringin sje búin til í brjóstum konunnar handa hinu nýfædda barni. Breytingar þær, sem verða á öllu ásigkomulagi konunnar meðan hún liggur á sæng, lýsa sjer með þeim hætti, sem þegar mun sagt verða.

259. grein.

Þegar fæðingin er nýafstaðin, er konan allajafna nokkuð máttfarin, en hins vegar verður með öllu hvíld á þjáning hennar, og að lokum dettur hún út af í væran svefn, og hægum svita hellir út um allan líkamann. Stundum kemur kölduhrollur að konunni þegar fæðingin er nýafstaðin, en hann líður þegar burt aptur, og slær þá svita út um hana og hún sofnar. Meðan konan liggur á sæng, á hún þannig vanda fyrir að svitna opt á hinum fyrstu dögum, og sökum þess er mjög svo hætt við, að kuldi komi að henni, ef eigi er öll varúð við höfð.

260. grein.

Þegar yfirsetukonan fer höndum um kvið konunnar skömmu eptir fæðinguna, má hún finna til legbotnsins fyrir ofan blöðrubeinið næstum því upp undir nafla, og er hann harður við komu og í lögun eins og hnöttur. Smátt og smátt kiprast hann enn meira saman og verður harðari viðkomu, en konan finnur um leið til sárra verkja, og blóð kemur úr leggöngunum, sumpart storkið, sumpart óstorkið. Verkir þessir, er kalla má *síðari*

*hríðir* eða *eptirhríðir,* eru opt svo litlir, að konan stundum varla finnur til þeirra, þá er hún á barn í fyrsta sinn, en á konum aptur á móti, sem átt hafa barn einu sinni eða optar, eru þeir opt mjög ákafir, og þjáist konan með þessum hætti um nokkra daga eptir fæðinguna, og opt koma þeir að henni um leið og barnið sýgur hana. En smátt og smátt kiprast legið úr því eðlilega saman, með þeim hætti, að legbotninn nálgast meira og meira dag frá degi blöðrubeinið, og að lokum hverfur hann með öllu niður fyrir efri röndina á beini þessu, og má þá eigi finna til hans úr því, en slíkt verður stundum á 9 eða 10 dögum, en stundum líða fullir fjórtán dagar.

Þegar eptirhríðir þessar eru mjög sárar, skal yfirsetukonan reyna til að *lina* þær með því móti að leggja vel volgan ullardúk á kviðinn eða leggja á hann heitan vatns- eða grjónabakstur, og samfara þessu láta konuna drekka einn eða tvo bolla af volgu seyði af kamillutegrasi eða blóðbergi. Þegar svo er ástatt, að eptirhríðirnar sjeu ákafar og vesni við það, að barnið sýgur konuna, skal konan eigi fyrstu dagana leggja barnið að brjóstinu nema tvisvar eða þrisvar á degi hverjum. Minnki nú samt sem áður eigi verkirnir eða vesni þeir og eigi verði hlje á þeim og komi samfara þessu eymsli í kviðinn og kalda taki konuna, þá skal yfirsetukonan eigi lengur skjóta því á frest að láta vitja læknis. Hið sama er og að segja um það, þá er eptirhríðir verða mjög sárar á konum, er ala barn í fyrsta skipti, því það er mjög sjaldan, að þær sjeu sárar á konum, er ala barn í fyrsta skipti, og má allajafna ímynda sjer að það sje umleitun barnsfarasóttar.

261. grein.

Hinir ytri fæðingarpartar eru mjög svo víkkaðir út á hinum fyrstu dögum eptir fæðinguna, og allir eru þeir þrútnir og viðkvæmir, en smámsaman komast þeir í samt lag aptur meðan konan liggur á sæng, og opt hafa komið smáar rifur eða sprungur upp í fremri barminn á holdhrúnni, en þær gróa að mestu leyti saman aptur. Leggöngin eru og mjög víkkuð út eptir fæðinguna og máttleysi er í þeim, og mjög eru þau viðkvæm, en smátt og smátt kiprast þau saman aptur, og hrukkurnar koma aptur á þau. Þegar á hinum fyrsta degi eptir fæðinguna kiprast leghálsinn saman, en máttleysi er í sjálfu legopinu, og um nokkra daga er það svo opið, að fara má með einn fingur upp um það; barmar þess eru stórir og þykkvir og ójöfnur eru opt á þeim, og rifur eða sprungur eru hjer og hvar inn í þá, en blóðlitaður vökvi rennur út úr legopinu. Langan tíma þarf til þess, að legopið kiprist saman með öllu, og verða barmar þess þá um leið fastir í sjer og og harðir viðkomu, en að lokum kiprast það þó með öllu saman, en almennast verður brizli og sigg eptir í börmunum.

262. grein.

Þannig breytist legið, eins og nú hefur sagt verið, meðan konan liggur á sæng, en smátt og smátt rennur úr legholinu vökvi nokkur (*hreinsunin*), og er eðli hans ýmislegt, eptir því hvort konan er búin að liggja skamma eða langa stund á sænginni. Á hinum fyrstu tveim eða þrem dögum er vökvi þessi með öllu útlits, sem væri hann dökkt blóð, og er hann þykkur; á hinum næstu fjórum eða sex dögum verður hann þynnri og bleikur

á lit, og blandaður slími, og eptir sjöunda eða áttunda dag er hann því nær eintómt slím, og minnkar síðan úr þessu dag frá degi rennslið, og síðast hættir það með öllu eptir þrjár eða mest fjórar vikur. Þó er rennsli þetta úr leginu mjög svo misjafnt bæði að vöxtum og eðli hjá sængurkonum, en optast er það meira og helzt lengur á þeim konum, sem eigi leggja börnin á brjóst. Allajafna er grunsamt þá er hreinsunin stöðvast allt í einu; því þá má, þegar skammt er liðið frá fæðingunni, óttast að konunni blæði inn; sje aptur á móti langt liðið á sængurleguna og hreinsunin allt í einu hættir má vera, að það komi til af umleitun barnsfarasóttar.

## 263. grein.

Einna merkilegastar eru breytingarnar, sem verða á *brjóstunum*, meðan konan liggur á sæng. Reyndar er slíkt undirbúið um allan meðgöngutímann, en fyrst lýsa sjer þó breytingar þessar með öllu eptir fæðinguna. Þegar líður að fæðingunni, er almennast nokkur mjólkurkynjaður vökvi kominn í brjóstin; en sjaldan ber við, að hrein mjólk komi úr brjóstunum, fyr en á öðrum eða þriðja degi eptir fæðinguna. Mjólkin streymir þá að brjóstunum, en þau bólgna út og verða hörð viðkomu eða stálmi kemur í þau, og stundum ber við, að konan fær um leið köldukvilla, sem kalla má *mjólkurköldu*, en eptir stutta stund líður hann aptur burt, stundum eptir nokkrar stundir, og verður allajafna sá endir á, að svita hellir út um konuna. Reyndar fær konan opt enga mjólkurköldu, og eins má tálma slíku með þeim bætti að leggja barnið á brjóst áður en mikill stálmi er kominn í þau.

Á hinum fyrstu dögum er mjólkin í brjóstunum

gulleit; hún er eigi eins nærandi, og hún á að sjer, og barnið fær stundum lífsýki af henni; síðar verður hún hvítari á lit, og meira nærandi. Mjólkin nærir barnið, og að hún sje góð, má ráða af því: að hún verður þá bláhvít á lit og sæt, en með öllu lyktarlaus; hún má hvorki vera of þykk eða of þunn, og þegar maður lætur detta dropa af henni á nöglina, skal hann hvorki standa í stað eða renna of fljótt burt, og sje einn dropi látinn detta ofan í glas, sem er fullt af vatni, skal hann nema staðar svo sem í miðju glasinu og fljóta þar, en hvorki skal hann fljóta ofan á vatninu, eða sökkva til botns. Þegar mjólkin er þannig á sig komin, er hún með öllu hæfileg til að næra barnið. Að lokum má geta þess, að svo mikil mjólk hlýtur að koma jafnóðum í brjóstin, að þau sjeu þegar orðin full aptur eptir fáar stundir, eptir að mjólkin var með öllu úr þeim.

Mest kemur af mjólkinni í brjóstin á hinum fyrstu sjö eða átta mánuðum eptir fæðinguna; en síðar, þá er barnið þarf við kröptugrar fæðu, og það sökum þess sýgur minna af mjólkinni úr brjóstunum, minnkar hún hvað af hverju í þeim, og sje þá barnið tekið af brjóstinu með öllu, kemur þá heldur eigi mjólk úr því í þau. Um þessar mundir er venjulegt, að konan fái aptur tíðir, en þær hætta með öllu meðan barnið liggur á brjósti. En reynslan hefur sýnt, að mjólk helzt í brjóstunum, ef barnið liggur á brjósti, um nokkur ár og jafnvel lengur.

---

## Annar kapituli

*um hjúkrun sængurkonunnar.*

264. grein.

Enda þótt eigi megi skoða sængurleguna sem sjúkdóm nokkurn í raun rjettri, þá verður þó hins vegar eigi varið, að konunni er allajafna hættara við ýmsum sjúkdómum á þessum lífskafla, en venja er til, og opt verður hún veik, hvað lítið sem út af ber. Á hinn bóginn eru og sjúkdómar þeir, er konan tekur meðan hún liggur á sæng, allir mjög svo hættulegir, og fyrir þá sök skal allajafna hafa hinar mestu gætur á högum konunnar á þessum lífskafla, og gæta þess vandlega að bægja öllu því frá henni, er vera má, að hafi skaðvæn áhrif á hana. Sökum þessa biðjum vjer yfirsetukonuna að setja vandlega á sig reglur þær, er hjer segir, og enda þótt opt og einatt, einkum hjá fátæklingum, sje farið beinlínis móti reglum þessum og eigi hljótist tjón af, skal yfirsetukonan allajafna leitast við að stemma stigu fyrir því, og einkum skal hún sjá um, að konur eigi líti á sængurleguna með ljettúð, því víst er um það, að slíkt má verða orsök til banvænna sjúkdóma meðan konan liggur á sæng og opt orsök til veikinda í móðurleginu, sem þjá mega konuna alla æfi hennar, og má meðal þeirra sjúkdóma telja skekkju og sig legsins.

265. grein.

Þegar eptir fæðinguna ber allajafna að gæta þess, að konan megi *sofna í kyrrð og værð* án þess hún sje vakin með nokkrum hætti; en meðan hún sefur skal þó allajafna hafa gætur á högum hennar og ásigkomulagi, og t. a. m. taka eptir útliti hennar í andlitinu og litar-

hættinum, til þess í tækan tíma að komast eptir, ef svo fer að hún fær blóðlát. Síðan meðan konan liggur á sæng, er og með öllu nauðsynlegt, að hún jafnan njóti værðar og hvíldar, því bæði hressist hún óðum af slíku, og hins vegar er þá og víst, að henni líður vel, ef hún hefur væran svefn. Enda þótt hún sje vakandi, skal þó vera hin mesta kyrrð og spekkt um hana, og eigi má hún með nokkrum hætti reyna á sig, því slíkt þolir hún eigi, og má vera, að ákafar geðshræringar hafi mjög skaðvæn áhrif á hana. Á hinum fyrstu dögum, meðan konan liggur á sæng, fer því bezt, að fáir komi til hennar, heldur skal einungis einn af ættmönnum hennar vera hjá henni.

266. grein.

Meðan konan liggur á sæng þarf að viðhafa hinar mestu gætur á *mat* og *drykk* hennar, því opt má vera, að slíkt hafi skaðvæn áhrif á hana, ef eigi er betur sjeð fyrir. Á hinum fyrstu fjórum eða fimm dögum skal konan borða eingöngu þann mat, sem eigi leggst þungt í magann, t. a. m. hafrasúpu eða grjónasúpu eða mjólk blandaða með vatni og lítið af hveitibrauði; síðar skal hún borða þann mat, er nærir nokkuð, en er þó ljettur, t. a. m. vatnsgraut og fisk; en að sjö dögum liðnum má hún borða kjötmat, og svo eptir nokkurn tíma liðinn skal hún með öllu taka til hins fyrra lifnaðarháttar. En þess ber að gæta, að láta sængurkonuna eigi borða þann mat, eða njóta þess drykkjar, er með nokkrum hætti æsir blóðið, því slíkt hefur mjög skaðvæn áhrif á hana.

267. grein.

Einka áríðandi er, að *loptið sje heilnæmt* í herberginu, og kemur slíkt að góðu bæði fyrir konuna og barnið; en þó skal allajafna hleypa nýju lopti inn í herbergið með hinni mestu varúð, sökum þess, að allur líkami konunnar er optast nokkuð sveittur, en henni er mjög hætt við, að kuldi komi að henni, og eins er og um hið nýfædda barn, að hætt er við að kuldi komi að því hvað lítill sem súgurinn er. Þess ber og að gæta, að eigi sje of bjart í herberginu, því augu sængurkonunnar þola eigi mikla birtu, og því síður augu barnsins.

268. grein.

Á hinum fyrstu dögum eptir fæðinguna hefur konan venjulega eigi góðar *hægðir til baksins,* en yfirsetukonan skal því allajafna hafa gætur á að setja henni stólpípu, en síður viljum vjer ráða til að viðhafa til þess hreinsandi meðöl, fyr en lengra er liðið frá fæðingunni. En eigi konan bágt með að *hægja sjer til kviðarins,* skal yfirsetukonan taka til silfurpípunnar, sem áður er skýrt frá (en þó viðhafa hina mestu varúð), svo sem tvisvar á dag, svo þvagblaðran þenjist eigi út um of og konan fái verki í kviðinn.

269. grein.

Enda þótt *hinir ytri fæðingarpartar* eigi hafi skaddazt með nokkrum hætti í fæðingunni, skal þó engu síður þvo þá og hreinsa tvisvar á dag með volgu vatni, einkum ef rennslið, sem áður er sagt, er mikið úr leginu, og illur daun er af því. En sjeu hinir ytri fæðingarpartar bólgnir og þrútnir og viðkvæmir, og skinnið

af þeim, skal jafnaðarlega baða þá með volgri mjólk. Áður er skýrt frá, hvernig skal með fara, þá er sprungur eða rifur koma upp í holdbrúna í fæðingunni.

270. grein.

Sjerhver sængurkona skal leggja barnið á brjóst, svo framarlega sem eigi að henni gengur næmur sjúkdómur eða uppdráttarsýki, eða geirvörturnar eru svo illa lagaðar, að því eigi verður komið við sökum þessa. Allt bendir til, að konan skuli þannig með fara, og opt má vera, að slíkt hafi skaðvæn og langvinn áhrif á konuna, ef þess er eigi gætt.

Leggi konan barnið á brjóst, skal láta það fyrst sjúga hana að nokkrum stundum liðnum eptir fæðinguna, þá er konan er búin að fá nokkra hvíld, en barnið tekur að hljóða, en slíkt lýsir því, að það þarf næringar við. Í fyrstunni skal láta barnið sjúga móðurina svo lengi og svo opt, sem það vill; en fyrst eptir nokkrar vikur skal reyna til að venja barnið við að gjöra slíkt á vissum tímum, og mun slíkt takast þá er því hefur farið fram um nokkra stund, og er slíkt mjög áríðandi, svo konan megi hafa með öllu hvíld á nóttunni. Gæta skal þess vandlega, að eigi komi kuldi að brjóstunum, og skal í því skyni vandlega hylja þau með heitum klæðum, og eigi um skör fram láta koma kulda að þeim meðan barnið er að sjúga. Til að hlífa geirvörtunum, skal láta barnið sjúga til skiptis bæði brjóstin, og í hvert skipti skal þvo geirvörturnar með köldu vatni, þegar barnið er búið að sjúga. En fari skinnið af geirvörtunum, er ráðandi til að baða þær með blývatni, en þvo skal það þó vandlega burt aptur með köldu vatni, áður en barnið sýgur móðurina.

En vilji sængurkonan hvorki, nje geti komið því við, að leggja barnið á brjóst, skal hún varast að neyta megns matar eða mjög nærandi drykkjar þangað til mjólkin tekur að eyðast úr brjóstunum af sjálfu sjer, og smátt og smátt skal hún taka inn hæg hreinsandi meðöl; þess ber og að gæta að binda brjóstin upp, og hylja þau allajafna með ullardúk. En verði konunni óhægt sökum þess, að mikil mjólk safnast í brjóstin, er stundum með öllu nauðsynlegt að hún láti sjúga sig, en þó skal fyrst reyna að lina spenninginn í brjóstunum með því að bera á þau volga olíu.

271. grein.

Ráðandi er til, að konan liggi á sænginni án þess að fara á fætur hina fyrstu 7 eða 8 daga, og á hinum næstu dögum þar á eptir skal hún og varast að vera lengi á fótum, en því optar leggjast fyrir þegar hún finnur til þreytu; þess ber og vandlega að gæta, að hún eigi reyni á sig með nokkrum hætti. Bregði sængurkonan út af þessu, má opt vera, að mikið tjón hljótist af slíku, t. a. m. að hún fái blóðlát eða legsig, svo legið komist stundum út um hina ytri fæðingarparta.

Vera má, að það hafi skaðvæn áhrif á konuna að fara of snemma út, sökum þess, að hætt er við, að kuldi komi að henni, og einkum að brjóstunum og hinum innri fæðingarpörtum. Sökum þess skal konan, ef hún annars vegar má því við koma, láta líða þrjár eða fjórar vikur á sumrum, en fimm eða sex vikur á vetrum, áður en hún fer út, og þó ber þess allajafna að gæta, að veðrið sje gott, og bezt er, að hún fari út um miðdegis bil. En eigi konan við þröngvan kost að búa, verður eigi allajafna þessi varúð við höfð, en opt

er og þá konan sterkbyggð, svo henni eigi verður meint, þó hún eigi beinlínis fylgi reglum þeim, er nú var sagt.

272. grein.

Að lokum viljum vjer minna yfirsetukonuna á aldrei að leiða hjá sjer eða hafa að vettugi, þegar hún verður vör við, að sængurkonan tekur veikindi nokkur, hve lítil sem þau svo sýnast í fyrstu, því reynslan hefur opt sýnt, að smákvillar, er í fyrstunni sýndust svo, á stuttum tíma geta haft líf konunnar. Sjer í lagi skal yfirsetukonan hafa allar gætur á kvið konunnar, því sjerhver veikindi í honum eru mjög skaðvæn, meðan konan liggur á sæng. Eins er og konunni allajafna nokkur hætta búin, þá er hún fær köldu meðan hún liggur á sæng, enda þótt engir verkir eða þjáning sje henni samfara, en opt tekst þó svo til, að hún líður þegar frá aptur með hinum sama hætti, sem mjólkurkaldan. Sökum þess, er nú hefur sagt verið, er með öllu auðsætt, að þegar skal yfirsetukonan láta sækja lækni, er hún verður þess vör, að sængurkonan tekur sjúkdóm nokkurn, og viljum vjer minna hana á að skjóta því eigi lengi á frest annað hvort af eptirlæti við konuna eða sökum oftrausts á sjálfri sjer, þá er kvillinn í fyrstu sýnist lítilfjörlegur, en hins vegar er allajafna hætt við, að síðar verði óhægra aðgjörða fyrir lækninn, ef hann kemur of seint.

En eigi skal yfirsetukonan hins vegar koma hræðslu inn hjá konunni, þótt henni verði eitthvað illt meðan hún liggur á sæng, því slíkt gjörir illt verra. Yfirsetukonan skal með hægð og gætni veita þá hjálp, er hún má, þangað til læknir kemur, og hvetja konuna til þess að gæta stillingar.

# þriðji kapítuli

*um að hjúkra barninu.*

273. grein.

Meðan konan liggur á sæng, þarf eigi einungis sængurkonan hjúkrunar við og aðstoðar með ýmsum hætti, heldur og hið nýfædda barn. Nú viljum vjer skýra frá hjer á eptir, með hverjum hætti yfirsetukonan skal með fara, svo slíkt megi vel takast.

Mjög svo er áríðandi fyrir heilsu hins nýfædda barns, að allajafna sje alls *hreinlætis* gætt og hleypt sje opt nýju og heilnæmu lopti inn í herbergið, sem það er í. Í því skyni skal lauga barnið einu sinni á dag og þvo vandlega allan líkamann upp, og hreinsa allan neðri partinn af bolnum með volgu vatni í hvert skipti, sem þess gjörist þörf. Með þessum hætti má takast að tálma því, að skinnið nuddist af líkamanum, og eins með því að skipta opt um fötin, en að öðrum kosti er mjög hætt við, að barnið verði skinnlaust, og tekst þá illa til. En verði barnið engu síður skinnlaust, þótt allra bragða sje leitað, mun ráðlegast að baða þann partinn af líkama burðarins með bafrasúpu eða mjólk, svo hann skinngi aptur, og má vera, að opt megi takast að ráða bót á slíku með þessum hætti.

274. grein.

Fyrst framan af, meðan konan liggur á sæng, skal yfirsetukonan allajafna hafa hinar mestu gætur *á naflanum á barninu.* Þangað til sá spottinn af naflastrengnum, sem hangir út úr kvið barnsins, dettur burt af sjálfum sjer, en það verður optast eptir fjóra eða fimm eða mest sjö eða átta daga eptir fæðinguna, skal

daglega með áður sögðum hætti hjúpa hann með hreinni línpjötlu, sem vætt er með olíu, og þess ber allajafna að gæta, að eigi sje hastarlega togað í naflastrenginn. Þá naflastrengsspottinn er dottinn burt, skal hylja naflann með þurrum líndúk, og skipta skal daglega um hann, og yzt skal binda um með naflabandinu, og skal slíku halda fram, þangað til naflinn er með öllu gróinn. En taki naflinn að bólgna og þrútna út, skal leggja við hann volgan vatnsbakstur eða hafragraut, þangað til læknirinn kemur; en vætli út um hann án þess hann bólgni, mun bezt vera að baða hann með blývatni.

275. grein.

Litlu skiptir hvort barninu er vaggað eða eigi, og bæði er hægt að komast hjá því, því engin nauðsyn ber til þess, og á hinn bóginn hefur slíkt heldur engin skaðvæn áhrif á barnið, ef það er eigi gjört um of. En á hinu ríður meira að gæta þess, að barnið eigi allajafna liggi í rúminu hjá móðurinni, allra sízt á nóttunni, og því síður hjá fóstrunni, því opt hafa sjest þess dæmi, að barnið hefur kæfzt eða marizt til dauða meðan konan eða fóstran svaf, eða það hefur dottið fram úr rúminu. Fyrir þá sök fer bezt, að barnið sje lagt í *vöggu*, og skal hún standa í grennd við rúm móðurinnar, og allajafna skal gæta þess, að eigi komi súgur að henni eða ofnhiti og ofbirta. Leggja skal barnið í vögguna til skiptis sitt á hvora hlið, og eigi hafa meira ofan á því, en nauðsynlegt er, svo því sje mátulega heitt.

276. grein.

Bezt nærir barnið eptir fæðinguna móðurmjólkin,

og engrar annarar næringar þarf það við. En megi móðurin eigi einhverra orsaka vegna leggja barnið á brjóst, þá er tvennt fyrir höndum, annað hvort að fá barninu fóstru, er leggur það á brjóst, eða næra það með mat og drykk, en eigi er þess að dyljast, að betur fer að fæða barnið upp með þeim hætti, að fá því fóstru; en opt eru örðugleikar á að fá góða fóstru, og bezt fer að læknis ráða sje leitað um slíkt, en hins vegar verður þó yfirsetukonan að vita, hvað útheimtist til þess.

Fyrst og fremst skal allajafna gæta þess, að fóstran sje að öllu leyti heilbrigð og hraust, og hreinlát og líti vel út, og eigi má hún vera innan 18 ára, og eigi yfir 30 ára gömul; hún skal hafa hæga og blíða geðsmuni, og ekkert má vera útásetninga vert í siðferði hennar. Bezt er, að hún hafi átt barn um sama leyti og konan, sem hún á að fóstra barnið fyrir, og aldrei má mismunurinn á tímanum vera meiri, en 1 eða mest 2 mánuðir. Brjóstin skulu vera eðlileg á stærð og engar hellur eða hnútar mega finnast í þeim, skinnið á þeim skal vera hreint og hvítt, og geirvörturnar vel lagaðar og skinnið eigi þykkt á þeim, eða sprungur í þeim; nóg skal og vera af mjólkinni í brjóstunum, og skal mjólkin vera eins og sagt er í 263. greininni. Sjer í lagi mælir það fram með fóstrunni, þá hennar barn er þriflegt og heilbrigt og hreint útlits, og þess ber að geta, að allajafna gefast fóstrur betur úr sveitunum, en úr kaupstöðunum.

### 277. grein.

Hvort heldur sem konan sjálf leggur barnið á brjóst eða það hefur fóstru, þá skal allajafna fylgja vissum

reglum meðan barnið er á brjósti, og sje þessa eigi gætt, er allt miklu örðugra og stundum hættu bundið. Eins og vjer áður höfum tekið fram, þarfnast barnið fyrstu vikurnar næringarinnar opt og títt og kemur það vanalegast til af því, að barnið hefur eigi krapt í sjer til þess að sjúga lengi í einu; verður því að leggja barnið á brjóst þegar er það vaknar og er óspakt og hljóðar. Smásaman má þó venja barnið á að láta lengra líða á milli þess að það taki brjóstið, og einkum skal svo fljótt sem verður kosta kapps um að venja barnið af því að taka brjóstið í eina 5—6 tíma á nóttunni, svo móðurin megi njóta værðar þeirrar, er henni er svo nauðsynleg. Þegar barnið er tveggja eðu þriggja mánaða gamalt má optast nær takast að koma þessu lagi á, en til þess þarf mikla þolinmæði. Það er að öðru leyti komið undir þörfum barnsins, hversu opt hinn hluta dægursins þarf að leggja það á brjóst, og má með nærgætni bráðlega komast að þessu, en það er vitaskuld, að það er óþarfi og eigi rjett, að leggja það á brjóst í hvert skipti sem það hljóðar, því barnið hljóðar af því að því finnst eitthvað óhægt, en það má verða af mörgu öðru en svengd, þannig hljóðar barnið þegar of fast er utanum það, eða eitthvað ef til vill meiði það, eða af því það er sjúkt. Opt sjáum vjer að barnið einlægt er hljóðandi af kveisu eða annari óhægð í maganum, þótt það alls eigi sje svangt; ef nú barnið væri lagt á brjóst í hvert skipti sem það hljóðar, belgdist maginn upp og barninu þyngdi. Þegar því barnið er einlægt að hljóða, skal reyna að komast að því, hvað þessu veldur, og ef grunur er á því, að barnið sje sjúkt, skal yfirsetukonan sjá um, að leitað sje læknisráða.

Þegar barn, sem er á brjósti, er búið að fá fáein-

ar tennur og það stundum jafnvel fyrr, má gefa því í ein tvö skipti á degi hverjum barnamat eins og skýrt verður frá í næstu grein; með þessum hætti má smásaman venja barnið af brjósti, og sje það frískt og heilbrigt má óhætt gjöra það, þegar barnið er 7—8—9 mánaða gamalt; en opt má sjá, að börn, sem eru meira en ársgömul, eru á brjósti og dafna vel.

*Lifnaðarháttur* móðurinnar eða fóstrunnar meðan þær hafa barn á brjósti hefur áhrif á mjólkina og þannig einnig á barnið. Reglubundinn lifnaðarháttur er farsælastur, en að öðru leyti er eigi ávallt gott, að mikil breyting verði á honum frá því sem vant er, hvort heldur móðurin sjálf eða fóstran hefur barnið á brjósti. Hún skal fara á fætur á morgnana á reglulegum tíma og hátta snemma á kveldin, hún skal hafa umgang bæði úti og inni en reyna eigi um of á sig, og það er henni fyrir góðu að sýsla um það innivið, sem hennar vandi er til; hún skal gæta þess að hún eigi ofkælist, og að kuldi eigi komi að brjóstunum; hún skal hafa gætur á mat þeim, er hún nýtur; hún má eigi njóta megns matar, sem gjörir uppþembu og eigi drekka sterka drykki, því hætt er við, að barnið þá fái kveisu, uppköst, niðurgang eða einhvern verri sjúkdóm. Hún skal, svo sem unnt er, gæta allrar stillingar á geðsmununum, en það er auðvitað að það á hjer við: hægra er um að tala en í að komast; víst er um það, að þess eru mörg dæmi, að barnið hafi beðið tjón af og jafnvel fengið banvænan krampa, og hefur því verið um að kenna, að fóstran hefur hastarlega orðið hrædd eða henni hefur snögglega sinnast.

278. grein.

Mikil umhyggja og þolinmæði útheimtist til þess að fæða barnið upp með þeim hætti að gefa því mat og drykk, og mörg má sjá þess dæmi, að slíkt misheppnast, enda þótt öll varúð sje viðhöfð.

Þá þannig er með farið, mun *kúamjólkin* bezt næra barnið, og er hún og optast höfð til þess. Í fyrstunni skal blanda mjólkina með vatni, er suða hefur komið á, svo einungis einn þriðjungur sje mjólk, en eptir fáar vikur skal blanda saman jafnt af mjólk og vatni, síðar með einungis einum þriðjung af vatni, og síðast skal gefa barninu mjólkina óblandaða. Bezt fer að láta nokkuð af sikri í mjólkina, því með þessum hætti verður hún bæði ljettari í maganum og meltist betur, og bragðið líkist þá og meira móðurmjólkinni. Þegar barninu er gefin mjólkin að drekka, skal sjá svo um, að hún sje allajafna hálfvolg, en þess ber allajafna að gæta, að hreinlæti sje viðhaft í alla staði, og að mjólkin, sem barnið drekkur, eigi verði súr.

Þegar barnið er orðið nokkurra vikna gamalt, má svo sem einu sinni á dag, og eptir nokkurn tíma liðinn tvisvar sinnum á dag byrja að gefa því annan mat meðfram, og skal hann tilbúa með þeim hætti, að sjóða saman hveitibrauð og vatn eða vatnsblandaða mjólk, og láta þar saman við sikur, en eigi skal gefa barninu smjör eða neina feiti, því af slíku fær barnið mjög opt kveisu og innantöku. Til skiptis má og gefa barninu seyði af perlugrjónum, hafurgrjónum eða sagógrjónum. En þess ber að gæta, að gefa barninu aldrei þungan eða megnan mat, fyr en það er búið að fá tennur, og er slíkt merki þess, að þá megi það úr því melta algengan mat.

279. grein.

Bezt fer, að yfirsetukonan eigi fáist mikið við að ráðleggja meðöl við veikindum í nýfæddum börnum, en eins og síðar mun skýrt verða frá, er jafnvel nauðsynlegt að hún beri nokkurt skyn á því, einkum þar eð svo kann að standa á, að eigi með neinu móti verði náð til læknis. Hafi barnið eigi hægðir, skal yfirsetukonan setja því pípu, en hrífi hún eigi, skal hún gefa barninu inn eina litla teskeið af laxerolíu eða barnapúlveri, því slíkt getur eigi haft nein skaðvæn áhrif, sje það eigi viðhaft of opt.

Í næsta þætti skulum vjer skýra frá einstöku sjúkdómum á nýfæddum börnum, sem geta verið svo hættulegir fyrir líf barnsins, að brýn nauðsyn beri til að hjálp sje þegar veitt, og skal þá skýrt frá, hvernig yfirsetukonan skal með fara.

---

## Sjötti þáttur.

## Um veikindi þau, sem koma fyrir meðan á meðgöngutímanum stendur og meðan konan liggur á sæng, og um veikindi á nýfæddum börnum.

280. grein.

Sá er eigi tilgangurinn hjer, að geta um alla þá sjúkdóma, sem komið geta fyrir hjá þunguðum konum, sængurkonum eða nýfæddum börnum, og því síður um meðferð þessara sjúkdóma. Það er auðvitað, að yfirsetukonan eigi hefur næga þekkingu til þess að þekkja þá alla, og er það eigi hennar meðfæri heldur læknis-

ins. Hjer skal því að eins getið þeirra, sem annað hvort eru svo lítilvægir, að óhætt er að yfirsetukonan gefi ráð við, eða hins vegar svo mikilvægir, að brýn nauðsyn ber til, að eitthvað sje við þá gjört, unz náð verður til læknis. Það er, hvernig sem á stendur, mjög svo nytsamt, að yfirsetukonan beri skyn nokkurt á ýms veikindi, bæði sökum þess, að opt er langt að vitja læknis, og eins hins, að hún sjer þá betur, hvenær þörf er á að hans sje vitjað.

---

## Fyrsti kapítuli.

*Veikindi konunnar um meðgöngutímann.*

281. grein.

Mjög er það almennt, að þungaðar konur eigi eru frískar um meðgöngutímann, og er þetta svo almennt, að þess er hjer að framan getið, að breyting á heilsufari konunnar opt er álitið vottur þess, að konan sje þunguð. Það er sumstaðar meðal almennings vandi, að taka konunni blóð, þar sem það er álitið, að blóðríki valdi lasleika konunnar, en þetta er alveg röng skoðun, og ber nauðsyn til að yfirsetukonan sjái um, að slíkt eigi viðgangist. Miklu fremur er hættara við, að þunguð kona sje blóðlítil, og þótt svo kunni að þykja sem blóðríki einstakra parta líkamans valdi því, að konunni líði miður, þá er svo langt frá því, að álíta megi, að konan sje of blóðrík, beldur er orsökin sú, að blóðið er þunnt og dreifist óreglulega um parta líkamans. Sje nú konunni tekið blóð, er eins og henni lini um skamma stund, en þess er eigi lengi að bíða, að henni hríðvesnar. Yfirsetukonan skal því heldur sjá svo um

að lifnaðarháttur konunnar sje reglubundinn, að hún hreifi sig, og hægðir til baks og kviðar sjeu reglulegar. Dugi eigi ráð yfirsetukonunnar, er henni bezt að vísa til læknis.

282. grein.

*Bjúgur í fótunum og hinum ytri fæðingarpörtum.*

Þegar langt er liðið á meðgöngutímann, ber það opt við, að konan fái bjúg í fæturna; þetta kemur til af því, að móðurlegið þrýstir á hinar stóru æðar í kviðnum og þannig tálmar fyrir, að blóðrásin megi verða eðlileg; bjúgurinn byrjar vanalega um öklana og fótinn, gengur svo upp eptir fætinum og upp á lærin og stundum kemur hann á hina ytri fæðingarparta. Þegar bjúgurinn er kominn í einhvern part líkamans, þrútnar hann og eins og stirnir á hann; engin eru eymslin þótt á honum sje tekið, og þegar þrýst er á með fingrinum, verður dæld eða eins og pollur eptir, en hverfur brátt aptur. Mestur er bjúgurinn að kveldi dags þegar konan hefur verið á ferli allan daginn, en dregur úr að mestu á nóttunni, er konan liggur í rúminu.

Bjúgurinn kemur sjaldnar fyrir á konum, er eiga barn í fyrsta skipti, en þeim, er optar hafa átt barn, en einkum er það á heilsulinum konum, og þá er móðurlegið um meðgöngutímann er óvenjulega mikið útþanið, svo sem þá mikið er legvatnið eða konan gengur með tvíbura. Sje bjúgurinn mikill, getur konan haft þjáning af honum, einkum þegar hún er á gangi; en að öðru leyti er eigi að óttast hann, þegar konunni að öðru leyti líður vel, því vanalega líður hann frá fyrstu dagana eptir fæðinguna; aptur á móti er konunni eftil

vill hætta búin af honum, sje honum samfara almenn vatnssýki.

Kveði svo mikið að bjúgnum í fótunum eða fæðingarpörtunum, að hann þjáir mjög konuna eða hún eigi þolir gang, þá skal yfirsetukonan ráða konunni til að liggja kyr í rúminu og rjetta vel úr fótunum, og skal hún sjá svo um, að hægðir til baks og kviðar sjeu reglulegar; hún skal vefja um fæturna volgu ullarbandi eða væta það áður í einirgufu, eða viðhafa bakstra úr kamillugrasi eða volgan sölvabakstur. Dragi nú eigi að heldur úr bólgunni, en verði hún rauðleit og viðkvæm, mætti reyna kalda vatnsbakstra eða kaldan sölvabakstur; dugi þetta eigi, er ráðlegast að vitja læknis.

283. grein.

*Um æðahnúta.*

Æðahnúta nefna menn hina smáu eða stóru þrimla, er koma undir hörundið, þegar blóðæðarnar þrútna af blóði, sem í þær safnast; koma þeir einkum fyrir neðan til og innanvert á fótunum, á lærunum og blygðunarpörtunum þegar langt er liðið á meðgöngutímann. Æðahnútarnir eru bláleitir eða svarbláir á lit, linir átöku og lítil í þeim tilkenningin; þegar þrýst er á þá með fingrinum, hverfa þeir en koma brátt aptur í ljós, þegar fingrinum er sleppt af þeim. Hið útþanda móðurleg, sem þrýstir á hinar stóru blóðæðar í kviðnum, er einkum orsök til þessara æðahnúta, og er það eðlilegt, þar sem blóðæðablóðið frá fótunum mætir svo mikilli mótspyrnu á rás sinni aptur til hjartans. Stundum er orsökin önnur, sem sje sokkabönd, er bundin eru of föst; geta þá komið æðahnútar fyrir neðan sokkaböndin.

Að öðru leyti koma æðahnútar optast fyrir á konum, sem hafa átt mörg börn.

Stundum er konunni ekkert mein að þessum æðahnútum, en stundum er henni mikil óhægð af þeim og hana verkjar í þá, svo hún á eigi gott með að ganga eða hreifa sig mikið. Stöku sinnum ber það og við, að gat fer á þá og getur þá orðið að konan missi mjög mikið blóð.

Sjeu æðahnútarnir litlir og hafi konan eigi neina þjáning af þeim, skal eigi gefa neitt um þá, og má búast við, að þeir hverfi aptur eptir fæðinguna. Fari aptur á móti svo, að æðahnútarnir á fótunum stækka mjög, svo hætt sje við að gat fari á þá, skal ráða konunni til að búa sjer til býsna langt ljerepts eða ullarbindi, sem á hverjum morgni skal vefja um fótinn frá tánum og upp að hnjám. Fari gat á æðahnútana og blóðrennsli komi úr þeim, skal yfirsetukonan taka þunnt línskaf eða «fyrsvamp» og leggja á þann stað er gatið kom á, leggja síðan margfallt saman ljereptsrijur og leggja það ofan á og að svo búnu vefja og festa bindi utan um. Komi spenningur og verkur í æðahnút, og roðni hörundið í kring um hann, líkt og komin væri í það heimakoma, er bezt að konan liggi í rúminu og leggi kalda vatns- eða sýrubakstra á aðalhnútinn og haldi því áfram þangað til allur roði, eymsli og spenningur er horfinn.

Það er mikið varið í það að þær konur, sem þjáðar eru af æðahnútum, fari gætilega með sig og vanræki eigi þau hin óbrotnu ráðin, sem hjer voru talin; því mjög almennt er það, að sár myndist upp úr æðahnútum, sem gat er komið á, og eru æðahnútasár mjög ill viðureignar og opt ólæknandi og til mikils baga fyrir þær konur, sem ganga þurfa að vinnu.

Sjerstaklega skal getið þeirra æðahnúta, sem koma fyrir annað hvort í eða í kring um þarfagangsopið, og sem í daglegu máli nefnast *gylliniæð*. Gylliniæðin kemur opt fyrir hjá vanfærum konum og einkum þegar liðið er á meðgöngutímann eða seinna meir er konan liggur á sæng; getur mikill verkur og eymsli komið í hana og orðið konunni til mikillar þjáningar. Til þess að lina þær, er opt gagn að því, að bera olíu eða aðra ósalta feiti á hnútana eða þvo þá opt upp úr köldu vatni, en verði verkurinn meiri, skal konan liggja kyr í rúminu um nokkra daga og skal þá viðhafa bakstur af volgum drafla eða blývatni. Það er mjög áríðandi að konan hafi á degi hverjum liðugar hægðir til baksins og til þess að svo sje, gæti konan tekið eitthvert lint laxermeðal inn svo sem Rhabarbaraduft, laxerolíu eða drekka njólarótarvatn, svo sem 1 kaffebolla daglega.

### 284. grein.

### *Um það, þegar móðurlegið sveigist aptur á við.*

Um það leyti á meðgöngutímanum, er legið gengur eða er gengið upp í hið stóra grindarhol, sem sje frá 3. til 5. mánaðar, getur svo farið, að lega legsins verði skökk á þann veg, að legbotninn sveigist aptur á við og niður á við undir spjaldbunguna; leghálsinn og legopið er vanalegast dregið upp á við og fram á við, og finnst rjett fyrir aptan blöðrubeinið. Ef allt færi eðlilega, þá ætti legbotninn um þennan kafla meðgöngutímans að stefna upp á við og fram á við. Þegar legið þannig sveigist aptur á við, mætti nefna það *aptursveigingu móðurlegsins* og er auðskilið, að hún eigi getur átt sjer stað á síðari mánuðum meðgöngutímans.

*Á má gizka,* að legið hafi stöðu þessa á því, að

konan á mjög bágt með að hafa hægðir til baks og kviðar, eða sviði og verkur fylgir því eða henni er það eigi með neinu móti unnt; í kviðnum og um lendarnar finnst henni þyngsla verkur og ónot og stundum eins og eitthvað vilji leita út um fæðingarpartana.

Fari nú svo að þessi skakka lega legsins eigi lagist af sjálfu sjer, sem einstöku sinnum verður, eða missi konan eigi höfn, sem eigi sjaldan ber við, fer smásaman að bera meira á veikindum konunnar einkum vegna þess, að hægðir til baks og kviðar verða svo örðugar. Kviðurinn þenst út og verður viðkvæmur átöku og hræðsla kemur fremur yfir hana, og stundum fær hún uppköst og hita mikinn í allan líkamann. En þessi einkenni, er nú voru talin, eru með engu einhlítur vottur þess, að legið sje sveigt aptur á við, heldur fæst að mestu leyti vissa fyrir að svo sje, þegar kannað verður um leggöngin. Þegar farið er inn með hendina og með einum eða tveimur fingrum er kannað um aptari hliðarvegg legganganna, finnst þar býsna stór, hörð og hnöttótt bólga, og er þetta legbotninn; optast er aptur á móti örðugt að ná til legopsins sakir þess að það er dregið upp á við fyrir aptan blöðrubeinið.

Það er ýmislegt, er *veldur* aptursveiging móðurlegsins, og fer það að mestu leyti eptir því, hvort legið sveigist smásaman eða allt í einu aptur á við. Verði það smásaman, getur það komið til af því, að konan venur sig á að halda lengi með sjer þvaginu; því þegar þvagblaðran er full, þrýstir hún legbotninum meira og meira aptur á við. Verði aptur á móti aptursveiging legsins allt í einu, veldur því vanalega einhver mikil hreifing eða hristingur á líkamanum, svo sem bylta á

sitjandann, stökk, áreynsla við að lypta þungri byrði eða hún rembist mjög þegar hún hægir sjer o. fl. þess háttar. Einstaka sinnum ber það við, að móðurlegið hafi verið sveigt aptur á við, áður en konan varð vanfær, og verður þá fyrst vart við þessa skekkju, þegar hún er orðin vanfær og legið stækkar.

Það er allajafna, að konunni sje bættabúin, þegar legið er sveigt aptur á við, og ber því nauðsyn til að læknir sje sóttur, þegar yfirsetukonan verður þess áskynja að svo muni vera, því hætt er við að konan leysi höfn, eða þá ei svo fer, að bólga og kolbrandur hlaupi í legið, og er konunni þá dauðinn vís.

Þangað til læknir kemur, er *aðstoð* sú, sem yfirsetukonan má veita konunni, mest í því fólgin, að reyna til að tæma blöðruna með þvagpípunni; en opt er það mjög örðugt, en tekst þó stundum með því móti að fara með tvo fingur inn í leggöngin, þoka leghálsinum aptur á við frá blöðrubeininu, og fara síðan inn í leggöngin með silfurpípuna, og stefna henni upp á við fyrir aptan blöðrubeinið. Það gefur að skilja að konan verður að liggja í rúminu, og bezt fer að hún liggi á annari hvorri hliðinni.

Standi svo á, að langt sje til læknis eða eigi verði náð til hans, en brýn nauðsyn beri til, að konunni verði sem fyrst hjálpað, skal yfirsetukonan sjálf leitast við að koma leginu í rjetta stöðu. Hún skal því fyrst tæma þvagblöðruna með þvagpípunni og endagörnina með stólpípu; skal konan því næst leggjast um þvert í rúminu á hnjen og olbogana, þannig að kviðurinn eins og hangi niður. Yfirsetukonan skal þá fara með 3—4 fingur inn í leggöngin, þrýsta þeim á legbotninn, sem sveigður er aptur á við; skal hún þrýsta jafnt og þjett

í 5—10 mínútur, og benda þrýstingnum í annað hvort hinna íbjúgu vika grindarinnar, því legbotninn á hægra með að síga fram á við og út til hliðanna en í miðlínu grindarinnar, því þar veitir spjaldbungan mótspyrnu. Takist nú yfirsetukonunni að laga móðurlegið, skal konan fyrstu vikuna á eptir liggja kyr í rúminu og liggja helzt á annari hvorri hliðinni; en yfirsetukonan skal umfram allt sjá svo um, að konan hafi liðugar hægðir bæði til baks og kviðar.

Reynslan hefur sýnt og sannað, að aptursveiging móðurlegsins getur komið fyrir hjá konu í hvert skipti sem hún er vanfær, og skal því nákvæmlega hafa gætur á þessu í tíma þegar kona aptur verður vanfær, er áður hefur haft sjúkdóm þennan.

## 285. grein
### *skýrir frá því, er konan á bágt með að kasta af sjer þvagi.*

Þess hefur á ýmsum stöðum hjer að framan verið getið, að skökk staða og lega móðurlegsins um meðgöngutímann gæti valdið því, að konan ætti bágt með að kasta af sjer þvagi, og er það því að kenna, að eitthvað þrýstir á þvagblöðruna eða blöðrupípuna; þegar svona á stendur, skal reyna til að lina eða afmá þrýstinguna eða að öðrum kosti tæma blöðruna með silfurpípunni. En stundum ber það og við, að ekkert þrýsti á blöðruna eða blöðrupípuna, en þó sje örðugleiki á þvagrásinni og stundum verkur, og er þetta þá stundum af því að ofkæling eða krampi hefur komizt að blöðrunni, og sjeu líkindi til að svo muni vera, þar sem engin önnur orsök finnst, þá fer opt svo, að allt lagast þegar konunni hitnar í rúminu; að öðru leyti

verður það opt að góðum notum að láta konuna sitja yfir heitri gufu eða leggja heitan dúk fyrir ofan blöðrubeinið, láta konuna drekka eitthvað heitt, svo sem heitt seyði af kamillublómstrum, eða heita undanrenningu.

---

## Annar kapituli.

*Veikindi konunnar, meðan hún liggur á sæng.*

Á meðan konan liggur á sæng, komast undum fyrir sjúkdómar, sem einnig geta komið fyrir á meðan á fæðingunni stendur og er þeirra þegar að framan getið, svo sem öngvit, krampar, breytingar á legu móðurlegsins o. s. frv. Auk þessa skal yfirsetukonan gefa gætur að sjúkdómum þeim á konunni, er nú skal getið.

### 286. grein.

*Um óreglu á hreinsun sængurkonunnar.*

Fyrst og fremst skal þess hjer getið, þegar *sængurkonan fær blóðlát.* Eigi missa allar sængurkonur jafn mikið blóð. Sje blóðmissir sængurkonunnar meiri og vari lengur en vanalegt er, er ekkert að óttast ef konan að öðru leyti er frísk og lítur vel út. Sje blóðmissirinn aptur á móti svo mikill, að konunni finnist að hún verði máttdregin, er bezt að leita læknis, en þangað til að hann kemur skal yfirsetukonan viðhafa þau meðöl, sem vanalegt er, þegar blóðlátin eru lítil, svo sem einkum súran drykk, 20—30 kanelsdropa hverja eða aðra hvora klukkustund. Stundum ber fyrst á blóðlátunum þegar konan er búin að liggja nokkurn tíma á sæng og og hreinsunin er þegar farin að verða hvítleitari. Þetta getur komið til af því, að konan eigi hafi haft reglu á

matarræðinu, eða henni hefur sinnast og haft geðshræringar eða hún hefur farið of snemma á fætur. Það getur einnig komið til af því, að eitthvað hefur orðið eptir af fylgjunni, annað hvort af legkökunni eða leghimnunum, sem hefur slitnað frá og orðið eptir inni í legholinu. Sje konan búin að liggja á sæng nokkurn tíma og mikið kveði að blóðlátunum og þau komi títt að, skal yfirsetukonan allajafna reyna að leita læknis sem fyrst, og verður það hans að skera úr því, hvort reyna skuli að ná þeim pörtum eggsins út úr leginu, sem kynni að hafa orðið þar eptir.

Þessu næst skal þess getið þá er *hreinsuninni* fylgir *fýla* og *sterkja*, svo skinnleysi verði á hinum ytri fæðingarpörtum og innan á lærunum. Sje konan að öðru leyti frísk, sakar það eigi, og til þess að lækna þetta, skal yfirsetukonan 2—3 sinnum á degi hverjum spröita hafursúpu eða hafursúpu með dálitlu af blývatni í eða seyði af eikarberki inn í leggöngin, og þvo lærin iðulega að innanverðu upp úr mjólk eða hafursúpu. Sje aptur á móti þessu samfara eymsli og verkur í kviðnum eða um lendarnar, og sjeu einhver sóttarmerki, skal sem fyrst vitja læknis.

## 287. grein.

### *Þroti og sár á hinum ytri fæðingarpörtum.*

Sjeu sprungur í hinum ytri fæðingarpörtum verður opt úr þeim sár og þroti. Til þess að eyða þrotanum er gott að þvo hann úr volgu jurtaseyði, og ef sárin verða óhrein og gráleit, skal þvo þau iðulega með hreinu köldu vatni, en að öðru leyti skal leita læknisráða þegar hægt er. Í 113. greininni er talað um, hvernig fara skal með sprungur og rifur, er koma í holdbrúna,

288. grein.

*Þá eitthvað er að þvagrásinni.*

Þegar fæðingin er langvinn eða örðug, getur þrýsting komizt á þvagblöðruna eða þvagpípuna og ollað því, að konan finnur til sársauka hina fyrstu daga meðan hún liggur á sæng, þegar hún kastar þvaginu eða hún á bágt með það eða henni er það eigi unnt; sje þessa eigi gætt, koma stundum af þessu miklir verkir um allan kviðinn og konunni finnst hún þurfi einlægt að kasta þvaginu. Finni nú konan að eins til sársauka þegar hún kastar þvaginu, og sje þvagið eins mikið og vanalegt er, þá hverfa opt verkirnir þegar borin er kamfóruolía á kviðinn og volgur bakstur annað hvort grjónabakstur eða vatnsbakstur er lagður neðan til á kviðinn. Sje þvagið aptur á móti lítið eða geti konan eigi kastað því, þá skal yfirsetukonan kvelds og morguns ná því með silfurpípunni, og halda því áfram þangað til góð lögun er komin á þvagrásina.

Svo getur og farið, að konan *ósjálfrátt* láti þvaginu; þetta verður vanalegast þá er fæðingin hefur verið mjög örðug og þrýsting hefur orðið á blöðruhálsinn og máttinn dregið úr honum, svo þvagið rennur ósjálfrátt út; þetta hið sama má og verða, þegar rifa hefur komið á þvagblöðruna, svo þvagið sífellt rennur út; verður þetta einkum þegar konan hefur komið mjög hart niður eða henni hefur orðið að hjálpa með verkfærum, og er það auðvitað að þvagið rennur þá eigi út um þvagpípuopið, heldur út um leggöngin. Allt hið sama má verða, þegar svo mikil þrýsting hefur orðið á blöðrunni, meðan á fæðingunni stóð, að í hana hefur hlaupið bólga; hefur síðan farið gat á og þvagið farið úr blöðrunni inn í leggöngin; standi nú svo á, sem

síðast var getið, þá ber fyrst á því mörgum dögum eptir fæðinguna að þvagið rennur ósjálfrátt, en aptur á móti er það venjulegt að konan hefur átt bágt með að kasta þvaginu fyrstu dagana. Það er auðvitað, að leita verður læknis þegar svona stendur á, einkum ef þvagið rennur um leggöngin.

289. grein.

*Um sótt (Feber) á sængurkonum.*

Þegar sængurkona hefur um nokkurn tíma haft sótt, semsje ýmist kuldahroll eða hita, þorsta, höfuðverk, svefnleysi og hún er eins og altekin, þá skal yfirsetukonan ávallt hafa mestu gætur á konunni, því vera má, að úr þessu verði hættuleg veiki og sje kostur á, er bezt að vitja þegar læknis. Yfirsetukonan skal ávallt hafa gætur á því, þegar mjólkurkaldan varir marga daga, því óttast má barnsfarasóttina.

Hin svo nefnda *mjólkurkalda* kemur 3. eða 4. dag eptir fæðinguna. Lýsir hún sjer fyrst með kuldahrolli og síðan með höfuðþyngslum, þorsta og slagæðin verður tíð; samfara þessu kemur stálmi, eymsli og opt verkur í brjóstin. Vanalegast varir kaldan hálfan eða heilan dag; tekur þá konuna mikill sviti og mikil mjólk safnast í brjóstin og batnar svo konunni aptur. Þegar mjólkurkalda kemur fyrir á sængurkonum, skal yfirsetukonan sjá svo um, að konan haldi kyrru fyrir og forðist allt það, sem æst gæti blóðið. Þegar kuldahrollurinn grípur konuna, skal gefa henni bolla af heitu blóðbergsseyði eða kamilluseyði, og hitnar konunni við það betur. Sýrubakstur eða súrdeig skal leggja undir iljarnar, og hafi konan eigi haft góðar hægðir til baksins, skal

setja henni pípu eða gefa henni inn laxerolíu eða eitthvert annað laxermeðal. Sje mikill þroti í brjóstunum, linast hann einna bezt með því að láta barnið við og við sjúga brjóstið, eða ef örðugleikar eru á því, mætti bera volga olíu eða aðra feiti á allt brjóstið og leggja ull utan um það. Takist svo til, að sóttin helzt við um lengri tíma og konunni heldur þyngir, og fari hún að kenna verkjar og eymsla í kviðnum, fer bezt að læknis sje þegar vitjað, því, eins og áður var getið, má óttast, að konan hafi tekið hina hættulegu barnsfarasótt.

Eins og kunnugt er, er *barnsfarasóttin* hættuleg veiki og mjög mikið er undir því komið, að vitjað sje læknis í tækan tíma ef annars vegar er kostur á, að á henni sje ráðin bót; það er því mjög svo áríðandi, að yfirsetukonan þekki einkenni þau, er lýsa sjer þá er konan tekur barnsfarasóttina, og er það yfirsetukonunnar að sjá þá um, að vitjað sje læknis. Vjer skulum því stuttlega skýra frá, hvernig barnsfarasóttin almennast lýsir sjer.

Almennast byrjar barnsfarasóttin á hinum fyrstu dögum er konan liggur á sæng; stundum byrjar hún fyrst eptir nokkra daga. Hún lýsir sjer þannig, að kuldahrollur eða kuldaaðkenning tekur konuna; síðan kemur hiti á hörundið, þorsti, höfuðverkur og verkir í kviðnum, sem optast byrja neðarlega öðru hvoru megin í kviðnum; kviðurinn sjálfur er aumur átöku og verkirnir ýfast hvað lítið sem konan reynir á sig eða hreifir sig. Hreinsunin er opt mjög illa lyktandi. Haldist verkirnir við í kviðnum og sóttin eigi minnki, má optast ganga að því vísu, að eigi gangi að konunni mjólkurkalda og eins má sjá, að eigi muni það vera hinar sáru eptirhríðir, því þær koma að konunni með köflum

þannig, að konan er frísk og finnur ekkert til þegar á milli þeirra verðar, og eigi fylgja þeim nein eymsli í kviðnum nje sótt. Þó skal þess getið, að yfirsetukonan skal allajafna hafa það hugfast, að stundum eru verkirnir í kviðnum að eins litlir eða líða skjótt frá, en þetta á sjer stað þá er veikin byrjar með hægð og er sem hulinhjálmi faldin og er þá mjög örðugt að þekkja barnsfarasóttina er hún byrjar þannig, og verður því eigi of opt tekið fram, að yfirsetukonunni allajafna skal þykja það ískyggilegt þegar sængurkona tekur sótt, sem varir lengri tíma en mjólkurkaldan er vön að vara, og ef kostur er á, skal þegar svo er ástatt leita læknisráða, en þangað til hann kemur skal yfirsetukonan, ef nauðsyn er á, setja konunni stólpípu, og til að lina verkina í kviðnum mætti leggja á hann volgan bakstur.

Barnsfarasóttin er næmur sjúkdómur og má vera að sóttarefnið berist að konunni í fæðingunni svo sem í óhreinum klútum eða svömpum, óhreinum höndum eða spröitum o. fl. þ.h. Þegar því yfirsetukona er hjá konu, er tekur barnsfarasótt, skal hún allajafna gæta hinnar mestu varúðar svo hún eigi beri sóttarefnið með sjer frá konunni til annara sængurkona eða konu, sem lögst er á gólf. Yfirsetukonan skal skilja þá pípuna (sem fylgir móðurspröitunni), sem hún hefur við haft, eptir á heimili konunnar og eigi við hafa þá pípuna við aðrar sængurkonur, er liggja á sæng eða lagstar eru á gólf; hún skal eigi viðhafa hana við aðrar konur fyrr en hún er búin að þvo hana í vel heitu sodaeða pottöskuvatni. Sjálfa spröituna og silfurpípuna skal hún hreinsa á líkan hátt í hvert skipti sem þær eru viðhafðar við konur, er liggja í barnsfarasótt. Yfirsetukonan skal enn fremur gæta hreinlætis, hvað föt sín

snertir og þvo vandlega hendur sínar og handleggi upp úr vel volgu sápuvatni, og fari hún beinlínis frá konu, er liggur í barnsfarasótt til annarar konu, er lögst er á gólf, skal hún, ef kostur er á, þvo hendur sínar úr klórvatni. Sængurfötin skulu vera hrein og skal viðra þau opt og fer bezt, ef kostur er á, að um þau sje skipt, og líkt er um allt annað, sem viðhaft er meðan á fæðingunni stendur. Aldrei skal yfirsetukonan fást við að klæða lík þeirra kvenna, er dáið hafa úr barnsfarasótt.

Þegar svo tekst til, að barnsfarasótt á stuttum tíma kemur fyrir á mörgum konum í umdæmi yfirsetukonunnar, skal hún þá þegar gjöra hjeraðslækninum njósn um slíkt, svo varúðarreglum þeim sje beitt, sem unnt er, ef annars vegar verður komizt fyrir útbreiðslu sóttarinnar. Að öðru leyti viljum vjer ráðleggja yfirsetukonunum að kynna sjer bækling landlæknis Dr. Hjaltalíns um barnsfarasóttina. Bæklingur þessi var gefinn hjer út 1865.

### 290. grein.

*Veikindi í brjóstunum.*

Eigi ber það sjaldan við fyrstu dagana er konan liggur á sæng, stöku sinnum löngu seinna, að vart verður við þrimla í brjóstunum, sem annaðhvort eru utarlega rjett út undir hörundinu eða dýpra inni í brjósteitlunum, og nefnast þrimlar þessir *mjólkurþrimlar*. Fyrst framan af er enginn eða lítill verkur í þeim eða eymsli, þá á þá er þrýst, og enginn roði í hörundinu þar sem þrimlarnir liggja undir; en sje eigi hirt um þá eða röng meðöl viðhöfð, má vera að svo takist til að *hiti og bólga* hlaupi í þá, og þrútna þeir þá og harðna

og eymsli koma í þá, hörundið roðnar og konan tekur sótt; verkurinn og þrotinn eykst dag frá degi og loks grefur í þrimlunum og hefur konan opt af því mestu óhægð um langan tíma.

Það er venjulegast tvennt sem veldur því að mjólkurþrimlar og hiti og bólga kemur í brjóstin, það annað, að mjólkin eigi er sogin nógu snemma eða nógu opt úr brjóstunum, og hitt, að kulur kemst að brjóstunum. Sjeu mjólkurþrimlarnir nýkomnir í brjóstin, má opt eyða þeim með þeim hætti að sogin sje mjólkin úr brjóstunum opt og títt og að borin sje volg olía (eða flot eða ósaltað smjör) á brjóstin og þau síðan þakin góðum ullarflóka. Sje þegar komin merki þess, að hiti og bólga sje komin í brjóstin, má yfirsetukonan reyna að eyða því með hinum sömu ráðum, og nú var getið og tekst þá stundum að stemma stigu fyrir að meira verði úr því; reyna má einnig að leggja á bólguna volgan vatnsklút eða grjónabakstur (róubakstur); dragi nú eigi úr bólgunni, en líti út fyrir að úr því muni verða ígerð, er ráðlegast að leita læknis.

Stundum ber við, að *skinnleysi og sprungur koma á geirvörturnar*, og hefur sængurkonan af því mikla þjáningu og auk þess er mjög hætt við, að annað hvort mjólkurþrimlar eða bólga hlaupi í brjóstin, sökum þess að þau eru sjaldan sogin eða miklir örðugleikar eru á því. Þess er áður getið hjer að framan, með hverjum hætti að konan skuli síðast á meðgöngutímanum leitast við að koma í veg fyrir að þannig takist til. Meðan hún liggur á sæng, má opt vera að henni takist að koma í veg fyrir það með því að þvo opt geirvörturnar upp úr hreinu köldu vatni í hvert skipti sem barnið er búið að sjúga brjóstin. Fari samt sem áður

svo, að skinnleysi eða sprungur koma á geirvörturnar, þá skal einna helzt þvo þær opt og títt upp úr hreinu köldu vatni eða blývatni, en sje blývatnið viðhaft, skal vandlega þvo geirvörturnar áður en barnið sýgur aptur brjóstin, eða og mætti bera flot eða olíu í ríju og leggja á vörtuna (ráðlegast er eigi að viðhafa neins konar salve). Sje geirvartan þrútin og mjög viðkvæm, eða sjeu sprungur í henni eða sje hún með hrúðri, er opt mjög gott að væta ullarríju í fínni olíu og leggja á vörtuna, og þar á ofan lítinn volgan bakstur (vatnsgrjónabakstur). Allajafna þá er sjúkdómur þessi er illur viðureignar, mun bezt fara að leita læknisráða.

---

## Þriðji kapítuli.

### *Veikindi, sem koma fyrir hjá nýfæddum börnum.*

291. grein.

*Augnveiki á nýfæddum börnum.*

Það er mjög svo eðlilegt, að augu hins nýfædda barns sjeu viðkvæm og illa þoli alla skæra birtu, gust og óheilt lopt, og reynslan hefur sýnt og sannað, að hjer um bil helmingur blindra manna hafa blindir orðið af augnabólgu, sem þeir hafa fengið sem barn skömmu eptir fæðinguna, og sem gjörsamlega hefur eytt sjóninni. Það er því ávallt mjög svo áríðandi, að allra ráða sje þegar gætt í tíma, þá er slík bólga hleypur í augu hins nýfædda barns, því sje þessa eigi gætt, en hirðuleysi og fákunnátta sje látin ráða, fer jafnan svo, að sjáaldrið eyðist eða skemmist svo, að barnið bíður þess aldrei bætur, og verður sjónlaust alla æfi sína.

Það er því allajafna ráðlegast að leita læknisráða í

tíma, en með því að opt stendur svo á, að eigi er hægt að ná til hans, þykir hjer við eiga að gefa nokkra vísbending í þessu atriði.

Þegar mikið kveður að augnabólgunni, er það að vísu eigi annara meðfæri en læknis, ef vel á að fara; en jafnvel þótt fremur lítið kveði að henni í fyrstu, má vera, að hún geti orðið hættuleg fyrir barnið, ef hún viðhelzt um lengri tíma og að sjónin glatist.

Það fer jafnan svo, að yfirsetukonan hefur á hendi hjúkrun barnsins fyrstu dagana eptir fæðinguna, og er því mikils áríðandi, að yfirsetukonan hafi nákvæmar gætur á augum hins nýfædda barns, og er það mikil bót í máli, ef hún þekkir, hvernig með þennan hættulega sjúkdóm skal fara, þegar eigi verður með neinu móti náð til læknis, og er þess eigi að dyljast, að ábyrgðin er mikil, er á henni hvílir, ef illa tekst til sökum vankunnáttu eða hirðuleysis.

Augnabólga á nýfæddum börnum *lýsir sjer* vanalega fyrst nokkrum dögum eptir fæðinguna. Hún byrjar þannig, að augnahvarmarnir roðna og augnalokin bólgna lítið eitt. Þegar á einum degi getur bólgan í augnalokunum aukizt, hörundið hitnað og roðnað og svo sem stirnt á það. Samfara þessu eða að minnsta kosti skömmu á eptir fer að íla vessi út á milli augnalokanna, og kemur vessi þessi frá innri hlið augnalokanna, þeirri hliðinni, er snýr að sjáaldrinu. Í fyrstu er rennslið lítið, vatnskennt og blandað hvítgulum ögnum; síðar fer að renna meira úr augunum og þykknar það og líkist grepti, og svo mikið getur að þessu kveðið, að það rennur í dropatali út undan augnalokunum, einkum sje efra augnalokinu lypt upp á við. Fyrst framan af er sjúkdómurinn að hins innan á sjálfum augnalok-

unum, sem mjög eru rauð og þrútin, en sjálft sjáaldrið er enn óskert. Sje nú ekkert hirt um sjúkdóminn eða sjeu viðhöfð röng meðöl, þá er mjög hætt við að hann leiti einnig á sjáaldrið; hið hvíta í auganu fer þá að roðna eða þrútna, því næst sjálft sjáaldrið, sem bólgan eyðir svo, að gat fer á það og verður aldrei sjeð með því auganu framar. Lýsi þessi einkenni sjer á auga nýfædds barns, má ganga að því vakandi, að barnið sje búið að fá ískyggilega augnabólgu, og að við hinu versta megi búazt.

Margt er það, sem *ollað getur* augnabólgu á nýfæddum börnum. Þannig má nefna allan reyk, rik, brælu og óheilnæmt andrúmslopt í því herbergi, sem barnið er í. Einnig má telja það víst, að sjerhver óhreinindi, svo sem megnt slím frá fæðingarpörtum móðurinnar, sem komast í augað, geti verið orsökin, og það er bæði sýnt og sannað, að berist óþornaður eða þornaður gröptur úr sjúku auga í heilbrigt auga, þá bregzt það eigi, að hið heilbrigða auga allajafna veikist af þessum hættulega sjúkdómi.

Það verður því að gæta margs, þegar sjá skal um, að augu hins nýfædda barns eigi verði fyrir þessum sjúkdómi. Þess skal því gætt, er nú segir: Þegar í stað er barnið er fætt, skal vel og vandlega hreinsa augu barnsins; yfirsetukonan skal til þessa viðhafa mjúkan njarðarvött (svamp) vættan í táhreinu volgu vatni og með varkárni strjúka honum um augnalokin að utan og ná af þeim öllu slími og óhreinindum; eigi má vera nein bræla, eða óheilnæmt andrúmslopt í herbergi því, sem barnið er í. Meðan móðir barnsins liggur á sæng, skal yfirsetukonan nákvæmlega gæta þess, að ekkert af hreinsuninni komist í augu barnsins, hvort heldur sem

það er úr því, sem í rúminu er eða í njarðarvetti eða af fingrum yfirsetukonunnar eða úr öðru. Einnig skal yfirsetukonan gæta þess, að hún eigi beri með sjer sjúkdóminn frá einu barninu til annars, og standi svo á, að hún passi barn, sem augnveikt er, skal hún vandlega þvo hendur sínar og gæta alls þrifnaðar áður en hún tekur á móti öðru barni eða fæst við annað nýalið barn; ber það einkum til þess, að augnveiki þessi er mjög svo næm og sjerhver hin minnsta ögn af greptinum úr sjúku auga er nóg til þess að gjöra alheilt auga veikt. Það er vitaskuld, að það er skylda yfirsetukonunnar, að geta þess við heimafólkið, að sjúkdómurinn sje mjög næmur, svo það gæti sín og forðist sjúkdóminn.

Hvað snertir *meðferðina* á þessari skæðu augnabólgu á nýfæddum börnum, er þess getið áður, að bezt er að eingöngu læknir fáist við hana, og sjerhver skynsöm yfirsetukona mun sem fyrst ráða þeim, sem að barninu standa, til að leita læknishjálpar, því henni er það lítið þakkað, þótt vel takist án læknishjálpar, en fari aptur á móti svo, að eitthvað verði að sjáaldrinu, eins og venjulegast er, þá er engin þau meðöl eru viðhöfð, sem við eiga, þá er það mjög svo mikill ábyrgðarhluti fyrir hana, ef hún eigi hefur stutt að því, að læknis hafi verið vitjað.

Það er samt sem áður eigi nóg, að læknis sje vitjað, en það verður að vera sem fyrst, því vera má, að sjúkdómurinn sje svo ákafur, að auganu að hálfum degi liðnum verði eigi lengur bjargað.

Það, sem einkum gjörir veiki þessa svo hættulega, er slím það eða gröptur, sem safnast í augað, því það er svo megnt, að það getur svo sem jetið gat á augað, þegar það safnast fyrir innan undir augnalokunum. Það er því mjög svo áríðandi, að augað sje mjög opt þvegið

úr ívolgu vatni, stöðugt meðan slím eða gröptur rennur út á milli augnalokanna, þegar þau eru tekin hvort frá öðru. Stundum verður að þvo þannig augað með hálfrar stundar millibili eða jafnvel optar, þegar gröpturinn safnast mjög mikill, það verður því að vekja barnið, er það hefur sofið nokkra stund og hlýfast eigi við því að þvo augun, þótt það hljóði við, eins og eðlilegt er; sje þessa eigi gætt, má svo fara, að af því leiði illt eitt, því auðskilið er, að betra er að óværa barnið í svefni sínum nokkur dægur, en að það, ef til vill, missi sjónina um alla æfi, sem vel getur orðið ef gröpturinn er látinn safnast fyrir innan undir augnalokunum. Það er áríðandi að vatnið, sem augað er þvegið úr, sje hreint og volgt, og eigi skal þvo það úr öðru en vatni og ótækt er að viðhafa til þess mjólk, því fitan í mjólkinni gjörir það að verkum, að augnalokin klínast saman og við það getur gröpturinn eigi runnið út.

Þegar þvo skal hið veika auga úr vǫlgu vatni, er bezt að þannig sje farið að: bezt er að viðhafa lítinn og mjúkan þvottasvamp eða hreina gamla ljereptsríju, vætta í volgu vatni og síðan með varúð strjúka gröptinn burt jafnótt og hann rennur út á milli augnalokanna, og til þess að enginn gröptur sje eptir inni, verður að hreifa augnalokin upp og niður með tveimur fingrum hinnar handarinnar, því með þeim hætti veitir hægara að gröpturinn gangi út milli augnalokanna.

Auk þessa skal 3—4 sinnum á degi hverjum skola greptinum innan úr auganu með volgu vatni, og er bezt farið að því með þeim hætti, er nú segir: Leggja skal barnið upp í lopt á keltu sjer eða borð þannig, að höfuð barnsins hangi út yfir keltuna eða borðið. Með tveim fingrum annarar handarinnar skal því næst opna

augnalokin og með hinni hendinni skal láta renna úr svampi, sem vættur er í volgu vatni, ofan í augað milli augnalokanna; þessu skal haldið áfram meðan nokkurt slím eða gröptur kemur út milli þeirra. Þess skal ávallt gætt, að farið sje að þessu með stillingu og gætni og aldrei skal neyta krapta. Það er vitaskuld, að þess skal einnig gætt, að vatnið, sem kreyst er úr svampinum í augu barnsins, eigi sje látið renna ofan í munn barnsins, en umfram allt er það áríðandi, að sjeð sje um, að vatnið úr veika auganu eigi renni yfir í hið ósjúka, því þá er því mjög hætt, þar sem sjúkdómur þessi er mjög svo næmur.

Þess þykir eigi þörf að geta hjer um fleira hvað meðferð sjúkdómsins snertir, því sje þess gætt með gætni og ástundun, sem hjer að framan hefur verið tekið fram og farið eptir því, og ef eigi er dregið of lengi að vitja læknis, þá má huggast við það, að allt það hefur gjört verið, sem mannlegur kraptur megnar til þess að komast fyrir hinar illu afleiðingar þessa hættulega sjúkdóms.

### 292. grein.

*Bólga í brjóstunum á nýfæddum börnum.*

Það ber eigi sjaldan við að vart verður við herzli nokkurt í brjóstum nýfæddra barna, og eru eymsli í þeim, þá við þau er komið. Herzli þetta kemur til af því að vessi hefur safnazt fyrir í mjólkurgangana og kemur þetta fyrir bæði á sveinbörnum og meybörnum. Stundum má með rjettri aðferð eyða þessu herzli, en opt verður úr því graptarkýli einkum ef óskynsamlega er með farið, svo sem ef þrýst er á brjóstin í því skyni að ná vessanum, er safnazt hefur í brjóstin, út um geirvörtuna.

Þegar yfirsetukonan verður vör við slíkt herzli í brjóstunum, skal hún gæta þess að þrýsta eigi eða fjatla eigi um of við þau, en bera volga olíu á brjóstin og hylja þau ullarflóka og þannig reyna að sporna við því að grafi í herzlinu; verði úr því ígerð skal helzt leita læknisráða.

293. grein.

*Um krampa í ungbörnum.*

Krampar koma opt fyrir á ungbörnum, er flestir verða hræddir við, en eigi eru þeir allir jafn hættulegir.

Krampinn getur lýst sjer þannig, að útlimirnir hreifast ósjálfrátt, og rjettir barnið ýmist úr þeim eða kreppir þá, samfara þessu afmyndast barnið í framan og rekur opt upp hljóð. Þessi krampi getur orsakazt af vindkveisu í görnunum, en líður skjótt frá, ef rjettilega er með farið. Miklu hættulegri er aptur á móti krampinn, ef hann varir lengi og hann kemur aptur og aptur í barnið eða ef froða kemur fram í munninn, því þá svo er, orsakast krampinn venjulegast af sjúkdómi í heilanum eða hryggmænunni, og deyja þá börnin opt að stuttum tíma liðnum.

Yfirsetukonan skal að eins til bráðabyrgða veita ráð við sjúkdómi þessum, en sem fyrst láta leita læknis. Haldi hún að krampinn komi af vindkveisu, má hún reyna að losa vindinn með því að nudda kviðinn með heitri hendinni eða leggja heitan bakstur á hann og setja barninu stólpípu, og hafa í henni seyði af kamillutegrasi og laxerolíu eða aðra ósaltaða feiti. Haldist krampinn aptur á móti við og sjeu meiri brögð að honum, skal hún, ef þess er kostur, þegar láta vitja læknis, og þangað til hann kemur, skal hún það eitt að gjöra,

að leggja kaldan vatnsklút á höfuð barnsins, sjá um að gott og heilnæmt andrúmslopt sje í herberginu, og vel mætti lauga barnið, því við það linast opt krampinn. Sjerstök tegund krampans á ungbörnum, sem er mjög svo hættulegur, kemur stundum fyrir, og er það sú tegundin sem nefnist *ginklofi*, og verður opt úr honum hinn svo nefndi *stífkrampi*.

Ginklofinn (eða munnkrampinn) lýsir sjer vanalega á 6.—8. degi eptir fæðinguna, og orsakast opt af því, að ranglega er farið með naflastaðinn áður en eða eptir að dottið er frá nafla barnsins; hann getur og komið af því að barnið hefur verið laugað úr of heitu vatni. Ginklofinn lýsir sjer með þeim hætti, að barnið verður óvært og ömrulegt og eins og hæsi komin í það og á örðugt með að sjúga brjóstin. Ef reynt er að fara með vísifingurinn inn í munninn er þetta nokkrum örðugleikum bundið, og þegar nokkuð er liðið á sjúkdóminn, er eigi unnt að koma kjálkunum sundur, því þeir eru sem fast bundnir saman sökum hins mikla spennings í kjálkavöðvunum. Líka reigist höfuðið aptur á bak og hálsinn verður stirður og verði úr þessu stífkrampi, fer líkur stríðleiki í allan líkamann einkum í bakið og þótt þetta lini um stund hlaupa krampadrættir í útlimina. Sjúkdómur þessi verður optast barninu að bana og skal því þegar í stað vitja læknis.

### 294. grein.
### *Munnskóf.*

Munnskóf er næmur sjúkdómur og kemur að eins fyrir í munninum og kokinu; hún lýsir sjer með þeim hætti að munnurinn verður þakinn innan hvítri skóf, sem má hjer og hvar skafa af og er þá undir skófinni

rauðleitur blettur, sem er viðkvæmur mjög og blæðir úr ef snertur er. Kveði eigi mikið að munnskófinni, sjást að eins hjer og hvar hvítleitir smádílar á tungunni eða að innanverðu á kinnunum, líkast því sem væru það smáagnir af drafla; kveði meira að því, má svo fara að allur munnurinn að innanverðu og allt kokið sje þakið þessari skóf, og sje svo, þjáir þetta mjög barnið, því það þolir eigi að sjúga sakir eymsla í munninum. Stundum kemur þetta fyrir á börnum, sem eiga illan aðbúnað og hafa illa næringu eða eru veik af einhverjum öðrum hættulegum sjúkdómi, einkum magaveiki, og er þá lífi barnsins enn hættara.

Optast mun orsökin til munnskófarinnar vera eitthvert óhreinlæti; annað hvort er mjólkin súr eða mjólkurílátið eigi nógu hreint eða pípan, sem barnið sýgur með, ekki nógu opt eða vandlega þvegin. Það er víst að mikil munnskóf er sjaldnar á brjóstabörnum en hinum, er fædd eru á annari fæðu, einkum ef geirvörturnar eru opt þvegnar, og verður því að hafa hið mesta hreinlæti og vandlæti um allt það, sem barnið drekkur og því viðvíkur. Það bezta meðal við þessu, er að strjúka opt ofur hægt með hreinni ríju, vafinni utan um fingur sinn og vætta í volgu vatni, skófina innan í munninum, væta síðan fjöður í vel hreinu volgu vatni og strjúka innan um munninn, og þegar búið er að ná mestallri skófinni skal vandlega þvo innan munninn með fjöður, vættri í volgu hreinu vatni, í hvert skipti sem barnið er búið að sjúga eða drekka; sje þessa gætt, er nú var sagt, er það optast hirðuleysi einu um að kenna ef skófin safnast aptur, hitt er víst að til þessa þarf mikla þolinmæði. Almennt er eitt meðal við munnskófinni, sem sje hinn svo nefndi munnskófssafi, og verður hann

opt að gagni, en að eins verður að gæta þess, að hann eigi súrni; skal helzt viðhafa hann á þann hátt, að dýfa skal linri fjöður ofan í safann og bera hann síðan innanvert á allan munninn þar sem skófin er, og gjöra skal þetta opt á dag. Hverfi eigi munnskófin við þessar tilraunir, og barninu að einhverju öðru leyti sje illt er ráðlegast að leita læknis.

295. grein.

*Niðurgangur.*

Hafi barnið niðurgang um langan tíma svo sjái á því, skal vitja læknis. Hjer skal að eins stuttlega getið þeirra ráða, sem yfirsetukonan mætti viðhafa þangað til ráðlegging læknis kæmi. Sje barnið á brjósti og fái niðurgang, má halda áfram að leggja það að brjósti, en samfara því skal á degi hverjum, svo sem tvisvar, gefa því seyði af hafurgrjónum eða bygggrjónum, vel síað, einna helzt seyði af hrísgrjónum. Sje barnið aptur á móti eigi á brjósti en fái pela eða barnamat, verður að breyta til með mataræðið með þeim hætti, að hætta skal að gefa því mjólk eða barnamat, en gefa því að eins vel síað seyði af bygg- eða hrísgrjónum og láta lítið eitt af vel muldum sykri í það.

---

# Yfirlit efnisins.

## Fyrsti þáttur.

Um fæðingarpartana.



## Annar þáttur.

Um meðgöngutímann.

## Þriðji þáttur.

Um fæðinguna yfir höfuð að tala og frá hinni reglulegu fæðingu sjer í lagi. Bls.

### Fyrsti kafli.

Um fæðinguna yfir höfuð að tala.



### Annar kafli.

Um fæðinguna, þá hún er með öllu regluleg.

## Fjórði þáttur.

Um óreglulega fæðing og hjálpina þá svo stendur á.

### Fyrsti kafli.

Hin óreglulega fæðing, þá er konunni er um að kenna.

Fjórði kafli.
Um það hvernig fæðingin verður óeðlileg, þá er hana ber að í ótíma.



## Fimmti þáttur.

Um sængurleguna og um að hjúkra hinu nýfædda barni.



## Sjötti þáttur.

Um veikindi þau, sem koma fyrir meðan á meðgöngutímanum stendur og meðan konan liggur á sæng, og um veikindi á nýfæddum börnum.

---

